# Minningarrit

Séra JÓN BJARNASON, dr. theol.



1845--1914

BX
8080
B52
M66
1917

HSS



# Minningarrit

UM

## Séra Jón Bjarnason, dr. theol.





**1845--1914**

*GEFIÐ ÚT AF HINU EVANGELISKA LÚTERSKA KIRKJU-FÉLAGI ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI,*
1917.



# Efnisyfirlit

---

# Myndir



# ÆFISAGA
## séra Jóns Bjarnasonar, dr. theol.

### I. FRAM AÐ HÁDEGI.
1845—1880.

Eftir séra Rúnólf Marteinsson.







EIN hinna miklu lista mannanna er myndagjörð. Nytsemd einkennir þá list engu síður en fegurð. Má vera jafnvel, að sum myndagjörð krefjist alls engrar viðurkenningar fyrir fegurð. Margar myndir gjöra tilkall til þess eins, að vera sannar; en hirða ekkert um aðra list. En ef myndirnar aðeins eru sannar, eru þær ábyggilegar heimildir og þess vegna nytsamar, séu þær af því, sem vert er að geyma.

Í þessu broti af æfisögu séra Jóns Bjarnasonar vil eg leitast við að sýna nokkrar látlausar myndir af honum á því skeiði æfi hans, sem nær fram undir hádegisbilið. Eg tel séra Jón fullþroskaðan mann, þegar hann sezt að í Seyðisfirði, og þess vegna þá komið hádegi á æfi hans. En það eru að eins myndir af honum, ekki dómar um hann. Þeir tilheyra seinni tímum.

Sannarlega er það ómaksins vert, að safna sem flestum myndum af þeim manni, sem var einn hinn einkennilegasti og frumlegasti maður, er uppi var





meðal Íslendinga á nítjándu öldinni og fyrsta broti hinnar tuttugustu. Og þetta verður að gjörast án tafar, meðan fjöldi þeirra manna er lifandi, sem muna eftir honum, voru samverkamenn hans, eða hafa frá einhverju markverðu að segja í sambandi við hann, sem þeir sjálfir sáu eða heyrðu.

Með þetta í huga legg eg fram þær fáu myndir, sem eg hefi safnað af þessum hluta æfi séra Jóns.

Að Hofi, prestssetrinu í Álftafirði í Suður-Múlasýslu, andaðist 16. Ágúst 1843 séra Jón Bergsson, prestur þeirra Álftfirðinga, og lét eftir sig ekkju og 8 börn, 5 pilta og 3 stúlkur. Ekkjan, Rósa Brynjólfsdóttir, var með börnum sínum að Hofi til næsta vors. Flutti hún þá á kirkjujörðina Þvottá, er margir kannast við sem hið forna heimili Síðu-Halls. Í allmiklum erfiðleikum átti hún, með sinn stóra barnahóp, þótt hún ekki væri efnalaus, ekki sízt vegna þess, að nú var að því komið, að tveir elztu bræðurnir færi í latínuskólann í Reykjavík. Hafði það verið fastráðið áður en faðir þeirra dó og var því ekki rift.

Að Þvottá giftist Rósa í annað sinn, Bjarna Sveinssyni, stúdent frá Bessastaðaskóla. Var hann ættaður úr Fáskrúðsfirði, maður bráðgáfaður, fjölhæfur, þyrstur í fróðleik og prýðilega hagmæltur, þótt lítið af kveðskap hans hafi birst á prenti. Eitt ljóð eftir hann er prentað í **Sameiningunni** (3. árg. nr. 3). Sýnir það ljóð, ef til vill, ekki stórskáld, en er engu síður mjög laglegt, vel frá því gengið og þrungið af barnslegu trúartrausti. Hann var víðsýnn og unni fróðleik annara landa, samhliða fræðum Íslands, var frábærlega vel að sér í bókmentum Grikkja og Rómverja. Meðal annars hafði hann "þaullesið flestöll rit Platóns á frumtungunni", og "latínu las hann nokkurnveginn eins hispurslaust og móðurmálið", samkvæmt vitnisburði sonar hans, séra Jóns, og honum kendi séra Bjarni svo vel undir latínuskóla, að þegar þangað kom, hafði hann "numið meira í latínu og grísku en flestir, ef ekki allir aðrir,

nýsveinar þá í skóla", og alt það, sem hann nam í þeim fræðum, þakkaði hann langmest föður sínum (Apologia pro vita sua, bls. 21, og ritgjörð í Sam. 4, 12). Á elliárum sínum las séra Bjarni höfunda eins og Gibbon og Thier, og sýnir það hve fjölhæfur hann var. Búskap stundaði hann með miklum dugnaði og gaf sig ennfremur við læknisstörfum. Alt, sem hann lagði stund á, fórst honum vel úr hendi. Vel látinn maður var hann og mjög trúlega vann hann skyldustörf sín sem prestur, þótt hann virtist ekki leggja mikla stund á guðfræði sem vísindagrein. Hinum stóra hóp stjúpbarna reyndist hann mjög drengilega og virtu þau hann og elskuðu.

Rósa, móðir séra Jóns, var dóttir séra Brynjólfs Gíslasonar í Eydölum í Breiðdal. Var það merk presta ætt. Voru þeir forfeður hennar þar prestar hver fram af öðrum, afkomendur séra Einars Sigurðssonar (1539—1626), er var faðir Odds biskups Einarssonar. Séra Einar var hið merkasta sálmaskáld sinnar tíðar á Íslandi, og frá honum stafar mestur hluti svonefndrar Vísnabókar, er var ein fyrsta sálmabók íslenzkrar þjóðar. Rósa var ein af stórum hóp barna. Merkastur þeirra systkina var séra Gísli doktor Brynjólfsson, prestur á Hólmum í Reyðarfirði. Eftir hann orkti Bjarni Thorarensen ein hin fegurstu erfiljóð sín. Sonur séra Gísla var Gísli skáld Brynjólfsson, docent við Kaupmannahafnar háskóla og öllum Íslendingum kunnur. Rósa var í alla staði merk og tilkomumikil kona.

Jón Bjarnason fæddist að Þvottá 15. Nóvember, árið 1845. Tvo aðra drengi eignuðust þau Bjarni og Rósa. Annar þeirra dó ungur, en hinn, Sveinn að nafni, varð síðar bóndi að Volaseli í Lóni í Austur-Skaftafellssýslu. Var hann aðal-félagi séra Jóns í æsku, og honum unni hann hugástum.

Árið 1847, þegar Jón var á þriðja árinu, flutti öll fjölskyldan suður að Kálfafelli í Fljótshverfi í Vestur-Skaftafellssýslu. Til þess brauðs hafði faðir hans þá verið vígður. Var sú leið bæði löng og tor-



sótt: yfir jökulár að fara; sumstaðar þurfti jafnvel að ganga uppi á jöklinum sjálfum, en engin stórvötn þá brúuð; að flytja sig þá leið með ungbörn og búslóð alla, var ekki nein sæld. Samt komust þau klaklaust að Kálfafelli og voru þar í fimm ár. Þaðan voru fyrstu endurminningar séra Jóns.

Árið 1852 fluttu þau að Þingmúla í Skriðdal í Suður-Múlasýslu. Hafði séra Bjarni fengið þar brauð. Þar var Jón á því skeiði, er mannssálin verður fyrir einna varanlegustum áhrifum. Frá þeim árum verða endurminningarnar ógleymanlegastar. Hann hefir verið á áttunda ári, er hann kom þangað og á átjánda ári, er hann fór þaðan, og er engin furða þó honum þætti vænt um þann stað. Þar fór hin unga sál hans fyrst að hreyfa vængi sína; þar fór hann að meta Passíu-sálmana svo að hann af eigin hvöt fór að læra heila sálma utanbókar; þar tók hann að lesa fornsögurnar; þar var hann búinn undir latínuskólanám; þaðan fór hann fyrst í skóla og þar varð hann fyrir þeirri sorg að missa móður sína, árið 1856.

Þegar séra Bjarni misti konu sína, annaðist elzta stjúpdóttir hans, Guðrún, er síðar varð kona Marteins gullsmiðs Jónssonar, búið með honum, þangað til hann kvæntist í annað sinn, Margréti Erlendsdóttur, frá Húsum í Fljótsdal. nokkru áður en hann flutti frá Þingmúla. Þau hjón eignuðust tvær dætur og lifa þær báðar: Guðrún, gift Eggert Benediktssyni að Laugardælum í Flóa í Árnessýslu, og Anna, gift Jósef Jónssyni að Melum í Hrútafirði.

Hið einkennilegasta og tilkomumesta við landslagið í Þingmúla var múlinn, sem bærinn dró nafn af. Hvað það fjall hefir heillað huga og vakið ímyndunar-afl hans, sést bezt á því, sem hann segir um það, er hann kom á staðinn, 38 árum eftir að hann flutti þaðan:

"Fyrir ofan bæinn að Þingmúla, þar sem eg átti heima níu árin næstu áður en eg fór í skóla, er einkennilegt fjall og all-hátt, sem bærinn er kendur við. Fjalli því að fram-







anverðu, þeim megin er út í dalinn veit, má vel líkja við líkneski það hið risavaxna frá fjarlægri fornöld, sem rís upp á sandsléttu í Egyptalandi norðanverðu og nefnist Sfinx. Í líkneski því birtist ógurlega stórt höfuð af ljóni, sem liggur fram á hramminn; en það dýrshöfuð minnir einnig á ferlegt mannsandlit. Svona er sú standmynd af Sfinx, sem forn-egypzku konungarnir létu hlaða upp í nánd við Níl sér til ævarandi frægðar. Og eins, eða nauða-líkur því forn-egypzka líkneski, er Þingmúlinn að framan — í mínum augum að minsta kosti bæði fyr og síðar. Að eins einu sinni var eg sá maður meðan eg var unglingur að komast upp á Múlann, og mundi eg ávalt síðan eftir útsýni því hinu mikla og fagra, sem eg hafði þaðan yfir mestalt Fljótsdalshérað og alt út á Héraðsflóa. Seinast er eg fyrir tíu árum heimsókti Ísland og ferðaðist um Skriðdal, tók eg mig til ásamt Friðrik fóstursyni mínum og klifraði upp á Múlann, en konan mín beið á meðan með hinum, sem í föruneyti okkar voru, í túninu hjá bænum hið neðra. Lítt var eg þá frár á fæti í samanburði við hinn unga mann, er með mér var á þessari uppstigning. Næsta mjög mæddist eg þegar undir eins, meðan stóð á göngunni upp eftir hinum bratta melhrygg, sem myndar nefið á andlitinu framan í fjallinu. En er komið var upp í kleyfina eða vikið á milli augnabrúnanna, varð gangan miklu torsóttari; en áður en við höfðum klifrazt eins hátt upp og í ennið mitt — því þar er snarbratti, nálega þverhnípi — lá mér við að gefast upp og hníga niður. Þó unnust mér kraftar til að yfirstíga alla örðugleika fjallfarar þessarar, og komast alla leið upp á Múla-koll. Þá létti mér um hjartað. Og fagnandi og sigrihrósandi nam eg um hríð staðar við vörðuna á fjallbrúninni — þar er nón frá bænum fyrir neðan — og naut hins víðtæka útsýnis yfir héraðið og til fjallanna misháu og margbreytilegu alt í kring."

Haustið 1861 fór Jón í latínuskólann í Reykjavík, þá tæpra 16 ára gamall. Svo ungur maður, með mjög næmar tilfinningar, sterka mentalöngun og góðar gáfur, hrifinn burt úr kyrlátu sveitalífi og kominn í æðra skólalíf á höfuðbóli íslenzkra menta, varð sjálfsagður til þess að verða fyrir sterkum áhrifum. Mikilsvert tímabil var því fyrir hendi: latínuskólalífið hans alt, og svo veran á prestaskólanum, eitt hið örlagaþrungnasta á allri æfinni,





áhrifamikið engu síður fyrir það, að mentalífið í heild sinni í Reykjavík var ekki að öllu leyti að hans skapi. Á þessu tímabili mótaðist sálarlíf hans og myndaðist lífsstefna, bæði af því, sem vakti aðdáun hans og eins af því, sem sál hans reis öndverð gegn, svo við lok þess tímabils eru komin í ljós mörg þau einkenni, sem hann bar til dauðadags.



Séra Jón Bjarnason í Latínuskólanum í Reykjavík.

Svo vel ber undir, að til er lýsing á sálarlífi hans á þessu tímabili, eftir hann sjálfan, nákvæmari en frá nokkrum öðrum hluta æfi hans. Þá lýsing er að finna í "Apologia pro vita sua", sem áður hefir verið getið, og setjum vér hér nokkurn hluta þess þáttar ritgjörðarinnar, er um það fjallar:

"Fyrir talsverðum vonbrigðum varð eg, er eg var í skólann kominn. Nemendur í Reykjavíkur-skóla voru með langfæsta móti, sem þeir hafa nokkurn tíma verið, um það leyti,



er eg kom þangað — að eins rúmlega þrjátíu. Það hefði nú ekki þurft að vera neinn óhagur fyrir þann, er inn í hópinn kom, heldur öllu fremur hið gagnstæða. En andinn, sem helzt virtist ráða meðal lærisveina þeirra, er fyrir voru, fanst mér rangsnúinn og kuldalegur. Seinna sannfærðist eg þó um, að frá þessu voru undantekningar. Hinn öfugi og kuldalegi andi birtist meðal annars í því, að það þótti



Séra Jón Bjarnason og þrír félagar hans í prestaskólanum: Hannes Stephensen, Benedikt Kristjánsson og Sveinbjörn Sveinbjörnsson.

enginn heiður í því að vera iðinn og ástundunarsamur við skólanámið, heldur öllu fremur vanheiður. Reyndar varð það skólasveinum til frægðar í þeirra hóp, ef þeim tókst að svara vel og fljótt spurningum þeim, er kennarar lögðu fyrir þá, lang-helzt þó, ef þeim tókst þetta nálega fyrirhafnarlaust, eða án nokkurs verulegs undirbúnings; því að slíkt







bar samkvæmt almenningsálitinu vott um frábærar gáfur. Hitt dró úr frægðinni stórvægilega, ef vitanlegt þótti, að legið hefði verið yfir lexíunum fyrirsettu. Það lá við, að þessi hugsunarháttur í skólanum yrði mér ofurefli; hann varð mér fyrst til kvalar, en seinna leiddist eg út af honum í freistni. Eg sýktist að nokkru af ólyfjani því, er lá í loftinu. Eg leitaðist við að komast hjá háðung fyrir það að vera talinn iðinn. Skólameistarinn (Bjarni Jónsson) virti það jafnan við mig, að eg hafði svo góðan undirbúning í latínu og grísku áður en eg kom í skóla, og var mér frábærlega góður; en hjá skólabræðrum mínum galt eg þess fremur en naut. Vel varð mér til nærri því allra kennara minna. Og þó lærði eg fremur lítið af þeim flestum, eða lítið sem við mig loddi ásíðan eða hafði á mig veruleg áhrif fyrir lífið fram undan. Helzt græddi eg á fræðslu þeirri, sem mér hlotnaðist í íslenzku, einkum þó utan kenslustunda í skólanum, af samtali við Jón Þorkelsson, sem seinna varð skólastjóri, því á heimili hans var eg á fæði alla skólatíð mína. Í forntungunum suðrænu tók eg tiltölulega litlum framförum í samanburði við það, sem eg kunni áður en eg kom í skólann. Og merkilegt finst mér það, að nálega alt, sem eg í heimahúsum las með leiðbeining föður míns í þeim fræðum, lifir enn í huga mínum, en meginið af lexíunum í skólanum hefir mér fyrir löngu gleymst.

Þá var það og ömurlegt við vistina í "lærða" skólanum í Reykjavík, að kristindómsins gætti þar nálega ekki eða neins, sem nefna mætti trúarlíf. Þó voru þar einskonar bænahöld fyrirskipuð, einnig kirkjuganga á tilsettum tíðum, en það hvorttveggja var lítið annað en dauður helgisiður, sem flestir virtust taka þátt í að eins til málamyndar af því að það var fyrirskipað. Veik var sennilega trú allra áður en þeir komu í skólann, en í skólanum var miklu líklegra, að hún biði bana en að hún glæddist. Hvernig gat það öðru vísi verið, þar sem leiðtogar hinna ungu manna í mentunar-áttina, kennararnir, þektu augsýnilega svo lítið til lifandi kristindóms, og sumir vitanlega með öllu trúlausir? Eini kennarinn í skólanum, meðan eg dvaldi þar, sem nokkur áhrif hafði á lærisveina í trúarefnum, eða að minsta kosti á mig, var Jens Sigurðsson, er og seinna um hríð veitti skólanum forstöðu, enda hafði hann þar um langa tíð á hendi aðal-kensluna í kristnum fræðum. En slík áhrif komu miklu fremur frá hinni alvörugefnu og virðulegu persónu þess manns en af guðfræða-lexíum þeim, er hann var að kenna.







Þótt svo héti, að eg hefði góðan framgang eða jafnvel ágætan í skólanum, varð þó lítið um það, að eg bæri hlýjan hug til mentastofnunar þeirrar. Andinn þar var svo ömurlega kaldur, og um það fékk eg snemma hugboð, að eitthvað væri að öðru leyti öfugt við mentastefnuna alla, er þar réð. Og fanst mér eg vera einmana og nokkurs konar utanveltumaður".

Að prestaskólanáminu loknu, vorið 1869, tók hann nálega tafarlaust prestvígslu, þá á 24. aldurs-



Séra Jón Bjarnason við burtför hans úr prestaskólanum í Reykjavík.

ári, og varð aðstoðarprestur hjá föður sínum, sem þá nokkrum árum áður hafði flutt að Stafafelli í Lóni og um það leyti var bilaður á heilsu. En prestsskapartíð hans í það skifti varð aðeins hér um bil árstími. Var þá heilsa föður hans orðin svo góð, að hann þurfti hans ekki lengur við. Hvarf hann aftur til Reykjavíkur, og 15. nóv. árið 1870 kvæntist hann Láru dóttur Péturs Guðjohnsen og konu hans Guð-





rúnar Sigríðar (f. Knudsen). Var Pétur hinn mesti myndarmaður, faðir íslenzkrar söngfræði nútíðinni, og þrátt fyrir fátækt, sem leiddi af því, hvað barnahópurinn var stór (15), var heimili þeirra ein hin fegursta fyrirmynd í Reykjavík. Lára var elzt systkina sinna, ágætum hæfileikum gædd, hafði fengið góða mentun, var meðal ann-



Lára Mikaelína Guðjohnsen, kona séra Jóns Bjarnasonar.

ars prýðis vel að sér í söngfræði. Þrek og þekkingu, dugnað og sparsemi hafði hún eignast í heimilislífinu fyrir tilsögn góðra foreldra og fyrir hennar eigin góðu, einlægu viðleitni að veita foreldrum sínum alla þá hjálp, sem henni var unt, enda

komu allir þessir eiginleikar henni að góðu haldi í lífsstarfi því, sem fyrir henni lá.

Næstu þrjú árin voru þau hjónin í Reykjavík og vann hann fyrir þeim með kenslu. Efnin voru sama sem engin og mikið lagði hann á sig við kenslustarfið. Stundaði hann tímakenslu í Latínuskólanum og barnaskólanum og þess utan veitti hann einstaklingum tilsögn. Kom það jafnvel fyrir að hann kendi 11 stundir á dag. En bráðabirgðar starf var þetta, og að sjálfsögðu var hann að leita fyrir sér með fasta stöðu. Víst tvisvar á þessu tímabili sótti hann um prestakall, en fékk ekki, enda átti leiðin að liggja annað.

Árið 1873 fóru þau hjónin fyrir alvöru að hugsa um það að flytja vestur um haf. Var það meðal annars út af bréfum frá Páli Þorlákssyni, ungum og efnilegum guðfræðingi, sem þá var kominn vestur, og nokkru síðar varð þar prestur. Var hann góðkunningi séra Jóns frá skólaárum hans í Reykjavík og náfrændi frú Láru. Hafði séra Jón víst nokkra trygging fyrir því, að hann gæti fengið prestlega stöðu hjá Norðmönnum, sem þá voru í stórum hópum að flytja til Bandaríkjanna. Var því vesturför fullráðin.

Þau lögðu á stað frá Reykjavík 5. September, 1873 og lentu í Quebec 27. s. m., og fóru þaðan samstundis til Milwaukee í Wisconsin-ríki í Bandaríkjunum. Þar stóðu þau við nokkra daga hjá nýkomnum löndum þeirra, en héldu svo áfram til St. Louis í Missouri-ríkinu. Þar hittu þau Pál Þorláksson, sem þá stundaði nám við prestaskóla Missouri-sýnódunnar þýzku og lútersku (Concordia Seminary). Þangað sendi hin norska lúterska sýnóda, þá prestaefni sín. Kom það til orða, að séra Jón gengi eitthvað á þenna prestaskóla, er varð þó ekki af. Í þess stað var honum bent á það af stjórnarráði þess félags, að koma norður til Decorah í norðaustur hluta Iowa-ríkis, þar sem það hafði þá stofnað latínuskóla, og var Decorah um þær mundir nokkurskonar



kirkjulegt höfuðból Norðmanna í Ameríku. Í þessum bæ átti að standa fundur stjórnarráðs og presta kirkjufélagsins, rétt eftir nýár næsta og var óskað eftir séra Jóni til viðtals, með því augnamiði, að hann tæki við prestslegu starfi innan félagsins.

Eftir þriggja vikna dvöl í St. Louis, lögðu þau hjónin á stað, í Október-lok með gufulest, norður eftir Mississippi-fljótinu, áleiðis til Decorah, en seinasta áfangann fóru þau á járnbraut. Koren prestur, einn af leiðtogum Norsku sýnódunnar, lét sækja þau á vagnstöðina. Fengu þau hinar beztu viðtökur í húsi Korens.

Nú fór smátt og smátt að opnast fyrir séra Jóni nýr heimur. Hvarvetna blasti við honum fjörugt, starfsamt kirkjulíf, með sterkum áhuga, mikilli skoðanafestu og víðtæku félagslegu starfi. Þetta var hin frjálsa kirkja, óháð böndum ríkisins. Þessi nýi heimur vakti undrun hans og aðdáun, þó brátt kæmi í ljós, að hann átti ekki í öllum atriðum andlega samleið með þeim mönnum, sem réðu stefnunni í þessari sérstöku deild lútersku kirkjunnar. Skal þess hér getið að Missouri-sýnódan þýzka var ötulust allra lúterskra kirkjufélaga í þessari heimsálfu, en um leið hin þröngsýnasta, og hafði Norska sýnódan tekið þýzka félagið sér til fyrirmyndar og var mjög undir áhrifum þess um þær mundir.

Í samtali við Koren prest og marga fleiri presta Norsku sýnódunnar kom brátt í ljós skoðanamunur milli séra Jóns og þeirra. Örðugt er að gjöra grein fyrir þeim ágreiningi, en með einu orði má segja, að séra Jóni fanst íhaldssemi þeirra ganga fram úr hófi. Þeir vörðu þrælahaldið með Missouri-mönnum, staðhæfðu, að óskírð börn og heiðingjar, þó þeir hefðu aldrei haft tækifæri til að heyra Guðs orð, lentu í eilífri glötun. Ekkert af þessu gat séra Jón fallist á, og margt fleira líkt þessu bar á milli. Oft voru harðar rimmur og barðist séra Jón djarft fyrir skoðun sinni og dró enga dul á meiningu sína. Stuttan tíma aðstoðaði hann Koren prest, en samkomulag







gat ekki orðið, og prestsstöðu tók hann aldrei í Norsku sýnódunni. Samt létu norsku prestarnir í ljós þá von, að þessi "misskilningur" hjá séra Jóni myndi hverfa þegar þeir kyntust betur.

Á prestafundinum í Janúar, 1874, sem áður er getið, var það samþykt að bjóða séra Jóni kenslustarf við latínuskóla Norsku sýnódunnar þar í bænum (Decorah). Hafði hann þegar frá byrjun veru sinnar þar verið að kenna tveimur drengjum Korens prests. Hefir það atriði eflaust stutt að því, að honum var boðin þessi kennarastaða. Tók séra Jón þessu boði fegins hendi, kendi þar latínu, grísku, landafræði og ýmislegt fleira. Brátt komst það orð á, að þar hefði skólinn fengið dugandi kennara. Um vorið var hann ráðinn kennari næsta vetur. Komst hann þá að því, að sérstakt próf hafði verið haldið yfir lærisveinum hans, og að um veturinn, þegar hann tók við, hafði bekknum verið skift í tvent, að kennarinn, sem fyrir var hafði tekið efnilegustu piltana og kent þeim, en látið séra Jóni eftir þá, sem voru síður að sér. Þrátt fyrir þetta reyndist við prófið um vorið, að lærisveinar séra Jóns voru hinum fremri. Voru þessi úrslit mikið fagnaðarefni fyrir þau hjónin.

Þegar skóla var sagt upp um vorið ferðuðust þau norður til Milwaukee, til að hitta landa sína, og voru þau þar í sumarleyfinu. Var brátt komið á fundi meðal Íslendinga þar, til að ræða um stofnun íslenzkrar nýlendu í Wisconsin-ríkinu, en sú tillaga var feld; en sami fundur afréð, að stofna til hátíðahalds 2. Ágúst, í minningu um þúsund ára bygging Íslands, og með því móti taka þátt í hinni miklu þjóðhátíð Íslendinga.

Það vill svo vel til að vér höfum enn all-nákvæma lýsingu á þessari þjóðhátíð úr bréfi frá séra Páli heitnum Þorlákssyni, er hann reit "Norðanfara" 14. Október það haust og birtist í blaðinu 12. Janúar 1875, og er sá kafli bréfsins, sem er um það efni, á þessa leið:





"Þann 2. Ágúst héldum við landar hér, milli 60 og 70, upp á þúsund ára afmæli vorrar kæru fósturjarðar; við söfnuðumst saman í Milwaukee nokkrum dögum á undan og kusum 3 manna nefnd, til þess að undirbúa hátíðarhaldið, og standa fyrir því; og skoruðum vér á séra Jón Bjarnason (sem ásamt konu hans hafðist við í Milwaukee þá 2 mánuði, Júlí og Ágúst, sem latínuskólinn í Decorah í Iowa, þar sem séra Jón er skipaður kennari í latínu og grísku, átti sumarleyfi) að prédika yfir okkur út af hinum 90. Davíðs sálmi, þeim texta, sem viðhafður var um alt Ísland. 2. Ágúst söfnuðumst við saman í kirkju Gelmuydens, norsks prests í Milwaukee, til þess að hlusta á hina fyrstu íslenzku prédikun, sem nokkurntíma hafði haldin verið, að því er menn munu hafa sögur af, hérmegin Atlantzhafs. Auk okkar Íslendinganna var fjöldi Norðmanna í kirkjunni, þeirra, sem höfðu gaman af að heyra "hvernig hinir gömlu forfeður þeirra hefðu orðað það". Séra Jón hélt snjalla prédikun um Drottins náðarríku varðveizlu á hinni íslenzku þjóð, um hin liðnu 1000 ár, og söngurinn, sem kona hans, Lára, dóttir hins góðfræga söngmeistara vor Íslendinga, Péturs Guðjohnsens, stóð fyrir, gekk afbragðs vel, svo að Norðmenn luku lofsorði á okkur fyrir. Að lokinni messugjörð skipuðumst við til prósessíu á strætinu fyrir utan kirkjuna, þannig, að 2 flaggberar í hinum íslenzka þjóðbúningi gengu fyrir, annar með hið íslenzka, sem við höfðum gjöra látið til þessarar hátíðar—blátt með ídregnum hvítum fálka—en hinn með hið þrílita stjörnuflagg Bandaríkjanna; þarnæst röðuðu sér karlmenn 2 og 2 og þá konur, sumar í hinum íslenzka þjóðbúningi. Þessari prósessíu héldum við út í gegnum borginu til skemtigarðs eins, sem nefndin hafði leigt fyrir 5 dollara og undirbúið þar með mat og vínföngum. Nú skemtu menn sér með ræðum og söng. Jón Ólafsson mælti langt og skorinort erindi fyrir skál Íslands og Ólafur Ólafsson fyrir skál Íslendinga í Ameríku; ennfremur var drukkin

skál Vínlands og Norðmanna hér, sem allmargir voru viðstaddir, og þeim þakkað fyrir bróðurlegar viðtektir á okkur frændum þeirra, sem hitt höfðum þá aftur hér á landi Leifs heppna eftir þúsund ár. Þá var drukkin skál íslenzkrar tungu og að endingu skál þeirra hérlendra manna, sem skörulegast höfðu gengið fram í því, að safna bókum handa Íslandi í sumar, og voru einkum teknir fram Próf. Fiske við Cornell háskólann og Próf. R. B. Anderson við Wisconsin háskólann í Madison. Báðir hinir nefndu heiðursmenn voru boðnir til afmælisveizlunnar, en hvorugur gat, vegna forfalla, komið. Alt fór vel og sómasamlega fram á þessum hátíðarfundi, enda fóru allir ánægðir af honum og munu lengi minnast þeirrar hátíðar, sem nokkrum Íslendingum auðnaðist að halda í Milwaukee í Vínlandi, í minningu 1000 ára byggingar Íslands, fósturjarðar sinnar, er forðum átti þá sonu, er að réttu ber heiður sá, að hafa fyrst fundið þetta auðuga og víðlenda ríki."

Prédikun sú, sem séra Jón flutti á þessari hátíð er til prentuð, og þó sú prédikun sýni ekki, nema að litlu leyti, sérkenni þess prédikara, er hann síðar varð, þykir þó rétt að láta hér birtast hin fögru niðurlagsorð hennar, ekki síst vegna þess, að þau eiga að mestu eins mikið erindi til vor nú, eins og þegar þau fyrst voru töluð:

"Vér ættum ekki að vera komnir hingað til þess að skjóta oss undan skyldum vorum við þá þjóð, sem Drottinn hefir tengt oss við helgum og háleitum ætternisböndum. Hver, sem gleymir ættjörð sinni, eða þykist yfir það hafinn, að varðveita það af þjóðerni sínu, sem gott er og guðdómlegt, af þeirri ástæðu, að hann er staddur í framandi landi og leitar sér þar lífsviðurværis, það gengur næst því að hann gleymi Guði. Það er stutt stig og fljótstigið frá því að kasta þjóðerni sínu til þess að kasta feðratrú sinni. Lítum til Gyðingaþjóðarinnar. Hvenær var þjóðerni þeirra hætta búin, að trú þeirra væri ekki líka í veði? Þess vegna voru allir þeirra spámenn,



allir Guðs miklu sendiboðar meðal þeirra, kröptugir þjóðernisprédikarar, um leið og þeir héldu heilagri og háleitri vörn uppi fyrir hinni opinberu trú. Lítum lengra: lítum til lausnara mannkynsins, Drottins vors Jesú Krists. Hvern hefir nokkurn tíma tekið eins sárt til þjóðar sinnar, eins og hans heilaga og blíða kærleikshjarta? Hann grætur yfir Jerúsalem, og þau helgu tár, er hann þá fellir, eru óafmáanlegt innsigli þeirrar ástar og trygðar, sem hann bar í brjósti sérstaklega til sinnar þjóðar; því jafnvel þótt ætlunarverk hans væri með lífi sínu og dauða að endurleysa ekki aðeins hinn útvalda Ísraelslýð, heldur og gjörvalt hið synduga mannkyn, þá ber þetta atvik úr æfi hans, eins og líka hans eigin orð, þess vott, að hann fyrst og fremst var sendur til týndra sauða af húsi Ísraels. Þaðan skyldi kristindómurinn upprenna yfir þjóðirnar, með sinni náð og blessun. Sönn, kristileg ættjarðarást, fyllir ekki hjartað með fyrirlitningu á öðrum þjóðum en sinni eigin; hún blindar ekki augun fyrir yfirburðum útlendinga í svo mörgu tilliti, né fyrir sinni eigin eymd, ókostum og mentunarskorti. Slíkt er engin ættjarðarást, allra sízt í kristilegum skilningi. Slíkt er öfugur, heiðinglegur, heimskulegur og hættulegur hugsunarháttur, sem dregur niður alla sanna þjóðernistilfinningu og hefir visnun og dauða sérhvers þjóðernis í för með sér.

Rísum því upp, einnig vér, fámenn, fátæk Íslandsbörn, sem hér erum saman söfnuð, — rísum upp á þúsund ára afmæli vorrar elskuðu ættjarðar og sofnum ekki hér í syndum vorum. Áköllum Drottin fyrir Jesú Krist, um náð til þess að starfa ötullega og ótrautt honum til dýrðar, þjóð vorri til sóma og sjálfum oss til sálarheilla. Biðjum Guð um nýjan dug til nýrra framkvæmda á þeim vegum, sem honum þóknast að leiða oss. Biðjum fyrst og fremst um opin augu til að sjá eymd vora og óvirðing, eigi að eins andspænis mönnum, heldur einkum og sér í lagi frammi fyrir hinum heilaga og réttláta. Biðjum um







styrk trúarinnar, hreinnar og lifandi trúar, er auðsýnir sig í kröftugu, kærleiksfullu, kristilegu líferni. Biðjum Drottin að úthella sinni blessun yfir Ísland og sérhverja sál af þjóð vorri; biðjum um frið, handa oss og öllum sálum í lífi og dauða—í Jesú nafni.—Amen".

Þann sama dag (2. Ág. 1874) var stofnað meðal þessara Íslendinga í Milwaukee félag, sem nefndist



Séra Jón Bjarnason í Milwaukee 1874.

"Íslendingafélag í Vesturheimi" og var séra Jón kosinn fyrsti forseti en Jón Ólafsson fyrsti ritari þess. Aðaltilgangur var "að varðveita og efla íslenzkt þjóðerni meðal Íslendinga í heimsálfu þessari", og átti það "að vera sambandsliður milli Íslendinga hér vestra og landa vorra heima á Íslandi eða í öðrum löndum". Var félag þetta, þó það hafi líklegast ekki





orðið langlíft, frumherji íslenzks félagsskapar í Ameríku. Var deild af því stofnuð norður í Ontario. Þegar það mál kom á dagskrá að stofna eina aðalnýlendu íslenzka í Manitoba, studdi þetta félag málið. (Sbr. Norðanfara 12. Jan. 1876).

Í miðjum Ág. (1874) fóru þau hjónin aftur, eins og til stóð, til Decorah. Á leiðinni þangað hitti séra Jón, í járnbrautarlest, próf. Anderson, sem áður er nefndur. Leiddi það brátt til kunningsskapar og síðar til samvinnu.

Í Decorah voru þau þennan vetur og leið hann með friði og spekt. Þó nokkrar andlegar skilmingar ætti sér stundum stað milli séra Jóns og hinna norsku presta í sambandi við ýmsar skoðanir; varð út af því alls engin misklíð. Hið bezta samlyndi ríkti, og allir voru ánægðir með hann sem kennara. Þetta reyndist því mjög ánægjulegur vetur.

Þrátt fyrir það leitaði hann þó burt þaðan. Þar hefði hann þó getað verið við þægileg lífskjör. Hann hefði getað átt þar fasta framtíðarstöðu. En ef til vill hefir honum fundist hann þarna um of skorðaður; hugur hans leitaði út á við. Ennfremur hafa áhrif frá próf. Anderson átt einhvern þátt í því, að draga hug hans að öðrum störfum.

Snemma í júlí 1875, kvöddu þau hjónin hinn fagra Decorah-bæ og hina mörgu góðu vini sína þar. Fóru þau fyrst til próf. Andersonar í Madison og dvöldu þar um hríð. Þann tíma allan vann séra Jón að bókmentalegum störfum með próf. Anderson. Þýddi hann þá á ensku sögu Friðþjófs frækna og Þorsteins sögu Víkingssonar. Voru þær gefnar út undir nafninu "Viking Tales". Var sú bók að því nær öllu leyti verk séra Jóns, þó próf. Anderson væri með honum talinn höfundur hennar.

Um haustið útvegaði próf. Anderson honum atvinnu við blaðið "Skandinaven" í Chicago og þegar eftir nýjár, 1876, byrjaði hann á því starfi. Var hann þar 6 vikur og féll mjög illa, margvísleg óregla á skrifstofunni, umhverfi þar alt honum ógeðfelt,



langir vinnutímar, jafnvel vökunætur við blaðstörf, laun mjög lítil, og margt öðru vísi en hann hafði búist við, sumt jafnvel þvert ofan í það, sem um hafði verið samið.

Sagði hann því upp vinnunni við "Skandinaven" án þess að hafa nokkra aðra atvinnu vísa. Sneri hann sér þá að ritstjóra blaðsins, "Heimdal", Halevard Hande, sem hann hafði kynst á þessum 6 vikna tíma, og bað hann leggja sér ráð. Hann benti honum á að skrifa til blaðsins "Budstikken" í Minneapolis og bjóða sig þar fram sem ritstjóra. Þetta gjörði hann, og eftir fáa daga kom hraðskeyti þess efnis, að hann væri þegar ráðinn ritstjóri blaðsins. Skömmu síðar kom bréf með frekari skýringum; skyldi kaupið vera $900 á ári til að byrja með og þótti það gott á þeim tímum.

Hinn 4. Marz komu þau hjónin til Minneapolis, og fór séra Jón þegar á fund blaðeigendanna Johnson og Geddé. Féll honum einstaklega vel við þá. Johnson var sérstaklega þýður og viðfeldinn maður og varð samvinnan við hann og aðra starfsmenn blaðsins hin æskilegasta. Var séra Jón einkar ánægður með starf sitt, enda fórst honum það prýðis vel. Kaupendum fór fjölgandi og mörg vottorð bárust honum, bæði munnlega og bréflega, að mönnum líkaði vel blaðið. Hann hafði því aftur fengið stöðu, sem honum var geðfeld, og flutti þeim hjónum báðum vellíðan. Sýnist því sumum ef til vill að vel hefði mátt við una.

Að öðru leyti höfum vér ekki nægileg skilríki fyrir hendi til að dæma um starf hans, meðan hann var ritstjóri blaðsins. Af bréfi, sem hann reit Norðanfara rétt eftir að hann tók við blaðstjórninni er víst, að hann gjörði sér far um að kynnast pólitískum málum í Bandaríkjunum, en að hann hafi ekki verið fastbundinn neinum stjórnmálaflokki. Eitthvað úr Budstikken frá því tímabili var þýtt á íslenzku og birt í Norðanfara. En bezta hugmynd um andastefnu hans á þessu tímabili fáum vér af







bréfi, sem hann reit Norðanfara frá Minneapolis 30. Marz, 1877. Birtist þar fjörugur og fjölhæfur andi. Kennir þar margra þeirra einkenna, sem síðar urðu svo sterk. Fylgist hann með málum í Ameríku, á Íslandi og í skandinavisku löndunum með brennandi áhuga. Er þar hvöss ádeila á þjóðarmein Íslands og mörg leiftrandi orð. "Alþingi þarf að setja laglega i gapastokkinn" vegna þess það sýni enga viðleitni til að minka skattabyrði alþýðu. Alþingismennirnir sumir "drekka og drabba fyrir þrjá dali um daginn". "Aðalgallinn á öllu heima í stjórnarefnum er það, að embættislýðurinn er aldrei skoðaður sem verandi í þjónustu fólksins, heldur eru þar gjörð hausavíxl, svo að 'háyfirvaldið' breytir svo, sem lýðurinn sé fyrir sig gjörður". Um frelsisfundina suma á Íslandi segir hann að "alt lífið kafni í brennivíni". Um kirkjuna segir hann að sumir "drykkjuslarkarar og ólifnaðarmenn" séu "með virktum vígðir til kirkjulegra leiðtoga lýðsins". Álítur hann að það þurfi að komast á frjáls safnaðarkirkja á Íslandi", annars verði þar aldrei líf, enda segir hann, að það sé auðsjáanlega stefna tímans, að ríki og kirkja aðskiljist með öllu". Ekki er erfitt að finna séra Jóns keiminn i þessu, og má segja, að fyrst í þessu bréfi komi hann fram fyrir íslenzkan almenning, sá séra Jón, sem allir Íslendingar lærðu síðar að þekkja.

Margt annað markvert er í þessu bréfi, meðal annars það, sem hann segir um mentamálin á Íslandi, ekki sízt það, að próf í skóla eigi fremur að sýna hve vel lærisveinninn hafi hagnýtt sér kunnáttu sína heldur en það, að hann hafi lært það, sem honum var sett fyrir. Í sambandi við Möðruvallaskólann, sem þá var í orði að stofna, segir hann: "Yrði Möðruvallaskólinn stofnaður í nokkurnveginn skynsamlegu formi, þá hefi eg verið að hugsa um að bjóða mig fram til að stýra honum, og er það hugsanlegt, að eg gjöri það enn, ef svo skyldi reynast. En eg veit náttúrlega ekki hvort eg er sá maður, sem stjórnin vildi hafa til þess starfa, þó þar til kæmi. Hinsvegar er mér engin launung á því, að







eg vildi feginn vinna að því, að ýta upplýsing alþýðu heima dálítið upp, ef tækifæri byðist. Annars er mér vel borgið þar sem eg er, og hér hefir maður leyfi til að tala án þess að búast við málsóknum ef sannleikur er sagður".

Aldrei varð af því, að hann sækti um þessa stöðu. Það átti fyrir honum að liggja að hverfa til annara stöðva.

Áður en lengra er farið er samt vert að geta þess, að meðan hann átti heima í Minneapolis, samdi hann ritgjörðir tvær eða fleiri, á ensku máli, sem birtust í tímaritinu "Harper's Weekly".

Hinn 6. dag Júlí-mánaðar sama árs, tókst séra Jón ferð á hendur norður til Nýja Íslands. Var það eftir sterkri áskorun frá mönnum þar norður frá og var förin hafin með tilliti til þess, að hann, ef til vill, settist þar að sem prestur. Í bréfi, sem einhver "Íslendingur" á Gimli skrifar þaðan 14. Jan. 1876 og birtist í Norðanfara í Júní það ár, er þess getið, að Íslendingar hafi kosið fimm menn í bæjarstjórn og "að strax og búið var að kjósa bæjarstjórnina var hún beðin að vera í útvegun um prest handa okkur í vor og gjörð uppástunga um, að það yrði séra Jón Bjarnason. Er það víst sameiginlegur vilji allra að þessu verði framgengt".

Um þrjár vikur var séra Jón í þessari ferð, og út af komu hans var haldinn fundur að Gimli 31. Ág. Voru þar mættir fulltrúar fyrir hönd þeirra safnaða eða hópa fólks í Nýja Íslandi, sem vildu fá hann fyrir prest. Þessi fundur sendi honum köllunarbréf til að gjörast fastur prestur. Töldu þeir 130 heimilisfeður eða 650 sálir í þeim hópi, er var að kveðja hann til kennimannlegs starfs.

Af bréfi, sem hann reit Norðanfara það haust, sjáum vér, að honum hefir litist vel á nýlenduna, þótt hann á hinn bóginn hefði opið auga fyrir þeim annmörkum, sem þar voru á. Mest mælir það með nýlendusvæðinu í huga hans, að íslenzkt þjóðerni gæti átt þar vermireit. Leiddi svo þessi norðurför





til þess, að hann sagði af sér ritstjórastöðunni við Budstikken og afréð að gjörast prestur í Nýja Íslandi.

Hinn 18. Okt. það haust (1877) kvaddi séra Jón Budstikken. Þótti útgefendunum fyrir að missa hann, buðu honum launahækkun og vildu með öllu móti fá hann til að vera kyrran. En ekki tjáði að letja hann, þótt hann væri að yfirgefa þægileg lífskjör, en fyrir framan væri eyðimörk frumbýlingslífsins. Skyldan kallaði á hann. Honum fanst Guð vera að kalla sig aftur inn í starf kirkjunnar. Þeirri köllun mátti hann með engu móti bregðast, hvað sem á móti mælti.

Með trega kvöddu þau hjónin Minneapolis. Þar hafði þeim liðið vel, "aldrei fyr né síðar í jarðnesku tilliti betur og aldrei jafn vel". Þá 19 mánuði, sem þau dvöldu þar höfðu þau eignast fjölda vina, einkum meðal Norðmanna. Þrátt fyrir ærið starf hafði þessi Minneapolis dvöl verið verulegur sólskinsblettur, og því ekki að furða, að það hafði sársauka nokkurn í för með sér að slíta tengslin. Með þeirri skilnaðarstund féll tjaldið á einn þátt af æfi séra Jóns.

Algjörlega nýtt tímabil var fyrir hendi, ólíkt því, sem hann áður hafði reynt. Fram að þessum tíma, frá því er hann var vaxinn, hafði hann umgengist mentafólk, stundað nám, kent, verið við ritstörf og notið þeirra þæginda, sem menningin veitti. Fyrir framan var fátæktin og forin í Nýja Íslandi.

Ferðin frá Minneapolis norður til Nýja Íslands er viðeigandi inngangur að hinum nýja æfikafla þeirra hjóna. Ferðast var með járnbraut norðvestur til Fisher's Landing við Rauðá (þar sem bærinn Grand Forks nú stendur). Eftir því sem lengra leið frá Minneapolis varð bygðin, að sjá frá járnbrautinni, strjálli, og um síðir sást ekki hús nema á einstaka stað. Í Fisher's landing var stigið á skipsfjöl, en heila viku tók það að ferðast á þessu gufuskipi eftir

Rauðá norður til Winnipeg. Var það mest vöruflutningur, sem tafði, því víða þurfti að stanza til að taka vörur eða skipa upp. Hinn 28. Október komu þau til Winnipeg. Þar hittu þau hjónin all-marga Íslendinga og flutti séra Jón þar guðsþjónustu sama dag í húsi Jóns Þórðarsonar. Nokkra daga urðu þau svo að bíða eftir farangri sínum; en veður var þessa daga indælt, svo ekki virtist ástæða til að kvíða neinu. Hinn 2. Nóv. héldu þau á stað frá Winnipeg eftir Rauðá, ekki á gufuskipi, heldur einum þeirra flatbotnuðu báta, er Íslendingar kölluðu "dalla". Tók nú veður nokkuð að kólna. Um kvöldið var lent og hugðist fólkið á bátnum að hafa náttstað uppi á árbakkanum. Var því fyrst kynt bál og svo farið að búa um sig til að nátta þar. Kom þá kynblendingur, sem bjó þar skamt frá og bauð þeim gistingu í húsi sínu og var það þegið með þökkum. Næsta dag var haldið áfram, en þá var veður svo farið að kólna, að áin tók að frjósa undir kvöld og varð að brjóta ísinn fyrir bátnum. Varð með naumindum komist til Lower Fort Garry (þá kallað Stone Fort) og er það þó ekki lengra en 20 mílur frá Winnipeg. Var nú fyrirséð að ekki yrði komist lengra eftir ánni og var því farangur allur borinn upp í þetta litla, víggirta þorp. Þar var látið fyrirberast um nóttina, urðu allir að liggja á gólfi í útihúsi, en fengu nógan hita. Næsta morgun var áin al-lögð og varð nú að hugsa upp einhver ráð til að ferðast á landi. Hestar og vagnar voru leigðir og lagt af stað með fólk og sumt af hinu allra nauðsynlegasta af farangrinum áleiðis til Gimli, einar 44 mílur. Bækur varð séra Jón allar að skilja eftir og margt fleira, sem þau máttu alls ekki án vera, en ekkert af þessu fengu þau fyr en í Febrúar um veturinn. Hinn 8. Nóv. var ferðinni lokið og þau komin til Gimli. Voru þá liðnar þrjár vikur frá því þau lögðu á stað frá Minneapolis.

Á Gimli var þeim fagnað af fjölda manna. Friðjón kaupmaður Friðriksson, sem svo mikinn þátt átti í landnámssögu Vestur-Íslendinga, og kona hans,



Guðný Sigurðardóttir, buðu þeim heim til sín, og hja þeim voru þau fyrsta sprettinn.

Aðeins viku voru þau um kyrt á Gimli, áður byrjað væri á ferðalagi um Nýja Ísland, og þó var auðvitað, ekki haldið kyrru fyrir þann tíma. Guðsþjónustu flutti séra Jón á Gimli fyrsta sunnudaginn, sem hann var þar, 11. Nóv. og aðra að Bólstað, skamt fyrir sunnan Gimli, á þriðjudaginn, í þeirri viku. Í Guðsþjónustulok var haldinn fundur og þar afráðið að safnaðarfólkið á þeim svæðum skifti sér í tvo söfnuði, Bæjarsöfnuð og Steinkirkjusöfnuð.

Allir Íslendingar kannast við Nýja Ísland og vita líklega eitthvað um það, hvernig landslagi þar er háttað. Samt virðist eiga við að skýra hér með fám orðum frá því landssvæði að því leyti, sem það varpar ljósi á starf séra Jóns þar, eða þá erfiðleika, sem hann átti við að stríða. Nýja Ísland er strandlengja meðfram Winnipeg-vatni vestanverðu, byrjar að sunnan við svonefndan Merkjalæk, hér um bil 10 mílur suður af Gimli, en 8 mílur í norðvestur frá Rauðárósum. Þetta svæði nær 40 mílur norður með fram vatninu og er þar Íslendingafljót. Því nær alt þetta svæði er marflatt og blautlent og var skógi þakið, nema þar sem voru blautar mýrar, eða þá flæðiengi, með fram fljótinu eða vatninu fyrir sunnan Gimli. Samgönguleysi milli Nýja Íslands og annara bygða var auðvitað til stórra erfiðleika; alls engar bygðir fyrir norðan en vegleysur milli bygða fyrir sunnan. Á sumrum var helzt að tala um samgöngur á vatni, en á vetrum voru sleðabrautir skaplegar. Ein braut var höggvin í gegn um skóginn eftir nýlendunni skamt frá vatni frá norðri til suðurs og var hún í raun réttri aðeins vetrarbraut, en á sumrum var hún ófær, nema aðeins fyrir þann fótgangandi mann, sem vildi vaða forir. Auk þessa svæðis, sem nú hefir verið nefnt, var Mikley. Er hún í Winnipeg-vatni, um 18 mílur á lengd frá suðvestri til norðausturs og liggur syðri endi hennar nokkru sunnar en mynni Íslendinga-fljóts, en þar sem vanalega var farið út í hana frá meginlandinu,







að vetri til, var átta mílur að fara, og þaðan svo 12 norður í miðstöð bygðarinnar.

Má því segja að prestakall séra Jóns hafi verið um 60 mílur á lengd, og um þetta svæði varð hann að ferðast fótgangandi, því hest átti hann aldrei.

Hinn 15. dag Nóvember-mánaðar lögðu þau hjónin á stað, auðvitað gangandi, í fyrstu ferðina norður um bygðina. Að kvöldi næsta dags voru þau komin norður að Íslendingafljóti. Sigtryggur Jónasson, sem kalla má föður Nýja Íslands, og kona hans, Rannveig, áttu þá heimili við Íslendingafljót og nefndu bæ sinn Möðruvelli. Þar tóku þau á móti gestunum opnum örmum.

Sunnudaginn 18. s. m. flutti séra Jón þar guðsþjónustu og spurði börn. Fór þetta fram í vöruhúsi, sem lagað var til, svo fólk gæti komið saman í því. Sama morguninn voru settir í það gluggar og sömuleiðis hurð. Veggir voru einfaldir og víða rifur. Laus borð voru lögð ofan á undirlögin fyrir gólf og borðahlaðar voru notaðir í stað bekkja, til að sitja á. Nokkur hópur fólks var þar saman kominn, um 50—60 manns.

Í guðsþjónustulok var haldinn fundur til að ræða um safnaðarmál, sérstaklega lög. Bar þar ýmislegt á góma. Einn fundarmanna vildi með engu móti að orðið "lúterskur" kæmi fyrir í lögunum, því það dræpi trúna. Annar kom með langa, skrifaða tillögu um það, að konur fengju ekki atkvæði í safnaðarmálum. Hefir séra Jón líklega hreift því, að konur hefðu jafnrétti við karlmenn.

Hinn 22. var lagt upp frá fljótinu í ferð til Mikleyjar. Vatnið var ekki vel lagt. Var því bæði seinfarið og hættulegt. Oft varð að krækja svo mílum skifti fyrir vakir; en þau hjónin voru svo heppin að hafa ágætan fylgdarmann, Þorstein Antoníusson, bæði duglegan og gætinn. Reyndi hann víða ísinn með staf sínum við hvert spor, og var þetta óhjákvæmilegt eins og á stóð með ísinn, en tafsamt var ferðalagið. Þegar að landi kom var víða





ákaflega erfitt að ganga, þurfti stundum að skríða í gegn um þéttan pílvið eða þá að kafa snjó eða skrof. Um kvöldið komu þau að Borðeyri, sem er í suðvestur horni Mikleyjar. Hafði þá verið farið um 17 mílur. Fólk var háttað á bænum, en hjónin, Sigurður Jónsson og kona hans, gengu úr rúmi fyrir aðkomuhjónunum. Alt var vegfarendunum látið í té, sem unt var að veita. Næsta dag var svo haldið áfram meðfram eyjunni, um 12 mílur, norðaustur í Mylnuvík, þar sem aðalbygðin þá var. Næsta dag voru þau hjónin að ferðast um þar í bygðinni, til að finna menn að máli, en hinn 25. var guðsþjónusta haldin í húsi Benedikts Péturssonar. Var þar saman komið um 50 manns. Í guðsþjónustulok voru börn spurð, og að því loknu var haldinn fundur til að tala um safnaðarmál. Einnig talaði séra Jón þá, eins og hann gjörði oft seinna, um siðferðisástand fólksins og vandaði um við það út af ýmsum ólifnaði. Að loknu starfi í Mikley í þetta sinn, lögðu þau á stað heimleiðis og gekk ferðin í land betur en fram til eyjar. Þó viltist hópurinn í fljótsmynninu og skorti þá ekki skrof, sef og holur til að gjöra mönnum erfiðara fyrir, og hafa þau hjónin sannarlega orðið fegin, þegar þau loksins komust að Möðruvöllum um kvöldið. Á leiðinni suður að Gimli var höfð dvöl í Breiðuvíkinni og var þar flutt guðsþjónusta í húsi Einars Bjarnasonar, hinn 28., skírð börn, staðfest skemri skírn á sumum, og að sjálfsögðu fundur á eftir til að tala um safnaðarmál. Daginn eftir var gengið suður að Gimli. Var vegurinn mjög óslóttur. Kl. 7 um kvöldið komst hópurinn suður að Gimli og hafði þá verið matarlaus frá því um morguninn.

Þannig var fyrsta prédikunarferð séra Jóns um Nýja Ísland.

Margar slíkar ferðir fór hann þann tíma, sem hann var í Nýja Íslandi, eina ferð norður um bygðir í hverjum mánuði og aðra suður, nema hvað sumar ferðirnar voru miklu erfiðari, því þá voru vegirnir margfalt verri og þá var eldur mýflugna vegfarandanum til kvalar. Við þetta bættist svo aðbún-

áður víða þar, sem hann varð að gista. Í nærri öllum tilfellum veittu menn honum það, sem þeir bezt gátu; en fátæktin var þá svo skelfileg, viðurværi víða lítið annað en fiskur, mjólk og kartöflur, mjólkin sumstaðar óæt fyrir fiskbragði, sökum þess að kúnum var gefinn svo mikill fiskur, og því miður allvíða óþrifnaður með öllum þeim annmörkum, sem honum fylgja; en alt þetta jók stórum á þrautir ferðanna, ekki sízt fyrir manni, sem ávalt hafði vanist fremur þægilegum lífskjörum, að minsta kosti hreinlæti, þó aldrei hefði hann haft af ríkidæmi að segja.

Veran í Nýja Íslandi var séra Jóni reynsluskóli. Efnahagur hans var þar ávalt mjög þröngur og margt fleira var til erfiðleika. Launin, sem hann átti að fá, voru að eins $600 á ári, og það fékk hann ekki einusinni. Í "Framfara" 9. Júlí, 1879 stendur að laun hans fyrsta árið hafi greiðst $284, en laun fyrir annað árið hafi verið áætluð $319 frá fjórum söfnuðum á meginlandi Nýja Íslands, $25 frá Mikleyjarsöfunði og $30 frá Winnipeg-söfnuði, alls $374. Þessi lágu laun, að viðbættum hinum skelfilegu erfiðleikum ferðalaganna, nægja til að sýna, að þau hjón áttu ekki við sældarkjör að búa í Nýja Íslandi. En við þetta bætast svo allir þeir erfiðleikar, sem þá voru á því, að grundvalla frjálsa kirkju meðal fólks, sem aldrei hafði þekt annað en ríkiskirkju. Misskilningur manna í þeim efnum var oft tilfinnanlegur kross. En allir þessir erfiðleikar urðu þættir í lífi séra Jóns honum til góðs, eins og hann líka sjálfur kannaðist við.

Löngu seinna lýsti hann því, hvað hann hefði grætt á verunni í Nýja Íslandi. Þar sagðist hann fyrst hafa lært að skilja hið íslenzka þjóðareðli, þar festi trúin enn dýpri rætur í sál hans og þar fékk hann þá grundvölluðu skoðun, sem í engu verulegu breyttist síðar, um það hver er aðalþátturinn í kristindómsboðskapnum og hvað þar er aukaatriði.

Heyrt hefi eg þá sögu, að séra Jón hafi eitt sinn getið þess í ræðu, að hann hafi aldrei verið í háskóla,



en tekið sig aftur um það og sagt: "Jú, eg var í raun og veru í háskóla; háskólinn minn var Nýja Ísland". Sýnir þetta betur en flest annað, hversu honum var mikilvægur þessi reynsluskóli.

Hinn fyrsta vetur voru þau hjónin til húsa hjá John Taylor og konu hans Elizabeth. Var hann umboðsmaður Canadastjórnar þar í bygðinni og eftirlitsmaður þessa innflytjendahóps. Hafði hann fyrst kynst Íslendingum austur í Ontario og orðið þess fýsandi, að hin íslenzka bygð í Nýja Íslandi yrði stofnuð. Var hann Íslendingum ávalt frábærlega velviljaður. Reyndist hann séra Jóni ætíð eins og bróðir. Að öllu því leyti, sem Taylors hjónin gátu að gjört, leið þeim því vel þennan fyrsta vetur.

Þótt fátæktin væri mikil um þessar mundir í Nýja Íslandi var þar samt að einu leyti blómaöld: framfarahugur mikill. Það var áþekt með bygðinni þá og æskumanni, sem er að byrja fyrir alvöru að brjótast fram úr erfiðleikum með áhuga og fjöri. Menn höfðu stofnað nýja bygð og voru gagnteknir af þeim fögnuði, sem nýju viðfangsefni fylgir, er menn hafa sjálfir valið sér. Menn fundu til þess að landið var auðugt að tækifærum, og voru fúsir til að leggja mikið á sig til að verða þeirra aðnjótandi. Af kappi lögðu menn því hönd á verk: veiða fisk, höggva skóg, rækta hinn frjóa jarðveg, reisa hús og gjöra annað, sem nýbyggjanum var óhjákvæmilegt. Að hinum félagslegu og andlegu málum unnu menn af engu minni áhuga; stofnuðu söfnuði, kölluðu presta, reistu samkomuhús, og unnu margt fleira til nytsamlegra framfara. Markmið þeirra var að mynda þarna íslenzka sveit, sem gæti verið til sannrar fyrirmyndar og á alíslenzkum grundvelli. Sveitarstjórn mynduðu þeir af frjálsum vilja þeirra sjálfra, en ekki út af neinu valdboði kanadiskra laga.

Eitt atriði í þessari framfarastefnu var það, að stofna blað, og má vera að það sé eins dæmi í þessu landi, að blað hafi verið stofnað í frumbyggja-hóp svo fátækum og svo fjarri öðrum menningarsvæðum.







Ber nafn blaðsins, "Framfari". Það með sér, hvað efst var í huga þessara fyrstu Ný-Íslendinga. Blaðið kom út frá 10. Sept. 1877 til 30. Nóv. 1880, lengst af undir ritstjórn Halldórs Briem, cand. theol. og síðar prests.

Inn í þetta líf kom séra Jón með brennandi áhuga og óskertu ungdóms fjöri, til þess búinn að lifa og líða fyrir þjóð sína, enda starfaði hann af kappi í hvívetna og hlífði sér hvergi.

Öll störf sín rækti hann með stakri samvizkusemi og lét sér ekki nægja að leysa af hendi hin umsömdu prestverk, heldur vildi hann á allan hátt hlúa að sönnum framförum fólksins. Á hverjum sunnudegi prédikaði hann einhversstaðar í bygðinni, og í öllum hlutum bygðarinnar hafði hann flokka barna til að búa undir fermingu. Hinn fyrsta vetur kom hann á í söfnuði sínum á Gimli frjálsum fundum á hverjum miðvikudegi til samræðu um "trúarbragða- og kirkjumál". Höfðu allir sem vildu, konur jafnt sem karlar, málfrelsi. Fundirnir voru byrjaðir og endaðir með sálmasöng og bæn. Var þar rætt um kirkjusiði, búning presta, safnaðaskipun í hinni fyrstu kristni, og margt fleira. Um þessar mundir flutti hann einnig fræðandi erindi um Bernhard frá Clairvaux.

Eitt einkenni séra Jóns á æfileiðinni var frábær reglusemi. Er gott dæmi þess frá starfstíma hans í Nýja Íslandi. Til eru enn í góðu lagi kirkjubækur hans frá þessu tímabili. Í þær hefir hann skráð, með nákvæmni og vandvirkni, öll aukaverk og allar guðsþjónustur. Samkvæmt þeim bókum flutti hann á árinu 1878 í Nýja Íslandi og Winnipeg 64 guðsþjónustur, skírði 51 barn, greftraði 30 lík, framkvæmdi 25 hjónavígslur og fermdi 18 ungmenni. Þess utan starfaði hann mánuð það ár í bygðum Íslendinga í Minnesota og framkvæmdi þar mörg aukaverk. Svipað var starfið hin árin, nema hvað hann fermdi fleiri árið 1879. Um tölu altarisgesta er ekki getið, en það skráð, hvenær og hvar altaris sakramentið var um hönd haft.





Þegar eftir fyrstu ferðina norður um bygð, fóru þau hjón að gangast fyrir því, að barnaskóli yrði stofnaður á Gimli. Stóð sá skóli 5 daga í hverri viku þann vetur og einnig næsta vetur, og var frú Lára allan þann tíma aðalkennarinn. Gjörði hún það kauplaust, og fengu öll börn, sem vildu, aðgang að honum án nokkurs endurgjalds. Fyrsta veturinn sóttu skólann 42 börn. Var honum sagt upp 22. Apríl. Næsta vetur stóð skólinn með líkum hætti og svipaðri aðsókn.

Jólasamkomur voru haldnar á Gimli þau jól, sem séra Jón var í Nýja Íslandi. "Framfari" segir allgreinilega frá samkomunni, sem var haldin á aðfangadagskvöld 1878, önnur jólin, sem hann var í Nýja Íslandi. Byrjað var með því að syngja sálminn, "Heims um ból". Þá flutti séra Jón jólaræðu og voru þættirnir í ræðu hans um tréð, ljósin, gjafirnar, og börnin. Í ræðulok flutti hann bæn og að því búnu var sunginn sálmurinn, "Í Betlehem er barn oss fætt". Þá talaði Friðjón Friðriksson útaf efni samkomunnar. Mr. Taylor sýndi ýmsar fagrar myndir með töfralampa. Að endingu var sunginn sálmurinn, "Heiður sé Guði himnum á". Samkoman stóð frá kl. 7 til kl. 12. Fjöldi fólks var saman kominn úr söfnuðum beggja prestanna, séra Jóns og séra Páls. Var víst samkoman mjög mikið fagnaðarefni fyrir bygðarmenn.

Í öðru tölublaði "Framfara" er skýrt frá því, að Ný-Íslendingar hafi rætt það spursmál, hvort þeir ættu fremur að stofna sjálfstætt kirkjufélag eða vera einn hluti af einhverju amerísku kirkjufélagi. Var hugmyndin fyrri eins og eðlileg systir þeirrar um frjálsa íslenzka sveitarstjórn. Má með sanni segja, að mörgu fólki í nýja Íslandi félli sú hugmynd vel í geð, og þeir sem helzt voru í broddi fylkingar með það mál, fengu tvo guðfræðinga til að semja frumvarp til grundvallarlaga fyrir þess háttar félagsheild. Séra Jón var þá búsettur í Minneapolis og var hann annar þessara guðfræðinga og mun hann hafa átt aðal-þáttinn í samning frumvarpsins.

Ekki varð samt af því að kirkjufélagið yrði myndað fyr en séra Jón kom norður.

Meðan hann dvaldi í Nýja Íslandi kom hann skipulagi á hina frjálsu íslenzku kirkju í Vesturheimi og gaf henni það snið, sem hún í aðalatriðum hefir síðan haft. Að vísu voru söfnuðir til í Nýja Íslandi áður en hann kom þar, en mjög ófullkomið safnaðarform hafa þeir haft. Séra Páll hafði stofnað söfnuð meðal Íslendinga í Wisconsin og söfnuði stofnaði hann í Nýja Íslandi með grundvallarlögum og fullkominni safnaðarskipun, en ekki kallaði hann söfnuði sína kirkjufélag. Séra Jón gjörði slíkt hið sama að því viðbættu að hann sameinaði þá í eina félagsheild, sem nefnd var hið "Lúterska kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi".

Áðurnefnt frumvarp til kirkjufélagslaga var, eftir komu séra Jóns til Nýja Íslands, endurskoðað, og í þeirri mynd prentað í "Framfara" (I, 16) og lagt fyrir hina nýju söfnuði til samþyktar.

Hinn fyrsta og eina ársfund sinn hélt félag þetta að Gimli, 30. Júní, 1879. Séra Jón var kosinn formaður, en Halldór Briem, cand. theol., varaformaður. Á fundinum voru erindrekar frá Steinkirkjusöfnuði (syðst í Nýja Íslandi), Bæjarsöfnuði (Gimli), Breiðuvíkur-söfnuði (norðarlega í N.-Ísl.) og Bræðra-söfnuði (við Íslendingafljót). Auk þess töldust tilheyrandi kirkjufélaginu söfnuður í Mikley og Þrenningar-söfnuður í Winnipeg.

Til er skrifaður fundargjörningur frá fundi þessum, þar sem greinilega er skýrt frá því, sem þar gjörðist. Mörg þarfleg mál voru þar tekin til meðferðar. Djáknum safnaðanna var sérstaklega falið að styðja að því, að guðsorð væri haft um hönd á heimilunum og ennfremur að brýna fyrir mönnum að neyta kvöldmáltíðar sakramentisins og sækja rækilega guðsþjónustur og safnaðarfundi. Samþykt var ennfremur að fela formanni kirkjufélagsins að "efla bróðurhug milli kirkjunnar á Íslandi og kirkjufélags vors".



Kirkjufélag þetta var að vísu ekki langlíft. Burtflutningurinn mikli úr Nýja Íslandi um 1880 orsakaði það, að alt safnaðarlíf féll þar í rústir, en þessi fyrsta tilraun er engu síður markverð, ekki sízt fyrir þá sök, að grundvallarlög hins núverandi lúterska kirkjufélags vors eru að nokkru leyti sniðin eftir þessum fyrstu kirkjufélagslögum.

Þann tíma, sem séra Jón var í Nýja Íslandi, tók hann þátt í einum þremur deilum.

Nefni eg fyrst deiluna við Jóhann Briem út af "opnun nýlendunnar". Hún reis út af því, að í fyrsta árg. 31. tölubl. Framf. skrifaði séra Jón grein með fyrirsögninni, "Hvað næst liggur". Var hún óefað ekki rituð í neinum deilutilgangi, heldur sem umbóta hugvekja út af mjög ítarlegri athugun ástandsins í Nýja Íslandi. Komst hann að þeirri niðurstöðu, að enginn framfara vegur væri til fyrir Íslendinga í Ameríku með því að vera einir sér í nýlendum þar sem öðrum þjóðum væri bannað að koma inn (eins og þá var með Nýja Ísland). Hann hélt því fram, að Íslendingar hefði svo margt af öðrum að læra, að í þessu landi yrði þeir að vera innan um innlent fólk, og krafðist hann þess, að einkaréttur Íslendinga til nýlendusvæðisins væri tafarlaust afnuminn. Þessu mótmælti hr. Jóhann Briem í 33. tölublaði. Taldi hann viðsjárvert fyrir Íslendinga hér að verða of fljótt kanadískir, og taldi víst, að ef nýlendan yrði opnuð fyrir öðrum þjóðum, streymdi þangað inn tómur "ruslara" lýður. Þeir svöruðu svo hvor um sig mjög rækilega og varð hr. Jóh. Briem nokkuð hvassyrtur undir það síðasta. Deila þessi vakti mjög mikla eftirtekt og skiftust menn mjög í flokka út af henni, þó eflaust hafi meiri hluti í N.-Ísl. verið á skoðun hr. Briems. Ekki var laust við, að þetta orsakaði sárar tilfinningar í bráð, en ekki leið á löngu að það jafnaðist. Jóhann Briem er enn í Nýja Íslandi, við Íslendingafljót, og hélt hann úr því óslitnu vináttusambandi við séra Jón.







Næst er að nefna deiluna um trúmál við séra Pál Þorláksson. Er hún fyrir margra hluta sakir einn allra markverðasti viðburður í landnámssögu Vestur-Íslendinga, en þó mest fyrir þann undraverða áhuga fyrir andlegum málum, sem orsakaði hana og hún vakti.

Um skoðanamun séra Jóns við Norsku sýnóduna hefir þegar verið getið, og þó sú deila væri fyrir utan íslenzkt þjóðlíf, bárust fregnir til Íslendinga bæði í Nýja Íslandi og annarsstaðar af Norsku sýnódunni og þó sérstaklega af því, að ýmislegt væri athugavert við stefnu hennar. Um það mál skiftust menn í Nýja Íslandi í tvo flokka áður en þeir prestarnir, séra Jón og séra Páll, fluttu þangað. Sú skifting byrjaði þegar hinn síðarnefndi bauð sig fram til prestskapar haustið 1876. Hann bauð þjónustu sína með mjög vægum kjörum og var fjöldi, sem vildi taka því boði, enda varð það, að hópur manna bað hann að koma og varð það að framkvæmd, og var hann nýkominn í bygðina þegar séra Jón settist þar að haustið 1877.

Á hinn bóginn létu ýmsar raddir til sín heyra á móti Norsku sýnódunni og þar af leiðandi á móti tilboði séra Páls. Menn höfðu ímugust á henni fyrir ófrjálslyndi, sem þeir höfðu heyrt henni borið á brýn. Varð því stór hópur, sem með engu móti gat snúið sér að þessu félagi og sendu þeir því séra Jóni prestsköllun. Þetta sýnir að deilan var komin inn í bygðina á undan prestunum.

Séra Páll, annar málsaðili í þessari deilu, var sonur Þorláks Jónssonar frá Stóru Tjörnum í Þingeyjarsýslu, bróðir séra N. Steingríms Thorlákssonar, nú prests í Selkirk. Séra Páll var maður með mjög fjölbreyttar gáfur, lærdómsmaður mikill, frábærlega málsnjall og leit eftir hag fólks síns með nákvæmni og hyggindum. Hann var óþreytandi eljumaður, ósíngjarn og sleit út kröftum sínum í starfi fyrir fólk sitt.

Í skoðunum var hann algjörlega samþykkur







stefnu Norsku sýnódunnar, og fylgdi hann þeirri stefnu fram með þeirri alvöru og ósveigjanlegu festu, sem var óaðskiljanlegur hluti af eðli hans.

Deiluna milli þeirra séra Jóns og séra Páls ber aðallega að nefna í sambandi við tvo mjög merka málfundi. Var hinn fyrri haldinn 25. og 26. Marz 1878, en hinn síðari 17. og 18. Marz, 1879. Báðir voru fundirnir haldnir að Gimli og boðaðir sem almennir nýlendufundir til að ræða um það, sem á milli bar í "trúar og kirkjumálum". Fjölmenni sótti að fundunum og hlustuðu áheyrendur með mikilli athygli á umræður um þung guðfræðileg efni. Svipuð efni komu til umræðu á báðum fundunum: innblástur ritningarinnar, útvalningarkenningin, réttlætingar-dómurinn og margt fleira.

Fyrir seinni fundinn ritaði séra Jón ítarlega ritgjörð um öll ágreiningsatriðin. Ritgjörðin bar fyrirsögninni "Nauðsynleg hugvekja" og birtist í 15., 17., og 18. tölublaði 2. árgangs Framfara og var svo sérprentuð sem bók. Í því riti er, meðal annars, útdráttur úr þá ný-útkominni bók eftir Asperheim prest, sem dró fram öfgar og allmikla þröngsýni Norsku sýnódunnar.

Rúm leyfir ekki að skýra neitt verulega frá skoðanamun þessara manna. Eg verð að láta mér nægja að segja, að í innblástursmálinu hélt séra Jón því fram að "orðið" Biblíunnar fremur en "orðin" væri "verk heilags anda", þar sem séra Páll kendi að hinum upphaflega texta Biblíunanr gæti hvergi skeikað, hvorki í staðhæfingum um trúmál né um nokkur önnur mál; þar væri "hvert orð framgengið af Guðs munni og ritað að hans boði af hinum heilögu mönnum". (Frf. II., 21). Í sambandi við útvalningar kenninguna er enn erfiðara að skýra, hvað á milli bar nema í löngu máli, enda er það efni svo örðugt viðfangs, að um fullkominn skilning hér megin grafar er ekki að ræða. Í einu orði má segja, að séra Jón lagði áherzlu á trúna, sem skilyrði útvalningarinnar, en séra Páll á hið mikla náðarvald







Guðs, sem hina einu orsök hennar. Í sambandi við réttlætingardóminn get eg ekki fundið neinn verulegan skoðanamun, heldur aðeins dálítið ólíka framsetningu. Samt var verulegur munur anda og stefnu hjá þessum mönnum. Stefna Norsku sýnódunnar og stefna hinnar íslenzku kristni háðu þar einvígi, og eg hygg, að það sé ekki fjarri hinu rétta að segja, að það einkenni Norsku sýnódu-stefnunnar, sem einna mest örvaði deilu, var þessi blákalda vissa um hvert einasta atriði kenninganna, smátt og stórt, og þar af leiðandi hin napra fyrirdæming allra annara skoðana, hversu erfitt, sem málið var úrlausnar og hvað litlum parti af hársbreidd, sem munaði.

Þrátt fyrir þennan skoðanamun hygg eg, að mennirnir hafi haft áhrif hvor á annan og, ef séra Páll hefði lifað nógu lengi, að þeir hefðu báðir getað starfað í hinu núverandi lúterska kirkjufélagi.

Þriðja deilan, sem séra Jón tók þátt í, meðan hann dvaldi í Nýja Íslandi, var við Pétur biskup Pétursson, útaf því, að hann veitti séra Páli Pálssyni frá Prestbakka brauðið Stafafell í Lóni í Austur-Skaftafellssýslu, þegar faðir séra Jóns hafði sagt af sér prestskap þar, sökum vanheilsu. Var það mergurinn málsins, að séra Jóni fanst sá maður með öllu óhæfur til að vera prestur, og að hann segist hafa frétt að hin "megnasta óánægja" sé meðal Lónsmanna út af því, að landshöfðingi og biskup hafi "skikkað" þeim prest, er þeir með engu móti vilji hafa". Ritgjörð séra Jóns út af þessu birtist í Norðanfara, 20. Apríl, 1878. Er þar hreinskilnislega og skorinort talað og ekki hikað við að komast að ákveðinni niðurstöðu. Biskup og landshöfðingi þurfi að skilja sem fyrst "að prestar eiga að vera fyrir söfnuðina, en ekki söfnuðirnir fyrir prestana, eins og yfir höfuð að alþýða er ekki fyrir embættismenn, heldur embættismenn fyrir alþýðu". Það sé heilög skylda biskups að sjá um, að enginn sé í prestlegu embætti, sem að einhverju leyti valdi hneyksli í kristnum söfnuðum. Söfnuðurnir séu







líka skyldugir til að mótmæla öllum siðspiltum prestum og jafnvel að fara svo langt "að neyta lagalegs réttar síns, sem hins síðasta úrræðis, segja skilið við ríkiskirkjuna og stýra sjálfir öllum sínum kirkjumálum eftir leiðbeining heilagrar ritningar. Þetta er beinlínis heimilað í stjórnarskrá Íslands". Ástandið í þessu efni sé mjög bágborið á Íslandi, oftast nær muni á ári hverju "einn eða fleiri drykkjuslarkarar vígðir til presta og síðan sendir út til að leiðbeina hinni íslenzku alþýðu á Guðs götu". Ekki væntir hann neinna verulegra umbóta á ástandinu "fyr en kirkjan er algjörlega skilin frá hinni veraldlegu stjórn. Það er beint niðurdrep fyrir hið kirkjulega líf, þegar allir opinberir Guðs afneitendur og ólifnaðarmenn eru að sjálfsögðu skoðaðir sem meðlimir kristinna safnaða". Hann er sár út af því, hve almenningur sýnir litla rögg af sér í þessu máli og segir meðal annars: "Það er líklega mörgum kunnugt á Íslandi, að þeir sem komu fótum undir þjóðfélag Bandaríkja voru nýlendumenn frá Englandi, er flúðu þaðan vegna trúarofsókna (pílagrímarnir, 1620). Væri annað eins trúarfjör í vorri þjóð og í því fólki var, þá mundi veitingarvaldinu íslenzka ekki lengi haldast uppi að fá söfnuðunum til presta menn, sem varla eru í 'húsum hæfir eða í kirkjum græfir'." Biskupinn svaraði þessum aðfinslum með þeirri stillingu og hógværð, sem honum var lagin, og varði séra Pál gegn því, sem á hann var borið. Eg hefi það fyrir satt, að deila þessi hafi orsakað mikið umtal á Íslandi.

Haustið 1879 tilkynti séra Jón söfnuðum sínum, að hann væri knúður til að hverfa frá þeim og fara heim til Íslands. Alla sína tíð hafði séra Jón sterka þrá heim til Íslands, og hefir sú þrá eflaust átt einhvern þátt í því, að hann tók þetta spor, en það var þó annað, sem var efst í huga hans, en það voru veikindi föður hans, sem voru þess eðlis, að honum fanst það skylda að hverfa heim, ef vera mætti að hann kæmi þar að liði. Án þessa hreyfiafls hefði hann eflaust neitað sér um heimferð í það sinn.







Útaf þessari heimför var sameiginlegur fundur safnaðanna haldinn við Íslendingafljót 28. Nóv. Kosnir erindrekar safnaðanna mættu á þeim fundi. Sigurður Christopherson og Þorsteinn Jónsson fyrir Steinkirkju-söfnuð; Friðjón Friðriksson og Björn Jónsson fyrir Bæjar-söfnuð; Jóhann Geir Jóhannsson og Pétur M. Bjarnason fyrir Breiðuvíkur-söfnuð; og Sigtryggur Jónasson og Þorsteinn Antóníusson



Séra Jón Bjarnason í Nýja Íslandi 1878.

fyrir Bræðra-söfnuð. Auk þess voru á fundinum séra Jón, Halldór Briem og Jón Bergvinsson. Samþykkt var yfirlýsing um hrygð alls fólksins í söfnuðunum yfir burtför þeirra hjóna, einlægt þakklæti fyrir sífelda elju í starfinu og blessunaróskir til þeirra í framtíðinni. Sár var söknuðurinn yfir því um alla bygðina, að þau færu burt, en hinsvegar







könnuðust allir við að hvatirnar, sem knúðu til þess, væru göfugar.

Hina ýmsu söfnuði sína kvaddi séra Jón í Febrúar og Marz 1880. Síðasta opinbert verk, sem hann framkvæmdi þar, var að vígja til prests kosinn eftirmann hans, Cand. Halldór Briem. Sú athöfn var framkvæmd að Gimli 21. dag Marz-mánaðar og var það dýrleg stund, þrungin hátignarfullri alvöru.

Með því var lokið starfi séra Jóns í Nýja Íslandi og þá um leið einum markverðasta æfi-þætti hans.

Rétt þar á eftir var ferðin til Íslands hafin. Á leiðinni heimsóttu þau Íslendinga í Winnipeg og einnig í Minnesota-bygðum. Þaðan var haldið til New York og svo til Íslands.

---

## II. Í SEYÐISFIRÐI.

### 1880—1884.

Eftir Sigurbjörn Sigurjónsson.

---

Það var í September-mánuði 1880, að séra Jón Bjarnason kom til Seyðisfjarðar og settist þar að, þá ekki alls fyrir löngu kominn heim frá Ameríku, eftir hartnær 7 ára dvöl vestra. Nú hafði hann, samkvæmt tilmælum Péturs biskups, tekið að sér að þjóna Dvergasteins-prestakalli og Fjarðarkirkju í Mjóafirði, sem á þeim árum var annexía frá Dvergasteini. Í Seyðisfirði starfaði séra Jón, sem settur prestur, hátt á fjórða ár, eða þar til hann í Júlí-mánuði 1884 hvarf aftur vestur um haf til prestlegrar stöðu hjá Fyrsta lúterska söfnuði í Winnipeg, er hafði sent honum marg-ítrekaða köllun. Aldrei sótti séra Jón um Dvergastein á þessum árum, eða um nokkurt annað "brauð" á Íslandi, því áformið mun hafa verið, að hverfa vestur aftur og halda áfram starfi því að kristindómsmálum landa sinna þar, er hann, sökum heilsubilunar föður síns,







hafði orðið frá að hverfa um stund. Og fullyrða má, að þangað hefði hann leitað, þótt engin safnaðarköllun hefði borist honum að vestan; þörf fólksins í dreifingunni þar á andlegum leiðtoga kristnum var honum nægileg hvöt og fullvissa um, að hann væri "kallaður" til starfsins vestra. Þegar á öðru ári eftir að séra Jón hvarf heim (í Okt. 1881) var manni í Winnipeg, er þá var að leggja á stað í Íslandsför, falið að semja við séra Jón um að koma vestur hið bráðasta. — Aftur var á safnaðarfundi Winnipeg í Febr. 1882 rætt um prestsmál, og kom þar í ljós, hve eindregið menn þráðu að fá séra Jón vestur aftur hið bráðasta. Jafnvel ýmsir þeirra manna, er ekki höfðu veitt honum að málum í hinni kirkjulegu baráttu í Nýja Íslandi áður, fylgdu því nú fast fram, að hann væri kallaður aftur frá Íslandi til kirkjulegrar forystu vestra og lögðu fram rífan skerf til fjársamskota í því skyni. Köllunin að vestan var því svo brýn, að ekki varð hjá sér leidd, þótt séra Jón fengi ekki sint henni fyr en nokkru síðar.

Þótt alt benti til þess, að aðalstarf séra Jóns yrði unnið vestan hafs og þótt dvölin heima í þetta sinn, ef til vill, yrði að eins stutt, þá fanst honum sjálfsagt að kasta sér af öllum huga út í baráttuna fyrir kristindómsmálum þjóðar sinnar, sem ávalt lágu honum þyngst á hjarta; tók hann því að sér prestlega þjónustu í Seyðisfirði. Auk þess varð hann nú, hvort sem dvölin heima yrði löng eða skömm, að hafast eitthvað að sér og sínum til lífsframfæris, því engin voru efnin. Þá mun það og hafa ráðið nokkru, er séra Jón tók að sér Dvergastein, að af Seyðisfirði suður að Bjarnanesi í Lóni, þar sem faðir hans þá lá sjúkur, mátti fara á tiltölulega skömmum tíma, hvenær sem kallað væri; en við því mátti, að því er virtist, eiga von á hverri stundu.

Vel mun séra Jóni hafa verið kunnugt um það, að "brauðið" var að mörgu leyti erfitt heima fyrir





(sem síðar skal að vikið), auk þess, að prestur varð sumar og vetur að sækja yfir háan og vega-snauðan fjallgarð, er embættisverk skyldi af hendi leysa í Mjóafirði. En slíka erfiðleika lét hann sér ekki í augum vaxa. Þörf Seyðfirðinga á starfandi presti stóð nakin og ber fyrir sjónum hans sem himinhátt fjall, og við hlið þess urðu Mjóafjarðarfjöllin og aðrar torfærur að þúfum einum. Þar sem þörfin var mest, þangað bauð skyldan honum—það var "kallið", sem séra Jón Bjarnason ávalt hlýddi án möglunar.

Ekki settist séra Jón að á Dvergasteini, er hann kom til Seyðisfjarðar. Eigur voru engar til að reisa bú með, enda nóg annað að starfa, sem að hans dómi stóð presti nær að inna af hendi, en að hugsa um sjóróðra og griparækt. Bjuggu þau hjón, séra Jón og kona hans, því í þurrabúð allan dvalartímann í Seyðisfirði, fyrst einn vetur í Odda á Fjarðaröldu, þar sem Nikulás Jónsson, hálfbróðir séra Jóns, hafði lengi búið; um vorið 1881 fluttu þau í svokallað sýslumannshús á Vestdalseyri, miðja vegu milli Öldu og Dvergasteins. Þar bjuggu þau, til þess er þau í Júlí 1884 hurfu vestur til Winnipeg.

Á þessum árum var Seyðisfjörður í miklum uppgangi. Fólkið streymdi að úr öllum áttum og settist þar að, auk þess sem mörg hundruð Norðmanna höfðu þar bækistöð sína til síldarveiða alt sumarið. Mikil umbrot voru því í lífinu þar í firðinum og lítill tími til alvarlegra hugsana, eins og víða vill verða, þegar velgengni og mammons-hyggja blinda mönnum sýn. Með vaxandi fólksfjölda þróaðist því ýmiskonar óregla, og einkum var Bakkus mjög ánægður með kjör sín í Seyðisfirði um þær mundir, enda hafði hann þar þá sýslumann og aðra höfðingja sveitarinnar að vinum, auk fjölda annara, er neðar stóðu í mannfélagsstiganum. Prestur sá, er nokkur undanfarin ár hafði haft þjónustu á hendi hjá Seyðfirðingum, var mjög á valdi Bakkusar, og flúði loks að Hofteigi, efst uppi á Jökuldal, til þess að losa sig úr þeim læðingi.

Eins og geta má nærri voru öll safnaðarmál í mesta ólagi. Kirkjan var gömul og köld og langt um of lítil, grafreitur löngu út grafinn og fjármál öll í ólagi. Þá var og kirkjusókn og barna-uppfræðslu, að vonum, mjög ábótavant. Bólusetning, sem þá heyrði undir starfsvið presta á Íslandi, hafði ekki verið framkvæmd í firðinum um margra ára bil; enginn barnaskóli var í sveitinni, og enginn læknir var þar búsettur.

Þannig var ástandið í Seyðisfirði, þegar séra Jón kom þangað. Hér var því ekki til setu boðið fyrir áhugasaman eljumann, þar sem svo mörg velferðarmál safnaðarins voru í algerðu ólagi. Og þó óhugsanlegt væri, að öllu þessi yrði kipt í lag á skömmum tíma, varð tafarlaust að hefja baráttuna; séra Jón kastaði sér því þegar út í umbóta-starfið og hélt því látlaust uppi til enda dvalartímans í Seyðisfirði og lengur þó. Nú var með nýjum áhuga gengið að því að koma upp barnaskóla á Öldunni, þar sem mest var fjölmennið; hafði að vísu áður lítilsháttar verið byrjað að safna fé til þess fyrirtækis, en lítill áhugi verið hjá almenningi, að eins um þúsund krónur safnast. Vandað skólahús var reist sumarið 1882 á Öldunni sunnarlega, lengra frá rótum Bjólfsfjalls en upphaflega var ákveðið; var það fyrir aðgerðir séra Jóns að breytt var um skólahúss-stæðið; þótti honum óhyggilegt að setja skólann þar sem snjóflóð hafði skömmu áður fallið. Enda féll þar annað snjóflóð tveim árum síðar. — Þá starfaði séra Jón ötullega að því, að læknir yrði fenginn til Seyðisfjarðar; og fyrir ýmsum öðrum umbótum barðist hann í ræðu og riti.

Þegar séra Jón kom til Seyðisfjarðar, var þar til ofurlítið bindindisfélag, sem taldi að eins 14 meðlimi. Sem vonlegt var orkaði sá fámenni hópur litlu gegn ofurefli Bakkusar. Tóku þessir fáu umbótavinir feginshendi við séra Jóni og frú hans til fyrirliðastöðunnar. Starfið fékk nú meiri festu og nýtt líf; fundir urðu alltíðir, ánægjulegir og vel sóttir, enda fór nú kvenfólk að taka þátt í starfinu fyrir

áeggjan frú Láru og þeirra hjóna. Nokkrar konur voru þó hræddar um, að kvenfólkinu í Seyðisfirði yrði lagt það út til hneisu út í frá, álitið að þær væru svo hneigðar til ofdrykkju, að þær yrðu að ganga í bindindi til að losa sig við Bakkus. En slíkum hugmyndum var fljótt dreift, og konum bent á með rökum, að frá hvaða hlið, sem á væri litið, yrði bindindisstarfsemi kvenna í Seyðisfirði þeim að eins til heiðurs og þjóðfélaginu til blessunar. — Félagið efldist óðum undir hinni nýju leiðsögn og árangur var auðsær. Þess er getið í fréttum af Seyðisfirði, er birtust í "Norðanfara" 9. Júlí 1884, að allur þorri ungra manna í firðinum séu bindindismenn, og lýkur greinarhöfundurinn miklu lofsorði á þau hjónin fyrir bindindisstarfsemi þeirra.

Þótt séra Jón starfaði þannig með sínum alkunna dugnaði að ýmsum velferðarmálum mannfélagsins, sem ekki beinlínis töldust kirkjuleg, voru safnaðarmálin ekki höfð út-undan. Nýr grafreitur var girtur og vígður, ofn var fenginn í gömlu kirkjuna, svo kuldi í henni hamlaði fólki ekki frá að sækja helgar tíðir, enda varð nú sjaldan messufall, þegar prestur ekki var fjarverandi í Mjóafirði; bráðlega var og að því miðað, að ný og stærri kirkja yrði reist á hentugri stað, nær kaupstaðnum, þar sem aðal-fjöldi fólksins hafði aðsetur. Af þeirri kirkjubygging á Vestdalseyri varð þó ekki fyr en eftir burtför séra Jóns. Samvizkusamlega var að því unnið, að kirkjan fengi lögákveðin gjöld sín, og komst prestur út af því í ónáð hjá efnafólki nokkru þar í sveitinni, sem um langt árabil hafði, samkvæmt ævagömlum leiguskilmálum, búið á kirkjujörð við mjög lágu afgjaldi. Stóð hann í töluverðum erjum við það fólk út af því, er það neitaði að láta af hendi skerf kirkju og prests af landshlut þeim, er Norðmenn höfðu greitt ábúanda. Til samkomulags og friðar bauðst séra Jón til að gefa eftir sinn skerf hlutarins, sem um var deilt og numið mun hafa alt að 900 kr. Fyrir mun og hafa komið, að prestur hlypi undir bagga með þeim, er erfitt áttu með gjöld-

in, svo að kirkjan fengi sitt, að minsta kosti var minni áherzla lögð á að innheimta þá tíundina, er til prestsins skyldi ganga. Enda var fjárhagslegur arður fjögra ára starfsins í Seyðisfirði ekki meiri en svo, að séra Jón varð að fá peningalán til vesturfararinnar.

Þau ár er séra Jón Bjarnason þjónaði Seyðisfirði, var vetrarríki með meira móti á Íslandi, en sjaldan var svo erfitt yfirferðar, að séra Jón ekki kæmi á kirkjustaðinn á helgum, hvort sem var til Dvergasteins eða yfir fjallgarðinn að Firði. Sérstaklega var erfið sóknin til Mjóafjarðar á vetrum og oft hættuleg. Enda var séra Jón tvisvar sinnum mjög hætt kominn á þeim ferðum, í annað sinn af snjóflóðum, er hann að vorlagi lagði leið yfir svokallað Skógaskarð, skemstu leið að Firði í Mjóafirði; í hitt skiftið gafst hann þvínær upp á miðri Brekkugjá; það var um hávetur í kafaldsbyl og frosthörku, og sagði hann svo sjálfur frá, að þá hefði það eitt orðið sér til lífs, að hann hafði kunnugan og duglegan mann sér til fylgdar. Jafnvel þó fyrir fram væri vitanlegt, að enginn aðkomandi myndi sækja til kirkju á slíkum dögum, þótti honum sjálfsagt fyrir prestinn að vera þar til staðar og boða erindið um eilífa sáluhjálp fyrir Jesúm Krist, hversu fáir sem hlýtt gátu. Það var þessi einlægni og samvizkusemi í embættisfærslunni, og hverju öðru, er hann hafðist að, sem meðal annars vakti aðdáun manna á séra Jóni, jafnvel þeirra, sem ekki voru honum samdóma um kenninguna. Á prenti hefir því verið kastað fram, að séra Jóni látnum, af manni, sem kunnugur þóttist hugarfari hans, að samvizkusemi við embættisfærsluna hefði verið honum aðal-hvöt í starfinu, en trúarvissan verið völt. Þessi ummæli eru bygð á algjörðum misskilningi á insta eðli séra Jóns, eins og öllum er kunnugt, þeim er bezt þektu hann. Það var trúin, einlæg og bjargföst, trúin á Jesúm Krist, dáinn og upprisinn, sem hinn eina veg til sáluhjálpar, er öllu réði hjá honum. Um þessa trú vitnaði hann seint og snemma, innan kirkju





og utan; það var hún, sem knúði hann til starfsins og veitti honum þrek til að rækja skyldur sínar, hver öfl sem við var að etja. Samvizkusemi séra Jóns, sem augljós var öllum þeim, er kynni höfðu af honum, hefði ekki leyft honum að flytja þann boðskap, sem hann í hjarta sínu hefði lítils metið eða jafnvel neitað til hálfs; — allur hálfleiki var honum mjög fjarri skapi. Því var það, að hann tók svo ómjúkum höndum á atferli ýmsra stéttarbræðra sinna, er fallið höfðu að meira eða minna leyti frá barnatrú sinni, en héldu þó dauða-haldi í prestsembættin — undir fölsku flaggi. Á öllu slíku hafði hann megna óbeit.

Þetta var óbifanleg stefna séra Jóns Bjarnasonar, að því er hin sáluhjálplegu sannindi trúarinnar snerti, og að hagga þeim trúargrundvelli var í hans augum afar mikill ábyrgðarhluti hverjum manni.

Um hið ytra form, messuskrúða og aðrar slíkar mannasetningar, var honum minna gefið. Slíkt gat þó að dómi hans verið meinlaust, og ekki ástæða til að leggja það niður, nema svo, að söfnuðurinn vildi svo vera láta; því var það, þegar hann eitt sinn af vangá hafði skilið hempuna eftir heima, að hann lagði það undir vilja messufólks, hvort sent skyldi eftir hempunni, áður gengið væri í kirkju. Frá hans eigin sjónarmiði var slíkt óþarfi, en ef svo skyldi vera að hneyksli vekti hjá einhverjum, að prestur stigi hempulaus í stól, var sjálfsagt að senda eftir hempunni.

Það var á þessum árum að séra Lárus Halldórsson á Valþjófsstað, svili séra Jóns, tók að brjóta af sér hlekki þjóðkirkjunnar, að því er messuform og annað slíkt snerti. Margir hafa álitið að þetta tiltæki hans hafi að miklu leyti stafað af áhrifum frá séra Jóni. Satt er það, að séra Jón mun hafa skýrt fyrir honum á hvern hátt hann hafði hagað guðsþjónustum meðal landa sinna vestra, samkvæmt reglum, sem algildar væru meðal kristinna kirkjudeilda í Ameríku. En um bein áhrif frá séra Jóni um þessi efni mun ekki vera að ræða, þar eð hann, eins og áður



er á vikið, áleit messuform sem auka-atriði, er leggja mætti að meinalausu niður eða halda, eftir því sem á stæði og eftir samkomulagi við söfnuðinn. En ákveðinn var séra Jón þá þegar í því, að kirkjan ætti sem fyrst að losast undan ríkinu og verða sjálfstæð, ef hið heilaga málefni hennar ætti að fá notið sín. Og um það lét hann oft til sín heyra opinberlega í ræðu og riti.

Þótt ekki væri nema um hálf dönsk míla frá Fjarðaröldu út að Dvergasteini, var oft býsna erfitt að komast til kirkju, þegar ekki varð farið á sjó; snjóþyngsli oft mikil og stormar. En til þess að gera fólki hægra fyrir, tók séra Jón upp það nýmæli seinni árið að prédika við og við í skólahúsi sveitarinnar á Öldunni. Tóku margir því fegins hendi, og var oftast fjölmenni við þær guðsþjónustur.

Fyrsta veturinn, er séra Jón þjónaði Dvergasteini, gekk sá, er þetta ritar, til hans til fermingarundirbúnings. Þótt síðan sé liðinn hálfur fjórði tugur ára, gleymast ekki þær ánægjustundir. Kvíðinn, sem gera mun vart við sig hjá flestum unglingum, er þeir byrja að "ganga til prestsins", hvarf víst hjá flestum fermingar-börnum séra Jóns eftir fyrsta yfirheyrslu-daginn. Ljúfmenska séra Jóns og einlægni, sem börnin þegar mættu, dreifði óðara öllum geig hjá þeim, og mörg munu hafa beðið þess með óþreyju, að tíminn milli spurninga-daganna liði hjá. Djúp og hrein lotning fyrir hinum þríeina Guði, sem fylti sál prestsins, og hin sterka trú á sáluhjálpar-sannindi Guðs orðs, sem augljós varð í hvert sinn, er hann hafði yfir ritningarstað, vörpuðu bjarma yfir spurningarstundirnar, er að sjálfsögðu fékk endurskin í hinum ungu sálum. Naumast munu börnin þó á þeim árum hafa gert sér grein fyrir orsökum þessara vermandi áhrifa séra Jóns, en síðar skildist þetta betur, er um það var hugsað með þroska fullorðinsáranna. Á öllu, er að Guðs orði laut, varð, ef svo mætti að orði komast, að taka með hreinum höndum, og varast að segja nokkuð það eða gera, er kastað gæti rýrð á "sann-







leiks-málefnið heilaga", eins og séra Jón nefndi það, sem um var að hugsa. Sterklega og oft var það brýnt fyrir börnunum, hversu dýrmæt og náðarrík Guðs gjöf trúin á Jesúm Krist væri, og hve afaráríðandi það væri, að líf þeirra bæri þess ávalt ljós merki, að þau væru börn Guðs, svo orðið hans yrði ekki fyrir lasti. — Til þess að unglingarnir skyldu festa enn betur í minni lexíur þessar um áhrif trúarinnar á líferni manna, benti hann þeim á fórnfýsi ýmsra guðelskandi manna að fornu og nýju, er lagt hefðu líf og krafta í sölurnar til þess að meðbræður þeirra mættu verða aðnjótandi sælu þeirrar, er trúin á Jesúm Krist hafði fært þeim sjálfum. Og einkum benti hann á þá menn, er fyrir kraft trúarinnar höfðu horfið frá guðlausu og spiltu framferði til fórnarfúss og bænarríks lífernis. Og engu síður voru það slíkir menn úr kaþólskum sið, er vöktu aðdáun séra Jóns. Hin mikla lotning almennings þeirrar kirkjudeildar fyrir guðdóminum snart streng í hjarta hans, sem vonlegt var, þar eð sú trúareinkunn fylti hans eigin huga svo mjög; það var þetta atriði, sem kom honum til að hafa þau ummæli, að ef hann væri ekki lúterskur, mundi hann hallast að kaþólskum sið. En þess gætti hann um leið, að unglingarnir skildu það greinilega, að öll dýrlingadýrkun kaþólsku kirkjunnar og helgivald það, er hún beitti við meðlimi sína, væri sér ógeðfelt, enda ósamkvæmt Guðs orði og sönnum kristindómi. Móti öllu slíku öfugstreymi kaþólsku kirkjunnar hefði Lúter barist og viljað ryðja burtu, en því öðru í kaþólskum sið, er eflt gæti sanna trú og lotningarfulla guðsdýrkun, hefði hann viljað innræta trúbræðrum sínum. — Ekki lagði séra Jón mikla áherzlu á það við fermingar undirbúninginn, að börnin kynnu "kverið" utan að; gott auðvitað að geta farið með kafla úr "kveri" og biblíusögum, hvar sem ofan í var gripið, ef skilningur á efni og orðum fylgdi með, en á það lagði hann sterka áherzlu; gekk því oft nokkur tími til slíkra skýringa. Við allan skilningslausan þululærdóm var séra Jóni meinilla. Sem dæmi þess, hversu slíkur







lærdómur afbakaði ljóð og lesmál í hugum manna, sagðist hann oft hafa heyrt fólk, sem lært hefði 12. Passíusálminn, fara þannig með fyrsta versið: "Pétur þar sat í sal, hjá sveinum inni, tvent hafði hanagal heyrt að því sinni—búinn", tengt þannig fyrsta orð af öðru versi aftan í fyrsta versið, sem auðvitað haggaði rími sálmsins. Eins færi, þegar óbundið mál væri lært utanbókar og ekkert tillit tekið til lestrarmerkja og greinarskila. Ekkert tók séra Jón sárara, en ef Passíusálmar Hallgríms Péturssonar afbökuðust í hugum barna fyrir þululærdóm; kunni hann þá víst utan að spjaldanna á milli, og gengu þeir í huga hans að verðmæti næst Guðs orði heilagrar ritningar. Svo að segja hvar sem niður í þá var gripið, fann hann dýrmæta og fagra trúar-gimsteina, sem hann bað börnin að taka og eiga. Ríkt gekk séra Jón eftir því, þegar hann setti börnum fyrir að læra biblíukafla eða sálmavers, að slíkt væri samvizkusamlega af hendi leyst, og þá sjaldan að á óþolinmæði bar hjá honum við börnin, var það helzt er skeytingarleysi kom fram hjá þeim við lærdóminn; óskifta eftirtekt heimtaði hann á spurninga-stundum og gat þá orðið býsna byrstur ef tregða var á hlýðninni. Brýndi hann það vel fyrir börnunum, að af þeim, sem mikið væri af skaparanum gefið, yrði meira heimtað en af hinum, sem minna hefðu þegið; fylgdi hann í verkum þeirri kenning við uppfræðsluna. — Þennan umrædda vetur gekk til prestsins stúlka ein á fermingaraldri, er fyrir svo litlu pundi hafði verið trúað af skaparanum, að hún gat naumast haft yfir "faðirvorið" sitt orðrétt. Við hana bólaði ekki á neinni óþolinmæði, þótt stirt gengi með námið. — Mörg sálmvers voru börnin látin læra, einkum úr Passíusálmunum, og var þá eitthvert þeirra sungið við lok spurningastundar, en hún hafin með því að syngja versið "Send oss nú, faðir, anda þinn", eða eitthvert annað slíkt trúarljóð. — Þegar syngja átti, var sjálfsagt að kalla á frú Láru til að byrja.







Á þessum árum var séra Jón Bjarnason á bezta aldursskeiði, milli þrítugs og fertugs, og líkamsfjör hans óþrotlegt, að því er virtist; mátti heita, að hann hlypi altaf við fót, og ekki taldi hann eftir sér að fara fótgangandi til prestsverka um sveitina; fanst óþarfi, að menn væru að ómaka sig með hesta eða annan farkost handa presti, þó skíra þyrfti barn eða gifta hjón.

Þrjá síðustu veturna á Seyðisfirði veitti séra Jón nokkrum piltum leiðsögn í almennum fræðum og ensku. Þá ritaði hann og margar blaðagreinir, helzt í "Norðanfara", um kristindóm og safnaðarmál, bindindi, stjórnmál o. fl. Aldrei mátti verk úr hendi falla, því á öllum svæðum blasti við óunnið starf.

Í bindindismálinu lagði hann til, að hver sveit fengi að segja um það sjálf, hvort vínsala skyldi leyfð innan takmarka sinna eða ekki ("local option"), og þar sem vínsöluleyfi væri gefið, skyldi strangt eftirlit haft með því að svall og önnur óregla ætti sér ekki stað á slíkum opinberum stöðum á helgum dögum. Með frjálsum samtökum vildi hann að alþjóðar-bindindi yrði á komið. Öll þvingunarlög voru honum ógeðfeld, og taldi hann þau leiða af sér óeinlægni og aðrar syndir hjá þeim, er ekki gætu látið sannfærast um réttmæti slíkra lagaákvarðana. — Harðlega mótmælti séra Jón og því fyrirkomulagi, er þá tíðkaðist við kosningar til þings, að kjósendur yrðu allir að sækja á einn stað í hverju kjördæmi til atkvæðagreiðslu; af því leiddi, sagði hann, að fáir kjósendur aðeins réðu úrslitum, slíkt væri óhafandi og nauðsynlegt og sjálfsagt, að kjörstaður yrði settur í hverri sveit. — Um ýms önnur umbóta-mál lét séra Jón á þessum árum til sín heyra í blaðagreinum sínum.

Mestallan þann tíma, er séra Jón bjó í áðurnefndu sýslumanns-húsi á Vestdalseyri, átti sögumaður heimili þar á loftinu, og var daglegur gestur á heimili þeirra hjóna. Man hann og eftir ýmsum atvikum frá þeim árum, sem sumum kunna ef til







vill að sýnast smámunir einir, en lýsa þó betur lunderni, hug og stefnufestu séra Jóns, en margt annað; hér skal því stuttlega minst á nokkur þeirra:—

Milli Dvergasteins og Eyrar liggur vegur víða svo að segja í flæðarmáli og liggja hæðir eða hjallar á sumum stöðum fast niður að götunni. Á vetrum er oft ófærð neðan við hæðirnar, en hjallarnir berir, þar sem vindur hefir náð að rífa snjóinn. Sunnudag einn að vetrarlagi í kalsaveðri, er séra Jón hélt til kirkju, lagði hann leið eftir hæðunum, þar sem minna var snjókingið. En er kom á miðjan einn hjallann varð fyrir svellbólstur býsna breiður, er snjólaus var. Hugði nú fylgdarsveinn, að séra Jón mundi snúa við og leita á neðri leiðina, þó nokkur krókur væri, því óráðlegt virtist að leggja út á bólsturinn; ef fótaskortur yrði á svellinu, mátti eiga víst, að hrapa út af hæðinni, því brúnin var rétt neðan við; og þótt fallið yrði ekki mjög hátt, gat það valdið töluverðum meiðslum. En séra Jón þaut út á bólsturinn, var bráðlega kominn á færan veg aftur og hélt leiðar sinnar eins og ekkert hefði verið. Fylgdarsveinn varð nauðugur viljugur að sækja eftir, ef hann átti ekki að verða af samfylgdinni. Hugur séra Jóns var allur á markmiði fararinnar; því varð hann að ná í tæka tíð, hvað sem farartálma leið, og eins þótt fylgdarmanni þætti ógreið yfirförin.

Um vandvirkni séra Jóns í smáu sem stóru mætti margt telja fram. Hversu lítilfjörlegt sem verk það var, er hann gekk að, var sjálfsagt að leysa það af hendi sem bezt. — Vor eitt í leysingum hafði krapa-elgur safnaðst að túngarði, er lá fast að heimili séra Jóns á Eyrinni, og seig vatn í gegn um garðinn inn í fjós, er prestur hafði látið byggja; myndaði garðurinn einn vegg hússins. Ekki tjáði að láta vatn renna undir kúna í fjósinu; leggur séra Jón því út í óveðrið með fjósapilti til að skera fram elginn; gerðu þeir djúpan skurð meðfram húshliðinni og út úr blánni, sem nægði til að veita vatninu frá garðinum; en ekki var séra Jón ánægður







með þær vatnsveitingar fyr en krapadyngjan var öll sundurskorin þvert og endilangt. Þá fyrst var mál að leita sér skjóls undan regn-dembunni.

Telja mætti fram ýmislegt um stefnufestu séra Jóns í bindindismálinu og það hversu óljúft honum var að láta laust við Bakkus nokkuð af því, sem unnist hafði úr höndum hans. Eitt dæmi skal til fært: Brúðkaupsveizla skyldi haldin á Eyrinni og voru brúðhjónaefnin hlynt eða starfandi í bindindishreyfingunni. Til veizlunnar var boðið fjölda manns og þar á meðal flestum höfðingjum sveitarinnar, að vanda. Nú hafði það verið margra ára venja á Íslandi, að vín væri fram borið í slíkum hófum, þótti eins og sjálfsagt. Brúðguminn var nú í vanda staddur; annað hvort hlaut hann að brjóta bág við hefðina, hafa ekkert vín og eiga á hættu, að höfðingjum og öðrum vinum Bakkusar þætti lítið til koma, eða þá á hinn bóginn að fylgja venjunni og segja skilið við bindindisvini. Var hvorttveggja ilt. Í þessum vanda var leitað til prestsins um ráð. Þar var auðvitað um eitt svar að ræða: sjálfsagt að reka vínið á dyr, hvað sem hefð og höfðingjum liði. Séra Jón sá þegar, að hér var sterkt vígi Bakkusar rofið, ef brúðkaupsveizla væri haldin án víndrykkju. Bauðst hann til að sjá um það, með aðstoð konu sinnar, frú Láru, að veizlugestum leiddist ekki, þótt vínveitingum væri slept. — Svo sterk höft hafði venjan þó í þetta sinn á þeim, er fyrir veizlunni stóðu, að bindindið varð að lúta í lægra haldi. — Geta má nærri hvernig séra Jóni féll vanaþrældómur þessi, er honum sjálfum var svo fjarri skapi og sem aldrei fékst til þess að halla réttu máli, þótt við það væri í veði hylli einhverra manna, æðri eða lægri. — En þótt stefna séra Jóns í þessu, sem öðrum velferðarmálum þjóðar hans, væri bjargföst, var hún laus við öfgar og bókstafsþjónustu, og sjálfsagt þótti honum að taka vægt á þeim, sem hrasaði, þótt syndin sjálf fengi harðan dóm. — Var eitt vor sem oftar af ungu fólki haldið gleðimót á Eyrinni.







Þangað sóttu eldri sem yngri, bindindismenn sem aðrir. Var þar borið fram tvennskonar öl til sælgætis, óáfengt (hvítöl) bindindisfólki til hressingar og þeim öðrum, er það kusu heldur. Eftir á var farið að fleygja þeim orðrómi, að ýmsir unglingar úr bindindisfélaginu hefðu sér óafvitandi verið látnir drekka það ölið, sem þeim var óleyfilegt. Vildu nú sumir strangir bindindismenn gera veður úr þessu og láta hegna þessum brotlegu meðlimum. En séra Jón var ekki á því að þóknast Bakkusi með slíkri bókstafs-þjónustu, einkum þar sem ljóst var, að brotin voru af vangá en ekki ásetningi framin. Og fyrir aðgerðir séra Jóns í málinu varð þetta meira til hneisu þeim, er valdir voru að og um hældust, en hinum, er glæpst höfðu á ölinu; hinum síðartöldu aftur góð lexía og bindindismálinu til eflingar.

Eitt dæmi frá þessum árum skal tilnefnt um óeigingirni séra Jóns Bjarnasonar og það, hversu fjarri honum var sá ríkjandi hugsunarháttur margra presta á Íslandi þá, að hafa undir sem stærst "brauð" í hagsmuna skyni. — Þegar séra Jón í fyrsta sinni kom til Mjóafjarðar í embættisferð, var þar fyrir prestur úr næstu sveit fyrir sunnan í því skyni að láta í ljós vanþóknun sína út af komu séra Jóns þangað, taldi hann hafa tekið Mjóafjörðinn frá sér, þar eð sér hefði áður verið falin þjónustan þar: nokkur þykkja mun hafa gert vart við sig hjá prestinum út af þessu. Þetta kom mjög flatt upp á séra Jón, þar eð hann hafði tekið að sér Fjarðarsókn samkvæmt tilmælum biskups, svo sem áður segir, Bauðst hann nú samstundis til að láta lausan Mjóafjörð við þennan stéttarbróður sinn, kvað slíkt ekki skyldi verða þeim að sundurlyndi. — Þótt hann væri þá og síðar reiðubúinn til að eftirláta brauðið, varð aldrei af þeim prestaskiftum, og þjónaði hann Fjarðarsókn þar til árið 1883, að nýr prestur fékk veitingu fyrir Mjóafirði, er þá varð að sjálfstæðu prestakalli. Og ekki varð þetta séra Jóni og Norðfjarðarprestinum að ágreiningsefni, heldur unnu þeir saman af alhug að bindindismálinu meðan návistir







entust, og báru mikla virðingu hvor fyrir annars stefnufestu og starfsemi í því máli, þótt ekki væru þeir að öllu leyti samdóma um það, á hvern hátt Bakkus skyldi útlægur gjör.

Lítt kunnu Seyðfirðingar yfirleitt að meta starf séra Jóns Bjarnasonar þau ár, er hann dvaldi meðal þeirra, framan af að minsta kosti, voru óvanir slíkum dugnaði og áhuga; en með hverju árinu, sem leið, fór þeim stöðugt fjölgandi, er fylktu sér utan um þennan ötula leiðtoga í umbótastarfnu; fyrir ýmsum mun þó hafa farið svo, að þeir "vissu ekki hvað átt höfðu fyr en mist höfðu". — Aftur á móti höfðu Norðmenn þeir, er í Seyðisfirði dvöldu, opið auga fyrir því, hvern mann hann hafði að geyma, og báru mikla virðingu fyrir honum, bæði sem presti og manni; flutti hann fyrir þá allmargar ræður á norsku samkvæmt ósk þeirra, og gerði fyrir þá ýms önnur prestsverk. — Í Mjóafirði skipuðu ýmsir helztu og beztu menn sveitarinnar sér þegar í byrjun í flokk með séra Jóni, sem gerði starfið þar ljúfara.

Marga einlæga vini eignaðist séra Jón og þau hjón bæði, þann stutta tíma, er þau dvöldu í Seyðisfirði, og urðu þau vináttubönd traustari eftir því sem viðkynningin varð nánari. Og hið látlausa og hófsama heimilislíf þeirra hjóna vakti aðdáun hjá þeim, er svo voru hepnir að þekkja það vel.

Þegar séra Jón Bjarnason og frú hans komu til Seyðisfjarðar, voru þau barnlaus. En á árunum fjórum, er þau dvöldu þar, tóku þau fimm börn til fósturs; þrjú hvert af öðru af Sveini bróður séra Jóns; fyrst ungan pilt, Jón, er þau mistu á 3. aldursári og jarðaður var í hinum nýja grafreit á Dvergasteini; þá stálpaðan pilt, Ólaf, er ekki undi sér, og varð að hverfa heim aftur til föðurhúsa, og loks kornungt stúlkubarn, Nönnu, er þau urðu á bak að sjá skömmu eftir komuna vestur. Hin tvö, Theódóra og Friðrik, systkinabörn frú Láru, dvöldu hjá þeim til fullorðins ára og eru nú í Winnipeg. Skömmu eftir ð þau hjón settust að í Winnipeg tóku þau enn barn





til fósturs, nýfætt, Helgu Snorradóttur Reykjalíns, og ólst hún upp sem þeirra barn.

Ekki skoðaði séra Jón Bjarnason það sem tilviljun eina, að hann einmitt á þessu tímabili sögunnar lenti til Seyðisfjarðar. Þvert á móti leit hann svo á þá — eins og ávalt, þegar örðugt gjörðist undir fæti í fjallgöngum lífsins —, að þar réði heilagur kærleiksvilji föðurins himneska, sem ekkert handahóf þekti. Hann trúði því fastlega, að slíkar eldraunir væri sér af guðlegri náð sendar eins og leiðarljós og sem "fleinn í holdið" til þess að hann miklaðist ekki af eigin mætti, heldur reiddi sig á hjálpina guðlegu, sem ein dygði.

---

## III. Í WINNIPEG.

(1884—1914)

Eftir W. H. Paulson.

---

Þótt langt sé nú orðið á að minnast það, sem skeði meðal Íslendinga hér í landi fyrir þrjátíu og fimm árum síðan, þá er mér margt frá þeim tíma minnisstætt. Veturinn 1883—4 var minn fyrsti vestan hafs, og þann vetur kyntist eg fyrst Íslendingum í Winnipeg. Þá horfði flest annan veg við þeim, en nú á dögum. Þá voru þeir allir óbreyttir útlendingar í framandi landi. Nú eru þeir langflestir gróðursettir borgarar, fjöldamargir innfæddir og nálega allir algerðir heimamenn í þessari álfu. Útlendingsbragurinn var á þeim, og einstæðings-tilfinningin ríkti í hugum þeirra alment þá. Þeir áttu hvergi höfði sínu að að halla, nema þá helzt hver að öðrum.

Ekkert vakti hjá þeim um þessar mundir, meiri eftirtekt en það, þegar nýir innflytjendur að heiman bættust í hópinn. Þeir fögnuðu hverri slíkri viðbót, þótt þeir vissu varla sjálfir hvers vegna. Aldrei



höfðu þeir neins fjármunalegs hagnaðar að vænta af komu nýrra hópa að heiman. Fremur mátti búast við því gagnstæða, því þeir litu á það sem sína helgustu skyldu að liðsinna nýkomnum löndum sínum, og ræktu líka þá skyldu, margir hverjir, vel og lengi. En þeim mun hafa fundist þessu fylgja einhver innri styrkur, sem þeir þó naumast gátu gert sér grein fyrir í hverju var fólginn.

Það var einn fagran "Manitoba sólskinsmorgun", að sú fregn flaug frá manni til manns, meðal Íslendinga í Winnipeg, að nú væri séra Jón Bjarnason kominn. Þetta var 10. ágúst, 1884.

Hann kom þá frá Seyðisfirði á Íslandi, með konu sína Láru og þrjú fósturbörn þeirra. Enn fremur var í för með þeim nokkur hópur (um 80) íslenzkra innflytjenda, aðallega frá Austurlandi.

Séra Jón kom þá sem ráðinn prestur til safnaðarins íslenzka í Winnipeg. Þenna söfnuð hafði hann sjálfur stofnað þegar hann var í Nýja Íslandi, eftir heimildum, sem eg hefi beztar talið, á vetrinum 1878—9. Aðal-leiðtogar aðrir við þá safnaðarmyndan, eftir því, sem eg hefi næst komist, voru: Jón Þórðarson, lengi síðar í Hensel í Norður Dakota, og um eitt skeið þingmaður þess ríkis, Gunnar Einarsson, móðurbróðir Einars Hjörleifssonar, og Arngrímur Jónsson, bróðir Tómasar ráðherra. Sunnudagsskóla héldu uppi, á þeirri tíð, Andrea Fisher, frá Reykjavík, síðar kona Gunnars Einarssonar, Jóhanna Skaftadóttir og Helga Þorsteinsdóttir, frá Eyjafirði, síðar kona Arngríms Jónssonar.

Þessi söfnuður hafði víst altaf verið við lýði þótt af lítilli þjónustu frá prestum hefði haft að segja. Þó þjónaði honum, um einhvern stuttan tíma, séra Halldór Briem, áður en hann fór til Íslands og tók við kennara-embætti við Möðruvalla-skóla.

Svo hafði nú Íslendingum fjölgað í Winnipeg og söfnuður þessi færst í aukana, að um veturinn 1883—4, réðst hann í að senda séra Jóni köllunarbréf, sem til þess leiddi, að hann kom vestur.







Íslendingar í Winnipeg voru ekki fjölmennir þá. Þeir, sem í söfnuði þessum stóðu, þó langt um færri. En nálega allir, sem nokkuð létu til sín taka, eða



Séra Jón Bjarnason og frú Lára í Winnipeg, um 1910.

nokkuð til muna bar á, voru þó í söfnuðinum og hvöttu til þessarar köllunar, og af því þessi ráðsályktun þeirra varð svo þýðingarmikil fyrir þjóð-







flokk vorn í þessu landi, virðist ekki úr vegi farið þó nefndir séu nokkrir þeirra, er mest gengust fyrir safnaðarmálunum þar á þeirri tíð, og skulu þá taldir þessir: Árni Friðriksson, Eyólfur Eyólfsson, Páll Sigurgeirsson Bardal, Jón Björnsson frá Héðinshöfða, Sigurður Jóhannesson skáld, Magnús Paulson, Baldwin L. Baldwinsson, Sveinn Björnson, þá skrifari safnaðarins, Gunnar Einarson, Arngrímur Jónson, Jón J. Júlíus, Helgi Jónsson, þá útgefandi Leifs, og Stefán Gunnarsson, allir enn á lífi nema tveir þeir síðast töldu. Margir þessara manna hafa meira og minna komið við sögu Vestur-Íslendinga, fyr og síðar. Nefna má líka, í þessu sambandi, konur tvær, báðar þá ekkjur, sem mikið kvað að og létu til sín taka um safnaðarmál þá og lengi fram eftir árum, þær Rebekku Guðmundsdóttur Johnson og Kristrúnu Sveinungadóttur.

Eg, sem þá var nýlega kominn frá Íslandi, gaf mig lítt, eða öllu heldur alls ekki neitt, að þessum málum. Samt sat eg á fundum þeirra Íslendinganna og tók eftir því, sem fram fór. Eg var svo sem engu félagslífi vanur, unglingur frá Norðurlandi. Varð eg hugfanginn af því og nærri því öfundsjúkur, hvað landar mínir þar gátu haldið snjallar ræður, en synd væri að segja, að þeir hafi ætíð verið sammála, því mörg ágreiningsmál höfðu þeir á prjónunum og fluttu þau á fundum með rökfimi og sannfæringarmóði, en ætíð eftir ströngustu fundar-reglum. En hvað köllunina til séra Jóns snerti, þurfti ekki á þessari list að halda, því þar voru allir á eitt sáttir. Þeir sögðu allir einum rómi: "Fáist hann, þá er hann maðurinn".

Flestir þessir menn, og reyndar flestir Winnipeg-Íslendingar, höfðu áður kynst honum eða þekt til hans frá veru hans í Nýja Íslandi, og vissu því hvað þeir fóru.

Sé það nú víst, að starf séra Jóns meðal Vestur-Íslendinga hafi reynst mikilsvert fyrir menningu þeirra — en þeir, sem því neita eru víst teljandi, —







eða öllu heldur, ekki teljandi — þá er hitt líka víst, að þjóðar-brotið íslenzka í þessu landi, ekki sízt hin yngri kynslóð, stendur í þakklætisskuld við frumbyggjana gömlu, sem framsýni og dug höfðu til þess að velja og kalla hingað slíkan leiðtoga.

Samkomuhús áttu Íslendingar í Winnipeg. Það var kallað "Framfarafélagshús". Það hafði verið stækkað og endurbætt þetta sumar, og í því hélt séra Jón fyrstu guðsþjónustuna eftir að hann kom. Það var á miðvikudag, þann 20. Ágúst, og var húsfyllir. Sunnudaginn næsta þar á eftir var guðsþjónusta á sama stað og safnaðarfundur á eftir. Segir "Leifur" svo frá, að þá hafi verið 137 í söfnuði, en 46 bæzt við á fundinum.

Safnaðarfundir voru margir um veturinn næsta. Voru safnaðarmálin rædd á þeim fundum af mesta áhuga, Á fyrsta fundinum var aðallega rætt um tíða-reglur og guðsþjónustur. Fjörugastar urðu umræður um þau mál. Í þeim gátu allir tekið þátt. Allir höfðu vit á því. Íslendingar vissu og fundu líka til þess, að þeir voru komnir út úr ríkiskirkjunni dönsku og vildu nú fyrir hvern mun varpa fyrir borð öllu því, er á hana minti. Þeir höfðu, í prestleysinu á undanförnum árum, sótt kirkju Congregationalista þar í bænum. Allmargir vildu nú helzt fylgja þeirra siðum, eða tíða-reglum, sem voru helzt engar. Ekki vildu þeir hafa altari í kirkju, ekki messuskrýddan prest, ekkert tón. Þetta kölluðu þeir alt kreddur og kaþólsku og gengu svo langt sumir, að þeir kváðust úr söfnuði ganga, væri þeim íslenzku kirkjusiðum fylgt.

Séra Jón langaði víst ekkert til að vera í hempunni. Ekki langaði hann heldur til að tóna. Ekkert kappsmál var honum heldur altarið, né að staðið væri á fætur þó guðspjall væri lesið. En skilningur hans og skýringar á þessum atriðum vöktu mikla eftirtekt. Margir voru þeir, sem á þeim fundum fóru fyrst að þekkja manninn. Þar komu glögt fram þær tvær einkunnir hans, frjálslyndið og fastheldnin,







sem fylgdu honum til enda. Hann var fús til að sleppa hinu ytra, svo framarlega sem hinu innra var við það engin hætta búin. Bókstafurinn var honum ekkert; andinn alt.

Sunnudagsskóla setti séra Jón á stofn undir eins. Auk hans sjálfs og konu hans voru fyrstu kennararnir þau Kristrún Ólafsdóttir, kona Sveins Björnssonar, sem fyr er getið, og Magnús Paulson. Þessi skóli hefir verið við lýði í söfnuðinum ávalt síðan. Áhrifin frá þeirri stofnun hafa orðið mikil og víðtæk. Uppfræðsla ungmenna þar hefir borið mikinn arð kristilegan, menningarlegan og þjóðernislegan. Án þess skóla hefðu fjöldamörg íslenzk ungmenni farið algjörlega á mis við alla uppfræðslu í íslenzkri tungu. Kenslan fór þar ætíð fram á íslenzku. Undirbúningur varð líka allur að koma gegn um íslenzkuna.

Síðar á árum var tekin upp sú venja að halda kennarafund í hverri viku og var á þeim fundum undirbúin kenslan fyrir næstkomandi sunnudag. Þetta varð kennurunum hin mesta uppbygging. Séra Jón var þar ætíð kennari kennaranna.

Frá því fyrsta hefir mesti fjöldi Íslendinga sótt þann skóla, sem nemendur eða kennarar og margir hvorttveggja. Hafa líka margir þeirra reynst reglulegir kristniboðar og öruggir talsmenn íslenzkunnar, þar sem þeir hafa síðar dreifst víðs vegar um álfu þessa.

Ungmennafélag, kallað "Bandalagið", stofnaði séra Jón innan safnaðarins fyrir mörgum árum. Þar var hann ætíð lífið og sálin. Það félag hélt vikulega fundi og var hann þar ætíð sjálfsagður ræðumaður og leiðtogi. Þeir fundir voru löngum fjörugir og fræðandi. Langoftast hneigðust ræður hans þar að íslenzkum fræðum, sögunni og bókmentunum. Það fegursta í íslenzku bókmentunum frá fornu og nýju, manngildi þjóðarinnar sjálfrar og hina einkennilegu náttúru landsins, var hans líf og yndi að leggja fram fyrir tilheyrendur sína. Og







þar voru myndirnar oft skýrar. Minnist eg þess einu sinni, er hann hélt ræðu út af Gísla sögu Súrssonar. Lýsti hann þá Vestfjörðum með þeirri nákvæmni, sem vænta hefði mátt einungis af manni, sem árum saman hefði búið þar á slóðum, þó hann, að því er eg bezt veit, aldrei stigi þar fæti á land. Hann hafði ekkert landabréf með sér, en í þess stað notaði hann aðra höndina. Hélt hann henni upp, með þöndum greipum. Úlnliðinn lét hann tákna mjóddina milli Gilsfjarðar og Bitru, fingurna tanga, en greiparnar firði og dali. Með víðlíka nákvæmni lýsti hann sögustöðunum um land alt, við ótal mörg tækifæri, og þá ekki síður viðburðunum. Margir munu líka við það kannast, að honum eigi þeir að þakka að mestu þá þekkingu, sem þeir hafa á Íslandi fengið og þann hlýhug, sem þeim hefir innrætzt til þess lands og þjóðar.

Fána kristindómsins og fána Íslands bar séra Jón löngum sinn í hvorri hendi. Það var víst líka hans bjargföst sannfæring, að í frumbýlings-ástandinu, sem Íslendingar voru þá í, mættu þeir af hvorugu þessu sleppa, fyrir þá sök, að því er hann þóttist sjá fyrir, að ef þeir þegar í byrjun mistu af þjóðernislegum arfi sínum, málinu og bókmentunum, þá væri kristindómi þeirra meiri hætta búin en ella. En boðun hans var nú auðvitað aðal-köllunarverkið. Þessar tvær hugsjónir fylgdust svo að í öllu hans starfi hér, að hann hafði jafnvel til að lyfta Njáls sögu upp á prédikunarstólinn. Og ekki hafði hann ríkidæminu fyrir að fara, þegar hann, á einu kirkjuþingi snemma á árum lagði grundvöllinn til hins íslenzka æðri skóla, með hundrað dollara gjöf. En þá voru hundrað dollarar stærri upphæð í augum vorum en oft síðar á tímum.

Rangt væri þó að álykta, að hann hafi lagt þessa einstaklegu rækt við það, sem íslenzkt var, **aðeins** kristindómsins vegna, heldur **meðal annars** hans vegna.

Fermingar-undirbúningur ungmenna var séra







Jóni ætíð sérlega hjartfólgið skyldustarf. Hann rækti það starf með meiri alúð en lýst verði. Hafði þar líka við sívaxandi örðugleika að stríða, eftir því sem íslenzku-þekkingunni fór hnignandi hjá æskulýðnum. Erfiðast, en ábyrgðarmest af öllu í embættinu, fanst honum víst það verk, og varð honum á að segja okkur, safnaðar fólkinu, ósvikið til syndanna, sem ekki kendum börnunum betur íslenzkuna í heimahúsum en raun varð á, þegar þau fóru að "ganga til prestsins".

Fjármálin í Fyrsta lút. söfnuði voru lengi framan af árum mikið og torsótt viðfangsefni, því fátt var fólkið. Lá oft við sjálft, að þau yrðu öllum málum öðrum þyngri á metunum. En séra Jón tók þá ætíð í taumana. Hann vildi láta þau mál lúta í lægra haldi. Hann hafði ætíð fátækur verið og vissi svo vel, hvernig af mátti komast í fátækt, án þess, fyrir hennar skuld að sleppa manndómi sínum.

Oft var söfnuðurinn kominn í stóra skuld við prestinn þegar ársreikningar voru lagðir fram, og voru þó launin sára lítil. En jafnaðarlega stóð séra Jón upp á þeim fundum og lét slá stryki yfir skuldina og kvittaði reikninginn. Honum varð þá oft að orði, að söfnuðurinn mætti ekki við því að leggja fram á nýtt ár með skuldabagga, því svo margt nauðsynlegra en peningamál lægi fyrir honum að hugsa um og vinna að.

Fyrir mörgum árum tók séra Jón upp málið um leikmanna-starfsemi í kirkjunni. Hann gerði það að vísu undir eins í byrjun, í sunnudagsskólanum og í Bandalaginu. Hann vildi brúa djúpið, sem svo lengi hafði verið staðfest milli prests og safnaðar. Hann reyndi ekki með því að draga neitt úr ábyrgð hins sérstaka prestsembættis. En hann vildi láta söfnuðinn einnig finna til þess, að hann hefði köllun að rækja. Hann sagði þá oft: "Allir kristnir menn eiga að vera prestar". Þetta varð honum mikið áhugamál og þeirri skoðun sinni hélt hann mjög eindregið á lofti á síðari árum, í ræðum







og ritum. Og þó ekki fengi þessi kenning hans góðan byr í fyrstu, leið ekki á löngu að hún fór að hafa umskapandi og þýðingarmikil áhrif í söfnuði hans og víðar. Fyrst komu þau áhrif fram í starfi kvenna í söfnuðinum og ungra manna í Bandalaginu,

Í tíð séra Jóns voru tvær kirkjur bygðar af söfnuði hans; sú fyrri um sumarið og haustið 1887. Var þar í mikið ráðist, því enn var flest safnaðarfólkið fátækt. Það var stór og vönduð timbur-kirkja



Kirkja Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg.

og kostaði mikið fé, svo að lengi þar á eftir var söfnuðurinn í skuldakröggum. Kirkjan var vígð þann 18. desember það ár. Hin síðar bygða kirkja var bygð árið 1904, á hentugri stað en sú fyrri og margfalt dýrari. Hún var öll úr steini, vönduð og vegleg og sómir sér vel í röð vönduðustu kirkna Winnipeg borgar.

Við bygging þessara kirkna reyndi nokkuð á







frjálslyndi séra Jóns, sem oftar. Hvorug þeirra, sízt sú síðari, var að innanbygging til neitt í þá áttina, er honum geðjaðist bezt að. En hann umbar það alt; gaf alt eftir, eins og hann var vanur, þegar að eins um hina ytri hlið málsins var að ræða.

Ekki væri rétt að neita því, að aðfinningum í embættisfærslunni varð séra Jón að sæta, við og við. En oftast var þeim smeygt inn í söfnuðinn af mönnum, sem stóðu fyrir utan, en þó ekki ætíð. Stundum kviknuðu þær heima fyrir.

Það er nú siður í þessu fríkirkjunnar landi, að prestarnir eru "agentar" meðal fólksins til að leiða það inn í söfnuði sína, inn í sínar kirkjur. Og þó það heyrði til undantekninganna að eins, að menn gengju úr söfnuðinum, svo að þar var undan engu að kvarta, þá þótti mönnum aldrei ganga inn í hann eins margir og ætlast mætti til, og vildu kenna því um, að presturinn "agiteraði" ekki, eins og aðrir prestar landsins, hann þyrfti að ferðast meðal fólksins og laða það inn í söfnuðinn, þá færi að ganga betur, fjármálin yrðu þá greiðari, útgjaldabyrðin léttari o. s. frv.

Séra Jón varð var við þennan kurr, auðvitað, og tók málið upp á safnaðarfundi. Hann kvaðst fús til að sæta fullri ásökun fyrir það, þegar menn gengju úr söfnuði. Sjálfsagt væri réttara af söfnuðinum að kenna það þeim, sem boðskapinn flytti, en boðskapnum sjálfum. Sjálfsagt væri það líka sín eigin skuld, að ekki þægju fleiri "boðið", að koma inn. En hann kvað sig skorta með öllu þann hæfileika, sem til þess þyrfti, að ferðast hús úr húsi, mann frá manni, til þess með persónulegum vinmælum að fá menn í lið með sér. Ef það málefni, sem söfnuðurinn beittist fyrir, boðskapurinn, sem fluttur væri, ekki nægði sem aðdráttar afl, þá hefði hann ekki neitt sjálfur, persónulega, til að bæta það upp. Og hann kvað óhugsandi, að í því efni stæði hann neitt til bóta. Ekki bar hann við að bera fyrir sig tímaleysi, þótt vitanlegt væri, að tími hans til annara







starfa væri svo upptekinn, að þetta hefði verið honum með öllu ómögulegt. En þótt hann færði sér aldrei neitt til afsökunar, annað en hæfileika skortinn, þá festi óánægjan út af þessu aldrei neinar verulegar rætur.

Nærri lætur þó, að eg sem þetta skrifa, haldi, að í þessu efni hafi honum verið eitthvað ábótavant, eins og hann sjálfur kannaðist við. Auðvitað vitjaði hann stöðugt sjúkra og bágstaddra, eins mikið og tími vanst til. Hann lét ætíð þá sitja fyrir, sem hann hélt að hann mætti verða að einhverju liði, andlega eða á annan hátt. Hann gerði aldrei neinar "formal" heimsóknir. Hann vitjaði þeirra sjúklinganna, sem í hreysum bjuggu, fyr en annara. Kotið var víst oftar í huga hans en kastalinn, sá fátæki meir en hinn ríki. Á Almenna sjúkrahúsinu í Winnipeg var hann tíður gestur. Þar var vel kannast við hvatlega fótatakið hans, höfðinglegu alvöruna, en yfirlætislausa látbragðið, þegar hann kom þangað til að vitja íslenzkra sjúklinga.

Tvisvar sinnum fyr á árum lá við sjálft, að séra Jón legði niður embætti hjá Fyrsta lúterska söfnuði. Í fyrra skiftið atvikaðist það þannig, að því var hreyft á safnaðarfundi, að laun prestsins væru svo fátækum söfnuði of þung byrði. Þetta var nú auðvitað þá, og hefir löngum verið, handhægt vopn í höndum þeirra, er óvinveittir eru því starfi, og hafði þessari tilfinning verið komið inn hjá nokkrum, sem svo í mestu einlægni létu hana uppi. Þetta fékk alls engan byr á fundinum, né heldur virtist séra Jón gefa því nokkurn gaum. En undir eins, næsta dag, skrifaði hann söfnuðinum bréf og tjáði honum að hann yrði að fá að vita tafarlaust, hvort þessi tilfinning ætti sér í sannleika stað í söfnuðinum, og kvað hann enga meirihluta yfirlýsing, um að svo væri ekki, vera sér fullnægjandi, heldur þyrfti það að vera persónuleg yfirlýsing frá hverjum einasta fermdum safnaðarmeðlim, körlum og konum. Því væri sú tilfinning ríkjandi, þó ekki







væri nema hjá sárlitlum minni hluta, að hann ofþyngdi fátæku fólki, eða að nokkur þyrfti að taka of nærri sér til að launa honum, þá væri sér ómögulegt að þjóna þar áfram.

Á þennan hátt, sem hann fór fram á, varð séra Jón sannfærður um að þessi tilfinning átti sér alls ekki stað, svo málið datt niður. Þetta gat líka tæplega átt sér stað, því öllum var kunnugt um, hve frábærlega nægjusamur hann var í peningasökum. Líka voru þá, og eru enn, eins og annars í öllum söfnuðum kirkjufélagsins, öll fjárframlög frjáls.

Hið síðara skiftið sagði séra Jón af sér. En söfnuðurinn fékk hann til að taka þá afsögn aftur. Þegar hann lá veikur, á tímabilinu 1892—3, var söfnuðurinn sár-illa staddur. Án prestsþjónustu treystist hann varla til að viðhalda tilveru sinni. Og eftir áliti lækna, sem séra Jón stunduðu, var vonin um bata hans fremur veik hjá söfnuðinum, svo hann tók það ráð að kalla séra Hafstein Pétursson, sem þá var prestur Íslendinga í Argyle-bygð. Hann var kallaður sem samverkamaður séra Jóns, er í embættinu sat. Séra Hafsteinn tók þessari köllun, kom til Winnipeg og þjónaði söfnuðinum meðan séra Jón var veikur. Þegar nú séra Jón kom til heilsu, nokkru síðar, sat söfnuðurinn uppi með þá tvo prestana. En þegar séra Hafsteinn var kallaður var horft fram á veginn á þann möguleika og var í því tilfelli áformið að færa út starfið meðal Íslendinga í Winnipeg, mynda annan söfnuð, sem svo séra Hafsteinn tæki við og þjónaði. En svo fór nú samt, að það útbreiðslustarf dróst, og þjónuðu þeir báðir prestarnir söfnuðinum jöfnum höndum til skiftis. En ekki leið á löngu áður séra Jón sagði af sér. Sýndi hann fram á, sem satt var, að ekkert viðlit væri fyrir söfnuðinn að halda áfram með tvo presta og kvað hann vera í alla staði réttmætt, að það yrði hann, sem viki, því veikinda sinna og vanmáttar vegna hefði söfnuðurinn orðið að kalla séra Hafstein, sem látið hefði af stöðu sinni hjá Argyle-söfnuðum til að taka köllun







Fyrsta lút. safnaðar, og væri þess vegna meiri vandi á hendi gagnvart honum. Líka benti hann á, meðal margs annars, máli sínu til stuðnings, hve mjög miklu álitlegri og líklegri til langrar þjónustu séra Hafsteinn væri, hraustur til heilsu og á bezta aldri.

Þessa embættis-afsögn neitaði söfnuðurinn með öllu að taka gilda. En að hinu upphaflega áformi sínu sneri hann sér nú, nefnilega því, að færa út kirkjulega starfið meðal Íslendinga í Winnipeg. Setti hann þá á stofn sunnudagsskóla og guðsþjónustugjörðir í þeim armi safnaðarins, sem lengst átti kirkju að sækja. Fyrir því starfi stóð séra Hafsteinn, fyrir hönd Fyrsta lút. safnaðar og upp á hans kostnað. Ekki leið á löngu að séra Hafsteinn myndaði nýjan söfnuð á því svæði, og gengu í hann nálega allir meðlimir Fyrsta lút. safnaðar, sem að vegalengd til voru þar betur settir, því til þessa útbreiðslustarfs var stofnað í bróðurlegum samvinnuhug. Söfnuð þenna nefndi séra Hafsteinn Tjaldbúðarsöfnuð og lét hann ekki ganga í kirkjufélagið.

Þess var getið, að framan af árum hafi söfnuðurinn staðið fremur illa í skilum með launin til séra Jóns. Þess vegna er ástæða til að geta þess, að fyrir mörgum árum voru laun hans hækkuð, auðvitað án hans tilmæla, og vel og reglulega goldin. Síðar átti að hækka launin á ný, en hann þáði ekki, þó óvanaleg óráðþægni af embættismanni megi virðast.

Mikla viðurkenning hefir séra Jón oft hlotið fyrir starf sitt, en þó mest eftir fráfall hans, eins og gengur. Hafa margir merkir Íslendingar minst hans, sem manns, er borið hafi höfuð og herðar yfir samtíðarmenn sína hjá þjóð vorri.

Er því ekki nema eðlilegt að söfnuðurinn hans, sem þekti hann svo vel og stóð honum svo nærri, virti hann og elskaði. Það gerði hann líka, og því meir sem á leið. Þó sagði séra Jón söfnuðinum fyr og síðar hispurslaust til syndanna. En fyrir löngu hafði söfnuðurinn séð og skilið, að þar átti við:







"Þann sem hann elskar, þann agar hann". Söfnuðurinn var líka oft séra Jóni góður og sýndi honum oft nærgætni og einnig ýmiskonar sóma. Á tuttugasta og fyrsta giftingarafmæli þeirra hjóna, 15. Nóvember, 1895, var þeim haldið veglegt heiðurssamkvæmi, í kirkju séra Jóns. Voru þeim gefnir þar góðir gripir og peningar. Í því tóku þátt margir vinir þeirra, víðsvegar í kirkjufélaginu. Árið 1904, þegar hann hafði þjónað söfnuðinum í tuttugu ár, gaf söfnuðurinn honum stundaklukku, hina mestu gersemi, þá er hlotið hafði fyrstu verðlaun þá á nýafstaðinni Parísar-sýningu.

Enn, árið 1909, 15. Nóv., á sextugasta og fjórða afmælisdegi hans, var þeim hjónum haldið samsæti til minningar um það, að þá hafði hann þjónað söfnuðinum um heilan fjórðung aldar. Var honum þar fært skrautritað ávarp frá söfnuðinum og eski mikið, í líking stórrar biblíu, gjört úr hreinu silfri, og á annari hlið með upphleyptri mynd af hinni nýlega bygðu kirkju safnaðarins.

Um skyldurækni séra Jóns í embætti er varla hægt að tala. Hún var svo söm og jöfn á öllum svæðum, að frá engu sérstöku er hægt að segja, því það myndi ekki neitt bera af ótal mörgu öðru. En kunnugt var það þeim, sem honum voru handgengnastir, að oft gekk hann að verki með óbilandi viljakrafti en veikum líkamsburðum og jafnvel sárþjáður. En því tókst honum löngum að leyna og lét sem ekkert væri, meðan hann gat uppi staðið.

Minnisstætt er mér margt í þessu sambandi frá legunni hans þungu, sem fyr um getur, þegar honum var oft ekki ætlað líf, hve mjög hann bar safnaðarstarfið fyrir brjósti og hvernig hann reyndi á ýmsan hátt, sárþjáður eins og hann var, að rétta þangað hjálparhönd. Skal hér geta um eitt slíkt atvik. Rétt áður en hann lagðist hafði söfnuðurinn samþykt að gjöra allmikil bókakaup, til sunnudagaskólans. Að sjálfsögðu var honum ætlað að velja bækurnar. Einn dag þegar eg kom til hans, sókti eg svo að hon-







um, að hann hálf-sat uppi í rúminu, með ritfæri í hendi. Var stuttur í spuna. Sagði að þessar bækur hefðu átt að vera komnar fyrir löngu, hérna hefði hann listann og skyldi eg nú panta þær tafarlaust. Var hann búinn, með sinni vanalegu nákvæmni, að semja þenna pöntunarlista eftir Bandaríkja bókaskrá, er hann hafði þar margar, til að velja bækurnar úr.

Annað atvik er mér líka minnisstætt frá sama tímabili, og get eg þess, þó ekki snerti það embættisstarf hans. Hann átti ljóðabækur Jónasar og Bjarna, þá fyrir nokkrum árum útgefnar, en óbundnar, og vildi nú fá þær bundnar. Eg latti hann, vissi sem var, að um engan nýtilegan bókbindara var að ræða í Winnipeg á þeirri tíð. Allar bækur komu þangað bundnar. Hitt var mér líka kunnugt, að enginn hægðarleikur var að gera séra Jóni til hæfis í neinu því, er að frágangi á blöðum eða bókum laut. Hann var í því efni ekki einungis manna smekkvísastur. heldur þótti hann þar óhæfilega vandlátur. Og ekki var að sjá, að veikindin hefðu sljófgað neitt þessa gáfu hans í þetta sinn. Á því fékk eg að kenna, því margar ferðir mátti eg fara og mörg voru sýnishornin gerð afturreka, áður en hann loksins sætti sig við skársta bandið á Jónas og Bjarna, sem Taylor bókbindari gat látið sinn mesta snilling gera, og fanst honum það langt frá að vera við höfundanna hæfi.

Á fyrsta kirkjuþinginu (1885) var samþykt að gjöra tilraun til blaðsútgáfu fyrir kirkjufélagið. Séra Jón kosinn ritstjóri. Í Desember um veturinn gaf hann út sýnishorn af blaðinu. Það var sent út og áskrifenda leitað, með þeim árangri, að óhætt þótti að byrja á því fyrirtæki, og kom fyrsta númer Sameiningarinnar út í Marz-mánuði næsta (1886). Á kirkjuþingi 1887 kom í ljós, að þetta blað-fyrirtæki hafði eignast sjóð nokkurn og ráðstafaði þingið 100 dollurum af honum til séra Jóns, í þóknunar skyni fyrir ritstjórn blaðsins. Mér er það minnis-







stætt, að eg taldi víst að séra Jón myndi hafna þessari peningagjöf. Eg var þá farinn að þekkja hann svo. Hann var svo einkennilegur í peninga-sökum, að oft virtist sem hann væri hræddur við þá og vildi helzt ekki heyra þá nefnda, í sambandi við sjálfan sig. Það voru þess vegna vonbrigði fyrir mig, þegar hann þáði og þakkaði þessa gjöf. En eg náði mér von bráðar, því hann endaði þessi þakkarorð með því, að afhenda þinginu aftur gjöfina, sem stofnfé til skólans, eins og fyr getur.

Aldrei síðar kom það til orða, að borga séra Jóni neitt fyrir ritstjórnar-starfið, sem hann hafði á hendi stöðugt til dauðadags. Fyrsta blað 29. árgangs, sem var minningarrit um Hallgrím Pétursson, fjölbreytt og vandað, annaðist hann að öllu leyti, í sinni eigin banalegu. Það var eins og sjálfur hefði hann fengið að velja um, hvaða verk yrði sitt hið síðasta.

Á því furðaði alla, er til þektu, hve feikna miklu séra Jón kom í verk. Embættis-annir hans voru miklar, bæði fyrir söfnuð hans og kirkjufélagið. Líka tók hann, alla sína tíð, mikinn þátt í samkvæmislífi Íslendinga, með sífeldum ræðuhöldum. Þótti þá jafnan snjallastur allra. Hann var líka glaðværðin sjálf og hún í skrautbúningi, hvar sem hann var staddur. Í samræðum stóð enginn honum á sporði með skýr og frumleg tilsvör, hrífandi mælsku, fljótan og óskeikandi skilning á annara tillögum og fúsleik að taka þær til greina. Hann var því til ýmislegs kvaddur, er utan hans embættis lá, en mikill tími gekk til. En hann var hamhleypa hin mesta til vinnu, og vandvirkur að sama skapi. Prédikanir sínar frumsamdi hann stöðugt allar, tvær fyrir hvern sunnudag, og má af Guðspjallamálum ráða, hvernig frá þeim var gengið. Regla hans var sú, að lesa að morgni og framan af degi, en sitja við skriftir langt fram á nætur. En þótt hann væri sífelt önnum kafinn, tók hann ætíð þeim, er á heimili hans komu, eins og hann hefði þá ekkert annað að







gera, en að láta þeim líða sem bezt og gera þeim stundina skemtilega. Og aldrei heyrðist hann kvarta um annríki.

Vænt þótti séra Jóni um bækur. Þær voru það eina, sem eg vissi hann hafa ágirnd á. Hann hafði unun af að horfa á þær og skoða þær, hagræða þeim og raða, og hver bók var líka æ á sínum stað. Hann



Heimili séra Jóns Bjarnasonar, 118 Emily Street, Winnipeg.

mátti víst framan af árum neita sér um bókakaup, en í veikindum sínum fyr á árum, réð hann víst illa við þá bókfýsi sína, því hann var stundum að fást við bókakaup, þegar vinir hans héldu að hann ætti ekkert eftir nema að deyja. Vinum sínum gaf hann oft bækur, og sást þar, að hann tók af því, sem hann átti bezt. Fornsögurnar íslenzku las hann stöðugt, næst biblíunni sjálfri. Úr fornsögum Íslands og





sögu Grikkja og Rómverja tók hann löngum texta sína við tækifæris-ræðuhöld, sem hann var kvaddur til jafnt og þétt. Hann las mikið af skáldsögum, en vandur var hann að höfundum. Sir Walter Scott og Victor Hugo voru uppáhalds-rithöfundar hans í þeirri grein, eins og Gladstone og Lincoln voru uppáhalds-stjórnmálamenn hans, frá síðustu öld.

Ráðríkur var séra Jón talinn af mörgum. En það var misskilningur mesti. Hann var ætíð fús að hlíta annara ráðum ef hann áleit þau holl því máli, er um var að ræða. Í öllum kirkjumálum var hann hinn frjálslyndasti og samvinnuþýðasti, sem hugsast gat. Það er að segja, meðan ekki var farið út í neitt það, er hann áleit stefna í áttina burt frá sönnum kristindómi eða koma í bága við hann. Því þar stóð hann ætíð á verði og var aldrei neinn "miðlunarmaður", þegar því var að skifta. Þar skildu leiðir hans og annara ekki svo sjaldan, eins og kunnugt er, og á slíkum vegamótum hafði hann oft á bak að sjá ekki einungis mikilhæfum samverka- og liðsmönnum, sem mikill sneiðir varð að, heldur einnig kærum vinum. Mun hann þá oft hafa átt um sárt að binda. Þau tilfelli álít eg verið hafa einhverja hans sárustu lífsreynslu. En hann vann aldrei "fyrir vinskap manns, að víkja af götu sannleikans" — þeirri götu, er samvizka hans sagði honum, að sannleikans gata væri.

Aðalverk presta er oftast talið það, að semja prédikanir. Hæfileikar séra Jóns í þeirri grein skulu þó ekkert dæmdir hér. Dómar um ræður hans hafa ætíð verið misjafnir, jafnvel hjá þeim er honum fylgdu að málum. Löngum þótti hann tala meira til skilnings en tilfinninga, meir fyrir höfuðið en hjartað. Hann krafðist eftirtektar, dró upp skýrar myndir, færði sláandi rök. Og syfja mátti þann í kirkju, sem ekki mundi aðalkjarna ræðu hans, þegar heim kom. Guðspjallamál eru sanngjarnt, enda þótt lítið sé, sýnishorn af ræðum hans. Persónu-einkenni hans sem prests geta þó auðvitað ekki



komið þar neitt verulega í ljós. En hið helzta þeirra var yfirlætisleysið við allar kirkjulegar athafnir. Hann reyndi ætíð að draga sjálfan sig þar sem allra mest eða algjörlega í hlé. Var eins og hann vildi með þessu reyna að koma tilheyrendum sínum í enn nánara samband við sjálfan Guð. Láta þeim finnast sem orðið, Guðs orð, kæmi til þeirra beint frá Guði, en ekki fyrir munn þess, er það flutti. Hann skyldi hverfa, gleymast. Þetta tókst séra Jóni svo vel, að þeir sem sátu og skildu, gátu ekki varist þeirri tilfinning, að þar væri um hina hreinustu íþrótt að ræða, sem hann svo óx í augum þeirra fyrir, þó þvert væri á móti því, er hann ætlaðist til.

Síðasta kirkjuþingið, sem séra Jón sat á, var það á Mountain, sumarið 1913. Morguninn eftir að þingi var slitið voru þingmenn og aðrir þing-gestir að búast til ferðar. Menn voru þar saman komnir úr öllum bygðum Íslendinga og voru nú að kveðjast. Það var indæll gleðibragur yfir öllum og öllu, á þeim sólbjarta hásumarmorgni. Það var, sem menn segja, "glatt á hjalla". Lítið eitt álengdar var mér litið á Kristján skáld Júlíus. Eg gekk til hans. Á honum var enginn gleðibragur. Mælti hann þá fram erindið:

"Hryggur kveð eg káta menn.
Kvíði geðið lamar.
Suma aftur sé eg, en
suma aldrei framar".

Þar í hópnum voru tveir, sem vel og lengi höfðu "þrýtt hópinn" meðal Vestur-Íslendinga, en voru fallnir í valinn, áður en næsta kirkjuþing kom saman. Annar var séra Jón. Hinn var Friðjón Friðriksson, einhver sá ágætasti Íslendingur, sem flutt hefir vestur um haf.

Eg hefi í huga mínum, ósjálfrátt, oft sett þetta atvik frá Mountain í samband við fráfall þessara tveggja manna, svo stuttu þar á eftir.

Séra Jóni fanst víst aldrei að hann eiga heima í Ameríku, þótt hann væri hér og starfaði. Aldrei tók hann heldur þegnréttindi hér. Hann vildi með starfi





sínu hér reka erindi hinnar íslenzku heimaþjóðar. Þótt hann væri hér, báru "hugur og hjarta, samt hans heimalands mót".

Hann hafði siglt sjö sinnum yfir Atlants-haf. Ferðirnar stóðu á stöku. Hann vildi sigla í áttunda sinn og ætlaði "heim" til Íslands sumarið 1914. Hann sagðist fara þangað, eða eitthvað annað, þá bráðum. Hann fór "eitthvað annað". Hann fór "heim" 3. dag Júní-mánaðar, þá um sumarið. En ekki heim til Íslands.

En skyldi nú andi hans sveima þar yfir vötnunum? Skyldi nokkur þjóðlegur árangur verða af starfi hans? Eða skyldi minning hans detta úr sögunni og verk hans gleymast? Gleymast þjóðinni, sem hann gat aldrei nokkra stund gleymt?

Þegar eg var drengur á Norðurlandi, spurði eg skólamann úr minni sveit, er kynst hafði séra Jóni, um það leyti, er hann var á prestaskóla, hvernig maður hann væri, þessi Jón Bjarnason. Svarið, sem hann gaf mér var þetta: "Hann er aldeilis afbragð". Þessum manni, sem eg í æsku var að spyrjast fyrir um, en hélt eg myndi aldrei sjá, hlotnaðist mér að kynnast og verða meira og minna handgenginn í þrjátíu ár. Lýsingin stutta af honum, sem maðurinn norðlenzki gaf mér, hefir reynst mér sönn og rétt. Séra Jón Bjarnason hefir mér þótt, í ýmsum þýðingarmiklum greinum, **bera af** öllum þeim mönnum öðrum, er eg hefi kynst um dagana.

# Leiðtoginn.

Eftir séra Björn B. Jónsson.

SÉRA Jón Bjarnason, dr. theol., var flestum þeim kostum búinn, sem höfðingja prýða, og þeim hæfileikum gæddur til líkama og sálar, er gjöra mann sjálfkrafa leiðtoga annara manna.

Hann var fríður maður sýnum, svipmikill og sviphreinn. Meðalmaður var hann á hæð. Augu hafði hann grá að lit, snör og skarpleg. Nef var þykt og bogið lítið eitt. Enni var stórt og í meðallagi hvelft. Skegg bar hann frá unga aldri; þá er hann var í blóma lífsins var það bæði mikið og sítt og með rauðri slikju. Hár var ljóst og þétt. Hörund hafði hann óvenjulega fínt og bjart. Höndin var breið og stutt, æðaber og mjög hvít; neglur litlar og gagnsæar. Á fæti var hann frár og léttur með afbrigðum, hnykti lítið eitt í spori og gekk fyrir barnsvana nokkuð álútur. Hann varð æ fríðari með aldri, svipurinn hýrlegri og tignarlegri því eldri sem hann varð, og mæla það margir, að ekki hafi þeir litið tignarlegri mann né höfðinglegri.

Andlegt atgerfi séra Jóns var óvenjulega mikið og gott frá náttúrunnar hendi og þroskaðist með honum alla æfi. Gáfur hans voru miklar og fjölbreyttar. Námsmaður var hann ágætur í skóla og hlaut hæstu einkunnir. Skilningur hans var skarpur og sjálfstæður. Hugsunin var frumleg og áræðin, og

lét aldrei hindra sig í framsókninni. Andinn var hárbeittur, og var stundum sem gneistar flygi, er hann braut viðfangs-efni sín til mergjar.

Lund séra Jóns var mikil og hrein. Hann var stórlyndur maður og ákaflyndur. Bráðlyndur var hann stundum, er um smámuni var að ræða, en stilti skap sitt í stórræðum og vanda. Lítt var hann sveigjanlegur, er hann hafði eitthvað fastráðið, og hafa vildi hann sitt fram, hvað sem kostaði. Kæmi fyrir að hann beitti óbilgirni, sá hann óðar eftir því og var hinn sáttfúsasti. Blíðlyndi hafði hann einnig og ástríki svo mikið í hjarta, að ógleymanlegt er það vinum hans, og hreinlyndi hans var að orðtaki haft.

Trú hafði séra Jón flestum mönnum fastari, — trú á tilgang og höfund lífsins. Hann gekk að hverju verki með óbilandi trú. Lífið var honum átrúnaður. Hvert verk var trúar-fórn. Lífið var heilagt musteri; þar bar honum að þjóna. Gildi lífsins var ómetanlegt og tilgangur þess dýrlegur. Þetta gaf honum áræði til stórræða og úthald í stríði. Guð var honum alt. Guðs vegna bar honum að starfa og stríða. Í hjarta hans var friður við Guð. Frelsarinn Jesús Kristur var vinur hans og bróðir. Honum treysti hann. Hann elskaði hann sem félaga sinn og samverkamann og tilbað hann sem Drottin sinn og Guð. Honum var það engin uppgerð, er hann gekk að verki og sagði fyrir verkum "í Jesú nafni".

Líkamsatgerfi, sálargáfur, skaplyndi og lífstrú séra Jóns bjuggu hann út með þá eiginleika, sem leiðtoganum eru ómissandi. En þar við bættust ástæður lífsins og köllunarverkið sérstaka. Hvar sem séra Jón hefði lifað og starfað, hefði hann orðið atkvæðamaður og höfðingi, svo miklu hærri sem hann var öðrum mönnum. En óvíst er, að hann hefði náð þeim þroska, sem hann náði, hefði ekki starfsvið hans orðið þar, sem það varð, og starf hans það. sem það varð. Hann fór ungur út í nýjan heim

Hann hafði þá þegar hlotið þá mentun og lífsreynslu, sem til þess þurfti, að geta staðið á eigin merg, en jafnframt hagnýtt sér efnin nýju. Þjóðlíf Bandaríkjanna,—nýskírt blóðskírn þrælalausnarstríðsins, nýbyrjað á viðreisnar-verkinu, fult af alvöru og eldmóði, — vakti í honum sterka þjóðernismeðvitund og sýndi honum margt, er til blessunar mætti verða fyrir ættjörð hans, sem nú í fjarlægðinni var honum enn dýrmætari en áður. Kirkjulíf Norðmanna í Bandarkjunum, — frjálst og fjörugt, bráðþroska og brotgjarnt, — vakti prestinn unga, og knúði hann til að rannsaka trú sína og guðfræði; stríð það, er hann þá háði við sjálfan sig og bræður sína, knúði fram afl í sálu hans, sem annars hefði ef til vill legið ónotað. Kenslan í Decorah og ritstjórnin í Minneapolis var hvort um sig dýrmæt skólaganga. Og svo kom þyrnirunnurinn logandi á Hóreb, og rödd Guðs segjandi sem við Móse: Eg hefi útvalið þig til að leiða lýð minn Ísrael. Til Nýja Íslands fór hann, fullvís þess, að Guð sendi sig. Stríðið þar, heimförin og afturkoman vestur, veran í Winnipeg og ferðalögin um allar bygðir knúðu fram alla krafta og margfölduðu þá fyrir áreynsluna. Hann stóð oft og lengi einn uppi. Hann var um hríð eini prestur og kennifaðir allra nýlendumanna vestan hafs. Hann var um hríð eini og lengi aðal-mentamaður Vestur-Íslendinga. Hann var því til þess knúður af ástæðum öllum, ekki síður en fyrir eðlisfar sitt og uppeldi, að verða liðsforingi og leiðtogi landa sinna.

Ef saman má bera Ísrael og Ísland, þá má og líkja þeim saman Móse og séra Jóni Það sem Móse var Ísraelslýð í eyðimörkinni fjörutíu ár, það var séra Jón Íslendingum á landnámstíð þeirra í Vesturheimi fjörutíu ár. Og — "eigi reis framar upp í Ísrael annar eins spámaður og Móse".

——— ——— ———

Minnast verður nú lítilsháttar á leiðsagnareinkenni og aðstöðu leiðtogans.



Ef til vill mætti lýsa leiðsagnar eiginleika séra Jóns með orðinu **fjarskygni.** Með því er við það átt, að hann sá í anda langar leiðir. Hann sá í einu lengra aftur í fortíð og út í framtíð en aðrir menn. Sjón hans í heimkynnum liðinna alda æfði augað svo það greindi og bústaði komandi tíma. Fyrir það, hve langt hann eygði, fékst hugur hans og hönd aðallega við þá hluti, sem stórir voru og varanlegir. Hann lét sig varða sígildar meginreglur. Fyrir þeim barðist hann af öllum kröftum. Um form og aðferðir lét hann sig minna varða. Hann þótti ekki ætíð hagsýnn, er um hverndagsleg störf var að ræða, eða jafnvel aðferðir við framkvæmdir stærri mála. Vildi hann þá að aðrir réði. Það var með andleg efni og félagsleg fyrirtæki líkt og með ferðalög hans. Séra Jón var öllum mönnum betur að sér í landafræði. Hann sá í huga sér legu allra landa. Honum voru allar leiðir kunnar, þar á meðal leiðir járnbrautanna hér um land. En þegar hann var á ferð, kunni hann lítt tök á flutningsfærum og ferðareglum, og vildi hann ávalt að aðrir réði þar fyrir sig. En ferðinni réði hann þó og ákvað hvert fara skyldi, og fylgdust menn með honum fúslega.

Sama má segja um fundarstjórn. Hann var forseti kirkjufélagsins tuttugu og þrjú ár. Störfum þess réði hann og stórmálum þess stýrði hann. Í forsæti stjórnaði hann fremur með yfirburða viljaþreki og stórhug en föstum venjum eða þingsköpum. Hann kunni aldrei fundareglur vel, og honum var fremur illa við þær. Þegar kirkjuþing fóru að verða fjölmenn og þar áttu sæti yngri menn, sem voru vanir fundarstörfum og þingsköpum annara félaga, vildi stundum verða ágreiningur um rétt lög. Voru þá lögleidd þingsköp þau, er kend eru við **Robert.** (Robert's Rules of Order). Urðu stundum sennur nokkrar milli þingmanna um lögin og var skotið til úrskurðar forseta. Kom þá fyrir, að hann mælti góðlátlega eitthvað á þessa leið: "Nú komið þið með ykkar heilaga 'Hróbjart' og gerið mig alveg galinn!" Varð honum einatt ógreitt um úrskurð, en til hafði







hann einnig, að skipa fyrir með þeim skörungskap og myndugleik, að allur þingheimur hrökk við.

Stjórnkænsku hafði séra Jón ekki til brunns að bera, og mátti hann í þeim efnum auðveldlega blekkja, það því fremur sem hann grunaði menn að óreyndu aldrei um græzku; var svo hreinlyndur sjálfur, að hann ætlaði engum undirhyggju. En reyndi hann einhvern að óhreinlyndi og undirhyggju fékk hann óumræðilega óbeit á þeim hinum sama og trúði honum aldrei framar.

Svo sem áður var bent til, auðkennist leiðsögn séra Jóns á stórhug hans og mikilleik hugsjónanna. Tvö dæmi skulu tilfærð því til sönnunar.

Það var þegar árið 1874. Var hann þá ekki fult þrítugur að aldri. 2. Ágúst það ár flutti hann prédikun á fyrstu þjóðhátíð Íslendinga í Vesturheimi, í Milwaukee. Prédikun þessa lét hann prenta í Kaupmannahöfn og mælti svo fyrir, að ef ágóði yrði af sölu ritsins, skyldi arðurinn verða frumstofn sjóðs, er safna skyldi til að koma upp íslenzkum skipaflota. Arðurinn af sölu ritsins varð víst enginn, en hugsjónin var söm fyrir því. Fjórir tugir ára liðu þar til skipin komu. — Hann var þetta langt á undan í huga sínum.

Hitt dæmið er frá 1887. Það var á þriðja kirkjuþingi. "Sameiningin", blað kirkjufélagsins, sem hann stýrði til dauðadags, var þá ársgamalt. Blaðið átti í sjóði hundrað dollara eftir árið. Veitti þingið séra Jóni þá upphæð í þóknunarskyni fyrir ritstjórnina. Hann stóð upp að vörmu spori og afhenti kirkjufélaginu peningana og sagði, að þeir skyldu vera vísir til sjóðs, er safna skyldi til þess að koma upp íslenzkri mentastofnun í Vesturheimi. Flestum ofbauð þá ofdirfskan, en svo fór, að skólamálið varð "stóra málið", og séra Jóni auðnaðist að lifa það, að hugsjón hans vann sigur eftir nærri þrjátíu ára stríð.

Séra Jón Bjarnason var um fram alt leiðsögumaður stórra hugsjóna.





Sannir leiðtogar einkennast á því, hversu mikilvirkir þeir eru. Annars-staðar í riti þessu er getið um hin margföldu störf hans, dugnað hans og eljusemi. Getið skal þess hér til viðbótar, sem og kemur sérstaklega máli þessu við, en það eru bréfaskriftir hans. Það verður ekki ofsögum sagt af þeim. Enginn skilur, hvernig honum vanst tími til þeirra skrifta. Eins og bréfin líka voru! Vafamál að áhrifa séra Jóns hafi gætt á annan hátt meir. Hann þreyttist aldrei á að ræða málin bréflega. Og bréfin eru ef til vill skírasti spegillinn. Þar sýnir hin göfuga sál hans sig óhjúpuð. Ef til vill kemur sá tími, að birta má almenningi eitthvað af þeim bréfum, og er þá ekki ólíklegt, að aðstaða séra Jóns skýrist í ýmsum efnum. Með bréfum sínum ávann hann sér ást og lotning bréfvina sinna. Margur minnist þess, hvílíkur leiðtogi hann var sér á þennan hátt.

Enn er það til marks um yfirburði séra Jóns Bjarnasonar og það sálargöfgi hans, sem ávann lotningu annara manna, að hann eignaðist marga vini í hópi hinna ágætustu manna utan vébanda síns eigin þjóðflokks. Hann hafði persónuleg kynni af allmörgum leiðtogum lútersku kirkjunnar í Bandaríkjunum og átti bréfaskifti við ýmsa þeirra. Báru þeir allir mikla virðingu fyrir honum. Veturinn 1893 lá séra Jón lengi hættulega sjúkur og hafði það spurst víða. Við morgunbænir á prestaskólanum í Chicago var þá daglega beðið fyrir "íslenzka patriarkanum veika", eins og sá dýrlegi maður, dr. W. A. Passavant, komst að orði. Til marks um viðurkenningu þá, sem séra Jón hafði hlotið hjá leiðtogum kirkjunnar hér í álfu, er það, að á tuttugu-og-fimm ára afmæli kirkjufélagsins, 1910, var hann af einum skóla þeirra kjörinn doktor í guðfræði (Doctor divinitatis, honoris causa). Tók hann þeirri sæmd og bar hana með því yfirlætisleysi, sem í öllu einkendi hann. Öllum kunnugum fanst hann víst sæmdar þessarar verðugur. En vel var að orði komist skömmu síðar í samsæti nokkru, er ræðumaður



sagði: "Við virðum **doktor Bjarnason,** en við elskum **séra Jón".**

——— ——— ———

Nú er að minnast svæða þeirra hinna sérstöku, þar sem leiðir leiðtogans lágu, og rekja spor hans þar. Svæðin eru tvö: **íslenzkt þjóðerni** og **kristileg trú.**

Það er auðséð af bréfum og blaðagreinum, sem séra Jón Bjarnason ritaði, eftir er hann flutti vestur um haf árið 1873, að hann hefir þá haft áhuga ekki lítinn fyrir stjórnarfarslegum umbótum á ættjörðinni og látið sig þjóðmálin varða. Þó átti það ekki fyrir honum að liggja, að fást við stjórnmál. En alla æfi bar hann hag og velferð ættjarðar sinnar fyrir brjósti. Ættjarðarást hans var að ýmsu leyti einkennileg. Að eðlisfari og hugsunarhætti var hann í raun og veru heimsborgari (cosmopolitan). Hann fyrirleit þjóðaríg og þjóðadramb. Hann sá manneðlið jafnt hjá öllum þjóðum. Fornþjóðirnar grísku og rómversku og Bandamenn í Ameríku vöktu mesta samhygð í huga hans. Aldrei batt hann sig þegnskyldu við nokkurt land annað en Ísland, þar sem hann var fæddur íslenzkur (eða danskur) þegn. En **Íslands-ást** hans var hrein og heit og fór vaxandi með hverju ári. Ættjarðarástin var aðallega ást á landinu sjálfu. Hann þekti þar hvern blett — líka þar á landinu, sem hann hafði aldrei komið. Náttúran íslenzka var honum ímynd allrar fegurðar og hátignar. Frá íslenzkri náttúru var honum runnin sú hugsjónadýrð, sem einatt einkendi rit hans og ræður. Og frá fornsögunum íslenzku var honum komið það meginkyngi máls og mynda, sem hóf hann upp yfir aðra menn. Sagan og náttúran voru "alfa og ómega", upphaf og endir, Íslandsástar séra Jóns, og þær systur tvær bundu hann við Ísland þeim böndum, sem aldrei biluðu.

Þjóðina elskaði hann einnig, en nokkuð á annan hátt en landið. Landið var ávalt fagurt og elskulegt í augum hans, svo að jafnvel jökullinn þar var hon-







um ímynd kærleikans (sbr. fyrirlesturinn "Það, sem mest er í heimi"). En hann hafði aftur næma tilfinningu fyrir misbrestum þjóðfélagsins. Það er alkunnugt, hversu hart hann deildi á þjóðina, hve miskunnarlaust hann sagði henni til syndanna. Ádeilur hans á þjóðlífið íslenzka er eitt aðalatriðið í æfisögu séra Jóns Bjarnasonar, og áhrif hans fyrir þær ádeilur verður jafnan að taka til greina, er ræðir um æfistarf hans. Fyrirlestrar hans, svo sem "Íslenzkur Nihilismus" og "Ísland að blása upp" og óteljandi ritgerðir hófu að sumu leyti nýtt tímabil í sögu þjóðarinnar, voru upphaf nýrrar grandskoðunar á andlegu ástandi hennar.

Það, sem séra Jón tók sérstaklega til bæna hjá þjóð sinni, var mentamál hennar og trúarlíf. Það var honum grátlega ljóst, að það hvorttveggja var dauðsjúkt, er hann hóf baráttu sína. Hann áleit Kaupmannahafnarmentun Íslendinga og það trúarlega og siðferðilega skipbrot, sem margir íslenzkir námsmenn hefðu þar liðið, aðal-uppsprettu vantrúar og siðleysis á hinum "hærri stöðum" þjóðlífsins. Skólalífið reykvíska taldi hann og máttlaust og marg-gallað. Gegn spilling þessari þrumaði rödd hans hátt og lengi. Þó var af öllu sárast, að honum fanst, hvernig trúarlífi þjóðarinnar var farið. Honum fanst kirkjan á Íslandi steinsofandi, og á seinni tíð komin á villigötur. Eymdarástand kirkjunnar og niðurlæging kendi hann því mest, að kirkjan er ríkiskirkja. Hann sagði vonlaust um velferð kirkjunnar þar til hún losaði sig undan stjórn ríkisins og yrði alfrjáls. Fyrir fríkirkju barðist hann í ræðu og riti af öllum mætti, og alt fram í andlátið var það brennandi þrá hans og bæn, að kirkjan á Íslandi losaðist úr tengslum ríkisins.

Margvíslegir dómar og sumir harðir hafa verið um það, sem séra Jón lagði til Íslands-mála. Óvinir hans eignuðu honum jafnvel illar hvatir, svo sem það, að hann væri leigður "agent" Canada-stjórnar til að lasta Ísland og með því fá menn til að flytja







burt þaðan til Canada. Þær raddir hafa þó löngu þagnað, og hvort sem menn eru samþykkir skoðunum hans eða ekki, veit alþjóð það nú, að það, sem réði hjá séra Jóni jafnvel í þyngstu ádeilum, var ást til lands og þjóðar og löngun til þess að gera gott.

Hér vestan hafs hefði vel mátt nefna séra Jón Bjarnason útvörð íslenzks þjóðernis og íslenzkrar tungu. Hann lagði sjálfur sjaldgæfa rækt við íslenzku. Þekking hans á íslenzkri tungu og meðferð hans með hana vakti eftirtekt alþjóðar. Hann ritaði svo einkennilegt mál, að aldrei þurfti fleiri en fáar línur að lesa svo höfundurinn þektist. Sérreglur nokkrar í réttritun tamdi hann sér og vildi ei frá þeim víkja þó blaðamenn og rithöfundar gerðu samtök um samhljóða stafsetning. Hann var frábærum málfræðings-hæfileikum gæddur, og notað þá alla í þarfir íslenzkunnar. Hann agaði í þessu efni strangt þá, sem með honum eða fyrir hann rituðu, og aldrei þreyttist hann á því, að fræða samverkamenn sína um uppruna orða og lögmál íslenzkrar tungu. Sum bréf hans gengu öll í þá átt, og var samverkamönnum fræðsla séra Jóns til mikils gagns.

Á samkomum og mannfundum kendi hann íslenzk fræði og glæddi hjá mönnum löngun til að kynnast þeim meir. Fyrir viðhaldi tungunnar hér í Vesturheimi barðist hann af öllu kappi. Þjóðþrifa fyrirtæki íslenzk vildi hann styðja af alefli. Þjóðernisstarf hans var látlaust. En ekki hafði hann mætur á háværu þjóðernis-gumi. Á Íslendinga-degi eða Þorrablóti sást hann sjaldan. Honum var málefnið of heilagt til að hrópa upp með það. Eigi að síður sá hann hvert stefndi. Með miklum sársauka horfði hann fram á það, að íslenzkan yrði að hverfa fyrir enskunni og kynslóðin nýja krefðist nýrra siða. Fátt olli honum meira hugarangurs síðustu árin en það, að þreifa á því, að æskulýðurinn, t. d. fermingarbörn, skildu ekki íslenzku. Honum var það ljóst og hann hafði orð á því, að til mætti bráðum að fræða







börn og prédika fyrir yngri kynslóðinni á ensku. Komst hann þá svo að orði, að þá væri mál fyrir sig að fá að fara heim.

——— ——— ———

Nú komum vér að því svæði sérstaklega, sem var aðal-starfssvið séra Jóns Bjarnasonar: **trúmálin.**

Því hefir verið haldið fram, að trúmaður hafi séra Jón fremur verið af skynsemi og skyldurækni en af hjarta og tilfinning. Sannleikurinn er sá, að séra Jón var fyrst og fremst trúmaður af hjarta og tilfinning. Trúnni lutu allir kraftar og eiginleikar sálarinnar. Trúin var insta og eiginlegasta eðli hans. "Eg trúði, þess vegna talaði eg", mátti hann segja. Af rótum trúarinnar var runnið alt hið mesta og alt hið bezta í fari hans. Hann trúði og elskaði og tilbað af öllu hjarta. Guð var honum mesti veruleiki lífsins. "Hann gekk með Guði". Frelsarinn var vinur hans og bróðir. Það var ekki uppgerð eða vani einn, að hann andvarpaði svo títt "Jesús minn!" Það var honum jafn eðlilegt að biðja til Guðs eins og þyrstum manni að drekka af vatnslindinni. Eðli hans, sál hans, lifði og hrærðist í trú.

Um trúar-**skoðanir** séra Jóns, skilning hans á atriðum trúarinnar, mætti rita langt mál. Þó má það í fám orðum segja, að trúarskoðanir sínar og kenningar bygði hann allar og einungis á orði Guðs í heilagri ritningu, eins og hann skildi það. Hjarta kristinódmsins var Kristur sjálfur. Persónulega aðstaðan við hann var aðal-atriðið. Friðþægingin var þungamiðja fagnaðarboðskaparins. Jesús Kristur, dáinn og upprisinn syndugum manni til sáluhjálpar, var kjarni trúarinnar. Sú kenning nýja testamentisins var mælikvarði allra trúarlærdóma. Við þann boðskap hvíldi hjarta hans í heilögum friði. Þar fyrir voru Passíusálmarnir dýrmætasti fjársjóður hans, annar en ritningin sjálf. Þá kunni hann utan að, las þá og söng, og með þeim bað hann og dýrkaði Guð. Þá mátti hann ekki missa, ekkert orð, ekkert vers þeirra. Þess vegna mátti hann ekki annað heyra, en að þeir væru allir og í heilu lagi teknir upp







í sálmabók kirkjufélagisns. Í Passíusálmunum endurspeglaðist hjarta séra Jóns sjálfs.

Af því einkendist einnig trúar-andi séra Jóns, að hann var sjálfstæður, frjáls og sí-rannsakandi. Trúarlærdómana kristilegu hafði hann numið sem fræði, guðfræði hafði hann lesið í skóla, en áður en langt var komið út í lífið fann hann sig til þess knúðan, að hefja sjálfstæða rannsókn lærdómanna. Má vera, að atvikin hafi þar nokkru ráðið, en þó eðli sjálfs hans meiru. Áður en hann tókst á hendur leiðsögn annara í nýlendunum íslenzku í Ameríku, hafði sála hans þolað mikla eldraun. Ekki mun hann hafa átt í stríði við vantrú eða efasýki í sjálfum sér gagnvart meginmáli kristilegrar trúar. Stríðið var um skilning á kenningum kirkjunnar. Og því lauk ei fyr en hann hafði sjálfur gert sér ljósa grein fyrir þeim og myndað sér sjálfstætt trúfræðakerfi. Sú áreynsla gaf honum þrótt þann, er síðar kom honum að svo góðu haldi.

Þá meginreglu batt séra Jón sig við í rannsókn allra trúarefna og meðferð á þeim, að skilja greinilega á milli meginmáls og auka-atriða, greina kjarnan frá skelinni. Það sem hann sannfærðist um að væri grundvallarlegs eðlis, skyldi standa, á hverju sem gengi og hvað sem hver segði. Það sem hann taldi auka-atriði skyldi aldrei gert að aðal-atriði. Meginatriði mátti aldrei raska, en formi og fyrirkomulagi mátti og skyldi breyta eftir þörfum. Honum virtist gangur trúmálanna einatt öfugur fyrir það, að menn gerðu sér ekki ljósa grein fyrir aðal-atriðum og auka-atriðum. "Þeir vilja hafa alt laust, sem á að vera fast, og alt fast, sem á að vera laust", sagði hann eitt sinn.

Um trúarsannindin heilögu, eins og þau liggja fyrir manni í opinberuðu orði Guðs, vildi séra Jón láta halda fast með báðum höndum og þar engu sleppa. Aftur á móti var honum form alt laust í hendi. Félagslegt fyrirkomulag, kirkjustíl, tíðareglur, kirkjulegar siðvenjur, — alt, sem einungis laut







að ytra búningi, taldi hann auka-atriði og lét sér oft furðu fátt um það finnast.

Það var löngum látið klingja áður fyr, að séra Jón væri harðstjóri mesti, gengi með steyttan hnefa og vildi vera einvaldur um kirkjustjórn. Persónuleg áhrif hans voru svo mikil og málum fylgdi hann af svo miklum krafti, að slík ummæli voru um hann höfð. Í raun og veru var alt einveldi séra Jóni ógeðfelt. Hann var lýðveldissinni og vildi að kirkjan hefði lýðstjórn í öllum efnum. Hann vildi ekkert prestavald hafa. Prestana vildi hann láta hverfa bak við leikmennina. Hvern einstakan söfnuð vildi hann láta vera einráðan um öll mál sín, en kirkjuþingin einungis ráðgefandi þing og kirkjufélagið einungis sjálfboða samvinnu safnaðanna. Alla vildi hann láta vera jafn-rétthá í safnaðarmálum og kirkjufélagi. Fyrstur allra lúterskra manna í þessu landi ritaði hann jafnrétti kvenna inn í kirkjulög sín. Mætti það sem kunnugt er mótspyrnu framan af, og margir voru þeir, sem þóttu séra Jón efla sérveldi safnaða og kirkjulega lýðstjórn um skör fram.

Útaf trúmálum og kirkjustjórn átti séra Jón Bjarnason oft í þungu stríði. Trúmáladeilur voru margar og harðar og leiddu þrásinnis til óvildar og vináttuslita. Í ritdeilum og orðasennum var séra Jón oft þungorður og bituryrtur, enda var einatt óvægilega á hann ráðist. Er tilrætt varð um deilurnar, kannaðist hann við það, að þær margoft leiddu mann til synda. Á hinn bóginn minti hann á það, að í nýja testamentinu væri fordæmi, og sjálfur frelsarinn hefði verið harðorður um vonda menn og villukenningar, og sömuleiðis postularnir. Færði hann til ummæli Krists um Heródes og Páls um Kríteyinga. Óðar en séra Jón byrjaði starf sitt hófust deilur um trúmál og tók ein deilan við af annari. Var séra Jón aðal-maður annars vegar í þeim öllum.

Fyrsta deilan var við það, sem hann taldi oftrú Norsku sýnódunnar. Kreddufesta og bókstafsþrælk-







un þeirrar deildar norsku kirkjunnar hér í landi, sem komist hafði undir áhrif Missouri-sýnódunnar þýzku, varð á leið hans fyrst í Bandaríkjunum og þar á eftir í Nýja Íslandi, en þangað hafði boðskapur Norsku sýnódunnar borist á fyrstu landnámsárum. Börðust þær stefnur tvær í Nýja Íslandi (stefna séra Jóns og kirkjunnar íslenzku annarsvegar og stefna Norsku sýnódunnar hinsvegar) unz nýlendulýðurinn var klofinn í tvær andvígar fylkingar. Við burtflutning fólks og fráför annars en fráfall hins leiðtogans féllu deilurnar niður. En stefna sú, er séra Jón tók í Nýja Íslandi og síðar fylgdi, er hann aftur kom til sögunnar, réði við myndun og síðan áfram í vexti kirkjufélagsins.

Lengri og skæðari var deilan við það, sem séra Jón nefndi **vantrú** Únitara. Ekki mörgum árum eftir það, að séra Jón kom vestur annað sinn, settist að í Wininpeg og stofnaði kirkjufélagið, byrjaði trúboð Unitara meðal Íslendinga. Var því haldið uppi og kostað af Únitara-félaginu í Bandaríkjunum. Gegn því trúboði barðist séra Jón með oddi og egg alla tíð. Trúboð það, með ákveðinni afneitun á guðdómi Krists og endurlausninni, kom algjörlega í bág við það, er séra Jón taldi hjarta kristindómsins. Og þar sem hann sá þann boðskap falla í frjóan jarðveg hjá mörgum löndum sínum, fyltist hann eldmóði til varnar. Ræður hans, ritgerðir og starf stefndi lengi aðallega gegn Únitara-boðskapnum. Trúvarnarprédikanir hans margar voru samdar frá því sjónarmiði. Í deilum þessum gerðust margir óvinir hans, en þær öfluðu honum einnig fjölda vina, er fylgdu honum drengilega. Á síðari æfiárum séra Jóns lægði veðri þessu og margir voru þeir í hópi únitariskra andstæðinga, sem virtu hann manna mest, og lofsorði luku þeir á hann látinn.

Stríð, þótt skammvint yrði, átti séra Jón við það, sem hann áleit **ofsatrú** hjá leikmanna-prédikurum íslenzkum, sem um nokkur ár voru gerðir út af leiðtogum presbýtera í Winnipeg til að "kristna Ís-







lendinga". Frekju þá og fáfræði réðst séra Jón á og keyrði um koll. Honum gramdist það því meir, að leiðtogar þessir í presbýtera-kirkjunni gerðust guðfeður þessa fákátlega trúboðs, sem hann bar meiri virðingu fyrir presbýtera-kirkjunni en flestum öðrum kirkjudeildum. Trúboð þetta féll innan skamms, en afskifti séra Jóns af því sýna, hve afarilla hann kunni öllum trúarofsa.

Það var stríðið þyngst og síðast, er hann háði við það, sem hann nefndi **hálftrú** nýju guðfræðinnar. Það var um aldamótin, að stríð það byrjaði. Ófriður sá kom úr óvæntri átt. Þegar fyrst var nýmælunum hreyft í Reykjavík og þau svo flutt vestur, átaldi hann formælendur þeirra aðallega fyrir það, að bera þau þegar fram fyrir almenning; áleit að þau ættu fremur að ræðast og rannsakast af guðfræðingunum í sinn hóp, en nú hlytu þau að hneyksla margan "veikan bróður". En því lengra sem haldið var áfram, því sannfærðari varð hann um það, að nýja guðfræðin svo nefnda væri háskaleg villa og sagði henni stríð á hendur. Fyrir hans sjónum var hún hvorki fugl né fiskur. Hún var tilslökun við vantrúna. Þar mættust trú og vantrú á miðri leið. Honum fanst nýja guðfræðin grafa undan öllum grunnsteinum kristindómsins, og vera fyrir það skaðlegri, að hún væri búin gervi sögulegs kristindóms, viðhefði hin sögulegu orð um aðal-atriði trúarinnar, en legði í þau nýja merkingu, og fyrir það yrði hún til að blekkja marga. Ekkert stríð tók hann sér eins nærri og þetta, enda var hann þá farinn að eldast og þrotinn að heilsu.

——— ——— ———

Ekki gat hjá því farið að skiftar skoðanir yrðu um leiðsögn séra Jóns Bjarnasonar. Þeir, sem ekki þoldu leiðsögn hans, hurfu frá honum og urðu sumir svæsnir mótstöðumenn hans. Þeir, sem skipuðu sér undir merki hans og fylgdu honum vel og lengi. fengu æ meiri lotningu fyrir honum og báru þann kæreika til hans, sem fúslega hefði öllu fórnað fyrir





hann. Fáir menn hafa verið virtir og elskaðir jafn mikið og hann. Fórnfýsi hans í öllum efnum, — sem ávalt er frumskilyrði þess, að maður geti verið leiðtogi annara, — var svo takmarkalaus, að ekki gat hjá því farið, að hún vekti upp hjá öðrum mönnum drengskap og dugnað. Ástríkið mikla, sem vinir hans nutu hjá honum, tengdu þá við hann óslítandi böndum. Trúin hans, heit og hrein og barnslega blíð, tendraði þau ljós í sálum annara, sem aldrei deyja.

Sjálfsagt fylgdu honum margir og fylgja enn aðallega sjálfs hans vegna — fylgdu og fylgja manninum mikla og góða, lifandi og látnum — án þess að hafa til hlítar tileinkað sér lífsspeki hans og sveigt sálarlíf sitt inn á brautir hans. Jafnvel lærisveinar frelsarans sjálfs voru ekki svo langt komnir, þegar meistari þeirra var upphafinn frá þeim. Tíminn leiðir það í ljós, hversu vel og hversu lengi menn láta leiðast af anda séra Jóns Bjarnasonar og hvernig menn tileinka sér lífsskoðanir hans og kenningar. En meðan íslenzkir menn eru til, og meðan afkomendur íslenzkra manna kenna börnum sínum sögu feðra sinna, mun andi séra Jóns Bjarnasonar hvíla yfir kynslóðunum.

Á legsteini þeim, sem ástvinirnir hafa reist á gröf hans, eru þessi orð: **Hann barðist góðu baráttunni, varðveitti trúna,** — sönn orð og sögurík. Íslendingar í Vesturheimi munu samtaka verða um það bráðlega, að reisa látnum leiðtoga sínum sæmilegan bautastein. En lengur en nokkrir steinar standa, mun minning leiðtogans lifa í ódauðlegum sálum margra manna.










Legsteinninn á leiði séra Jóns Bjarnasonar



# Í ræðustólnum.

Eftir séra Guttorm Guttormsson.

ÁIR Íslendingar munu hafa sætt misjafnari dómum af þjóð sinni heldur en séra Jón Bjarnason. Óvinsælli menn hefi eg þekt, og vinsælli menn líka, en engan annan hefi eg vitað bera frá borði jafn ósvikinn hlut af hvorutveggja í senn, lofi og lasti. Menn greindi að vísu ekki svo mjög á um manninn sjálfan — því allir könnuðust við gáfur hans og mannkosti — heldur um æfiverkið, stefnuna, áhrifin, frammistöðu hans alla í málum þeim, sem hann gaf sig við. Á því efni skiftist almenningsálitið svo gjörsamlega, að varla mun dagsverk nokkurs annars manns hafa orkað meira tvímælis með þjóð vorri, svo deilugjörn sem hún er.

Kennimannsstarf séra Jóns fór ekki varhluta í þessu. Það er alkunnugt, að mörgum þótti kveða fremur lítið að honum í stól; þeim fanst kenningin hjá honum kraftlaus, langdregin og leiðinleg, efnið eins og úti á þekju, og ræðusnið alt og flutningur eftir því. Hann var pokaprestur eða því sem næst að þeirra dómi. Aftur vildu aðrir skipa honum í öndvegi meðal íslenzkra kennimanna, svo indælt fanst þeim að hlusta á hann. Þeir hrósuðu honum meðal annars fyrir sí-ferskan frumleik og hugsunarþrótt, fyrir hreint og fagurt mál, fyrir viðkvæmni, djúpa lotning og trúaralvöru, fyrir einhvers konar







óumræðilega hjartans-einlægni, sem aldrei þótti leyna sér í orðum hans og látbragði. Það skifti ekki nema í tvö horn um dómana að öllum jafnaði; hann var ýmist talinn hreinasta gull af ræðumanni, eða alveg óhæfur til þeirra hluta.

Annað var merkilegt við þessa skoðanaskifting út af ræðunum. Þegar deilt var um stefnu séra Jóns eða gjörðir einhverjar, þá var það vitanlega all-oftast trúarágreiningurinn, sem skifti hugum manna; þeir héldu hans taum, sem trúðu eins og hann, en aðrir voru á móti. En ræðurnar voru algjörlega sér um mál í dómum manna; klufu flokkana í tvent, hvorn fyrir sig; hlutu oft hnjóð frá hálúterskum mönnum, en lofsorð úr hópi hinna. Einn af leiðtogum Únítara[1]) lét jafnvel það álit í ljós, í minningarræðu eftir séra Jón ný-látinn, að ágætasta verkið hans eitthvert, verkið, sem að mestu gagni myndi koma og lang-helzt myndi verða honum til réttlætis reiknað síðar meir, væri einmitt brautruðning nýrrar og betri listar í íslenzkri ræðugjörð. Ekki endaði þver-skiftingin þarna, því dómarnir fóru enn í tvent. Þeim, sem út á ræðurnar settu, kom alls ekki saman um ókostina. Marga heyrði eg gefa séra Jóni það að sök, að hann væri of biblíufastur, of þaulsætinn við stund og stað ritningartextans, of langorður um gamlar tíðir og útbrunnin trúarefni — í einu orði sagt, alt of fráskilinn mannlífinu í kring um sig. Hann færi helzt aldrei eitt fet með efnið út yfir múrveggi Jerúsalemsborgar. Þó var kenning hans alt of "veraldleg" fyrir annara smekk. Þetta var ekkert guðsorð, sem hann fór með, sögðu þeir. Það var svo ó-keimlíkt prédikunarstíl þeim, sem menn höfðu vanist áður.

Ekki skal að svo stöddu dæmt á milli þessara sundurleitu skoðana. Þeirra var getið hér bæði fyrir þá sök, að í dómum þessum markar fyrir helztu ræðumanns-einkennum séra Jóns, eins og þau komu

---

1) Séra Rögnvaldur Pétursson.





mönnum alment fyrir sjónir frá ýmsum hliðum, og svo felst hins vegar í tvímælinu sjálfu vottorð óbeint um einhverja veig í ræðunum. Menn hafa sjaldnast fyrir ákafri, rótgróinni skoðanaskifting út af því, sem ekkert er. Það sannast á slíkum andstæðum, að bragð er að þegar barnið finnur — eitthvert bragð. Um vatnsdeyfu eina fer aldrei mörgum sögum til lengdar. Mér hefir alt af fundist eins og yfirbragð mannsins og ræðumannsins stæði speglað í þessum ósamhljóða dómum. Lofið var svo hjartanlegt, lastið svo hreinskilið og ákaft. Menn gátu ekki verið hlutlausir í garð séra Jóns. Hann var svo hreinn og ákveðinn; hálfvelgjan, yfirdrepsskapurinn og sinnuleysið var svo gagnstætt öllu eðli hans, að það komst jafnvel ekki að hjá öðrum mönnum, að því er virtist, þegar þeir gjörðu hann að umtalsefni.

Erindið átti reyndar að vera það, að lýsa þessum þætti í lífsstarfi séra Jóns frá eigin brjósti, og skal eg nú í stuttu máli drepa á helztu einkennin. Frumleikurinn fanst mér koma í ljós hjá honum á ýmsan hátt, þegar eg hlustaði á hann, en einna sérkennilegast þótti mér þó verklagið á ræðuheildinni, og svo finst mér enn, þegar eg les ræður eftir hann. Það var fljót-fundið, að hann tók ekki saman prédikanir sínar eftir reglum ræðulistar þeirrar, sem í skólum er kend, enda mat hann þær mjög lítils. Eg heyrði hann stundum minnast á prédikunarfræðina gömlu, sem hann lærði í skóla eins og lög gjöra ráð fyrir. Honum var meinilla við ákvæði hennar öll um sundurskurð og úthlutun efnis; taldi það til niðurdreps öllu andríki, að hluta þannig í sundur fyrir sér hugsunina, höggva hana niður í spað, ef svo mætti að orði kveða. Venjuleg ræðuskifting kom örsjaldan fyrir hjá honum. Það bar varla við, að hann útbýtti efninu, eins og áður tíðkaðist, með vísbendingarorðum, svo að áheyrendurnir gæti þekt þar inngang, útlegging og niðurlag, fyrirhafnarlaust. Stundum kom hann með sérskilið efni í byrjun, en hitt var jafntítt, að hann hóf mál sitt á aðal-hugsuninni. Niðurlagsorðin voru að sönnu með svipuðum blæ oftast,

en alderi þó steypt í ræðulistar-mótið gamla, sem þráfaldlega endaði á bænar-ávarpi, beinu eða óbeinu. Séra Jón lauk jafnan máli sínu með upphvatningarorðum til fólksins. Alveg eins fór hann sínu fram um ræðuefnið sjálft, eða "útleggingunа". Fóstbræðurnir virðulegu, sem oftast fara tölumerktir þrír saman, og skjóta upp hærukollunum hver eftir annan, allir með tiltekinn skamt af efninu, sem hafa verið sjálfsagðir heimamenn í flestöllu prédikunarmáli frá fornu fari og þrengdu sér jafnvel fyr á tímum inn í sálmasönginn — þeir voru fátíðir gestir í ræðum séra Jóns. Hann hafði lítinn gáning á þeim félögum, fleiri eða færri. Eg heyrði hann stundum henda gaman að þeirri venju, sem nú tíðkast hjá allmörgum ræðumönnum, að telja fram marga punkta, stundum svo að kvígildum skiftir í sama erindinu.

Séra Jón rígbatt sig auðvitað aldrei við þá reglu, fremur en aðrar, að brjóta bág við skiftingar-ákvæðin gömlu bæði í tíma og ótíma. Á prenti má finna þrískifta "útlegging" eftir í þrem ræðum að minsta kosti. Þær eru í "Sameiningunni". Tvær þeirra eru fösturæður, sú fyrri eiginlega lögð út af málverkinu heimsfræga eftir **Munkacsy**: "Kristur frammi fyrir Pílatusi".[1] Ræðumaðurinn finnur þar þrjú höfuð vantrúarinnar í þrem andlitum á myndinni og tekur þau öll til íhugunar. Hin fösturæðan heitir: Jesús í Getsemane"[2]) Þar ber höfundurinn sálarangist frelsarans saman við eldraunarstundir í lífi þeirra Mósesar, Abrahams og Jakobs. Þá er ræðan indæla, "Samfundir",[3]) sem séra Jón flutti fyrir söfnuði sínum, ný-kominn úr Íslands-ferð, haustið 1899. Þar er efni, sem kvíslast eðlilega í þrjár greinir og liggur alveg sjálfskift fyrir, bæði í textanum og tækifærinu: "Frelsarinn var með mér í fjarvistinni; hann var einnig með yður; og hann er hér mitt á meðal vor við samfundinn". Skiftingin er full-ljós í ræðum þessum öllum, þótt ekki sé með berum orðum vísað

1) "Sam." 5. árg., nr. 4. 2) "Sam." 18. árg., nr. 1.
3) "Sam." 14. árg., nr. 9.



til hennar né með hana farið að öðru leyti eftir utanað lærðum setningum neinnar ræðulistar. Efnið í hverri þeirra fyrir sig er í raun og veru þrjár nærskyldar hugsanir tengdar saman, en ekki ein hugsun liðuð sundur í þrent.

Finna má fleiri ræður eftir séra Jón, sem spunnar eru þannig úr þrem eða fleiri þáttum.[1]) En það eru undantekningar. Oftast nær er þar engar deildir að finna, svo skýrt afmarkaðar að á beri; því síður töluliði. Ræðuefnið var oftast hjá honum ein hugsun óskift, eða hugsunarstraumur, sem hélt áfram leiðar sinnar jafnt og þétt frá upphafsorðum til niðurlags. Kjarni ræðunnar var oft eins konar ráðgáta, sem skýrðist smátt og smátt í meðferðinni, og var svo, áður málinu lauk, orðin að dýrmætum trúarlífslærdómi. Gott dæmi er skírdagslesturinn í Guðspjallamálum. Viðfangsefnið þar er spurningin myrka: "Hví veitti Jesús svikaranum aðgang að heilagri kvöldmáltíð?" Yfir þeirri spurning birtir smám saman í ræðunni; kærleikssól frelsarans sjálfs rennur þar upp og eyðir myrkrinu, þar til geislum stafar frá henni inn í hjarta lesarans og bjóða **honum** að þiggja blessun sakramentisins. Séra Jóni var mjög tamt að hafa þetta ráðgátusnið á máli sínu. Eg man ekki eftir öðru einkenni, sem þar bæri öllu meira á. Hann benti oft í byrjun á einhverja ályktun, sem virtist liggja á yfirborði umtalsefnisins, en gat þó samkvæmt hlutarins eðli ekki verið sú rétta; og svo leiddi hann athygli áheyrandans fet fyrir fet að réttu úrlausninni, sem dýpra lá og iðulega reyndist að vera sannleiksperla dýrmæt og ógleymanleg. Þessi framsetning er svo tíð hjá honum, að tilvísanir eru óþarfar. Hún er ekki við höfð að yfirlögðu ráði, augsýnilega; ræðumaðurinn kemur þar til dyra eins og hann er klæddur; þetta er hugsunarleiðin, sem hann fór sjálfur í leit sinni eftir fjársjóðnum, sem hann í það og það skiftið hafði fram að bjóða.

[1]) Sjá t. d. "Heim til föðurhúsanna", lesturinn á 3. s. e. trin. í Guðspjallamálum. Þar er saga týnda sonarins borin saman við bænirnar sjö í "Faðir-vor".





Aðal-mál ræðunnar var þannig oftast nær einhver hugsunarkjarni óskiftur, sem sagt; hver kafli sjálfum sér ónógur, því þar var ekki full-gengið frá neinum vissum lið efnisins, eins og venja er til, heldur var kjarna-atriðið flutt áfram frá einum kafla til annars og varpað yfir það nýju og nýju ljósi; en þó fanst manni alt af eitthvað eftir við þann kjarna óútlistað, þar til ræðunni var lokið. Stundum var jafnvel ekki hægt að segja, að efninu miðaði **áfram**. Séra Jón fór oft með efni sitt, í ýmsum köflum eða ræðuna út, eins og málari, fór yfir drættina aftur og aftur með nákvæmni og vandvirkni, þar til lýsingin, hvort heldur á hlut eða hugsunaratriði, stóð úthleypt, skýr, lifandi, fyrir hugskotssjónum þeirra, sem á hlýddu. Þetta verklag átti auðvitað ekkert skylt við tilbreytingarleysi eða hjakk ofan í sama farið, þó sá væri tíðum dómurinn hjá þeim, sem slælega tóku eftir. Þótt hann skýrði myndina hægt og seint, eins og málari, þá kunni hann líka, eins og málari, að breyta um liti, að nota frumlegt líkingarmál, dæmi og athugasemdir til að gjöra efnið ljósara og áheyrilegra. En sérkennið var, að tilbreytingarnar vissu allar **inn**, en ekki **út**, ef svo mætti að orði kveða. Ræðukaflarnir byrjuðu mjög oft eins og óskyld efni, sem ekki virtust koma málinu við, en runnu svo að vörmu spori hjá honum saman við aðal-hugsunina. Í stað þess að færa ræðuefnið út, sundurliðað, láta það kvísla sér út í mannlífið, eins og lög ræðulistarinnar hafa gjört ráð fyrir, þá viðaði séra Jón að sér dæmum og líkingum og öðru efni utan úr mannílfinu eða frá ýmsum sviðum hugsunarinnar, flutti aðföng þessi inn í efnið, tengdi þau við hugsunaratriðið, sem inst lá í ræðunni. Mér hefir oft dottið í hug veiðiför, þegar eg hefi virt fyrir mér eða rifjað upp ræðusnið séra Jóns. Hann dró all-oftast fyrir eitthvert sannleiksatriðið með máli sínu, eða varpaði netjum hringinn í kring um það, og hafði veiðina innan borðs í ræðulok.

Stundum komu fyrir hjá honum kaflar alveg sérstakir, einn eða fleiri, á undan eða eftir aðalefn-

inu, oftast þó í upphafi. Þeir fjölluðu oftast um einhver nauðsynjamál andleg, helzt trúvarnaratriði, sem láu beint fyrir í textanum eða tækifærinu. Slíkar hugsanir lét hann fara á eigin býti, án þess að þrengja þeim óeðlilega inn í efnið. Upphafs-kaflinn í fyrsta lestri Guðspjallamála, sá um árveknisskyldu kristinna manna, er ræða út af fyrir sig. Svo er um trúvarnar-innskotið laust eftir upphaf lestursins á þriðja sunnudag í föstu. Oft kom það þó fyrir, að hugsun sem í fyrstu virtist liggja **utan við efnið,** lá í raun og veru **utan um** það áður lauk, og batt það saman. Í ræðu um skýstólpann við Rauðahafið[1]) kemur í öndverðu máli útúrdúr, að því er virðist, um forherðing Faraós. Efnið í þeim kafla reynist þó mergurinn málsins þegar fram í sækir.

Hvaðan séra Jón hafi haft þetta verklag í fyrstu, er ekki gott að segja. Mér er nær að halda, að hann hafi lært það af sjálfum sér, því bæði var það honum svo eðlilegt sem framast mátti verða, og svo veit eg ekki af neinu eldra ræðusmíði svo nauðalíku hans, að verið gæti fyrirmyndin. Þó hafa auðvitað margir á undan honum, bæði ræðumenn og rithöfundar, farið frjálslega með efni, og óefað hefir einhver þeirra beinlínis eða óbeinlínis hjálpað honum til að finna sjálfan sig. — Til samanburðar dettur mér helzt í hug ritsnillingurinn enski, John Ruskin. Hann var auðvitað ekki lærifaðir séra Jóns í neinum skilningi, en eitthvað skylt finst mér vera með þeim nöfnum í þessu, sem hér er um að ræða, þó varla sjáist ættarmótið á ytri einkennum. Ruskin skifti tíðum efninu, stundum jafnvel í mýmarga punkta, en batt sig þó alls ekki í þeim sókum við mannasetningar. Væri sniðið á sumum fyrirlestrum hans, og það þeim frægustu, prófað eftir þröngum listvenjum, þá félli hann í gegn.[2]) Þeim svipar saman í þessu,

1) "Sam.", 2. árg, nr. 7 og 8.

2) Til dæmis: **"Of King's Treasuries"**, sem byrjar á heilræðum um lestur bóka, og endar á reiðilestri yfir æðri stéttunum ensku fyrir oddborgarahátt og hjartaleysi. Eða: **"Iron in Nature, Art and Policy"** — þrír ræðustúfar, sem lítið eiga í samlögum, nema höfundinn og málms-heitið.

nöfnum: báðir listfengir, orðhagir, elskir að fegurðinni, en láta sér þó sérstaklega ant um sannleikann sjálfan, sem þeir hafa meðferðis, um erindi sitt til fólksins, miklu fremur en um nokkurt búnings-snið aðfengið, hvort heldur frá gömlum vana eða nýrri tízku. Aðal-atriðið fyrir báðum það, að hafa eitthvað gott og þarft að segja, og segja það svo, hreinlega, göfuglega, og sníða hugsuninni stakk eftir vexti fremur en venjum.

Vinnubrögðin hjá báðum, ólík að ytra útliti, bera vott um andlegt ættarmót inni fyrir, sem betur kemur í ljós við nánari kynningu. Ruskin barðist fyrir þeirri sannfæring sinni bæði í tíma og ótíma, svo sem kunnugt er, að lífið og sálin í allri list væri **sannleikur;** hún gæti ekki komist lífs af án hans; ekki þrifist, nema á þeirri næring ómengaðri. Og séra Jón var óefað sá sannleiks-elskasti maður, sem eg hefi þekt. Þetta finst nú sjálfsagt einhverjum all-freklega tiltekið, helzt þeim, sem ekki gátu ætlað kristnihaldinu hjá honum neina göfgari hvöt en ljósfælni. Þeir um það. Eg tala af eiginni reynslu. Hver ræða hjá honum fanst mér bera það með sér, að hann hefði með samvizkusemi og ströngum sjálfsaga verið æfilangt að temja sér listina, sem fegurst er og vandamest allra — að segja satt. Hann rataði sannleiks-leið, sem ekki var alfaravegur lærðra manna á hans dögum, leið, sem hann hafði kannað sjálfur í gegn um örðugleika og torfærur sárrar lífsreynslu, svo að hann vissi, hvað hann fór. Sú reynsla skein út úr hverri ræðu hjá honum. Það var auðfundið, að hann fór þar með sannleika, sem honum var óumræðilega heilagur og dýrmætur — með eigin eign sína, sem hann hafði goldið dýrt fyrir í þrautum og sársauka.

Vilji menn því læra eitthvað sérstakt af ræðum séra Jóns, sér til fyrirmyndar, þá vil eg helzt benda á sannsöglina, á hreinleik þann, í hugsun og framsetning, sem varla brást í rituðu máli hjá honum, og því síður þegar hann talaði. Það var eins og hreinn yfirsvipur hvíldi yfir hverju hans orði, ein-



hver göfgandi sannleiksblær, sem ekki var auðfenginn, eða keyptur við litlu verði. Því það er hvergi nærri svo létt sem af er látið, að segja satt, nema þegar talað er hugsunarlítið um það allra einfaldasta, sem fyrir augun ber — þegar málið er verkfæri skilningarvita fremur en hugsunar. En þegar hugsun og hjarta koma til sögunnar, þá þyngist þrautin. Þá fyrst verður sannsöglin veruleg dygð, og list um leið — einhver fegursta listin og vandamesta, sem til er. Í sannleiksleitinni reyndi ekki aðeins á gáfur og andlegan þrótt, á dugnað hugsunarinnar, þor hennar og sjálfstæði, heldur einnig á fegurstu dygðir hjartans. Auðmýkt og alvöru má þar ekki vanta, eða tállausa ráðvendni, því sannleikurinn er eign æðra valds, og mannleg hugsun getur aldrei orðið svo sniðug eða gáfuleg, að hún megi gjöra sér dælt við hann. Ekki heldur fórnfýsi og sjálfsafneitun. Því leitin, og jafnvel fundurinn, felur í sér margskonar sársauka. Sama má segja um trú, von og kærleika, um hjartahreinleik og alla manngöfgi, að án þess er ekki unt að finna svo mikið sem eitt smákorn sannleikans ómengað; því mannssálin fær aldrei að sjá í tilverunni annað en það, sem hún líkist sjálf að einhverju leyti.[1]) Þá er framsögnin ekki síður vandasöm en leitin. Sá þarf að vera vandur að virðingu sannleikans, sem með hann vill fara réttilega; má ekki víkja honum úr öndvegi fyrir vegsemd sjálfs sín, né spilla honum með eigin litum; því efnið tekur ætíð svip af sál þess, er með það fer, göfugan eða ógöfugan. Óhreinar varir hafa ekki sannleikann, því síður spilt og hégómleg hugsun. Enginn segir satt, í orðsins beztu merking, nema því að eins, að hinn betri maður hans hafi orð fyrir honum. Séra Jón var ágætlega fallinn til þess vandaverks.

---

1) Á þetta er mikil áherzla lögð í nýja testamentinu: "Sælir eru hjartahreinir, því að þeir munu Guð sjá". "Kastið eigi perlum yðar fyrir svín". "Ef ljósið í þér er myrkur, hve mikið verður þá myrkrið?" "Enginn getur séð guðsríki nema hann endurfæðist". "Náttúrlegur maður veitir ekki viðtöku því sem Guðs anda er, því að honum er það heimska, og hann getur ekki skilið það".







Sálin viðkvæm, hrein og stórgöfug, skygn á helgustu sannindi lífsins og næm fyrir göfgi þeirra.

Góð fyrirmynd í sannsögli liggur í sjálfum ytra búningi hverrar ræðu hjá séra Jóni, svo sem áður var á vikið. Sú, að hugsa fyrst og semja síðan; að láta efnið skifta meira máli en hugsunarmótið. Því listvenjurnar í ræðugjörðinni eru svipaðar stuðlum og rími skáldskapar í þessu, að hvorttveggja getur orðið værukærri hugsun til ásteytingar. Leirskáldin láta rímið skapa sér yrkisefni eftir því sem verkast vill, og svo fer oft þeim, sem hefir vanahelgað form efst í huga, þegar hann tekur saman óbundið mál. Venjan liðar sundur efnið fyrir hann, og liðirnir verða handhægar, veigalitlar umrennings-athugasemdir, nema hann gæti sín.

Með þessu er auðvitað ekki ljóðasmiðum öllum vísað í leirskáldaflokkinn, né öll vanabundin ræðugjörð að sjálfsögðu sókuð um andleysi. Því hvað ætti þá að segja um marga ágæta ræðumenn, eins og Jón Vídalín, sem aldrei brá sinni tröllatrygð við hefðina? Sannleikurinn er auðvitað sá, að venjurnar eru góðar í sjálfu sér, en ekki ómissandi. Séra Jón brá út af þeim fyrir þá sök, að hugur hans hneigðist ósjálfrátt að öðru verklagi. Fyrir mannlegri hugsun liggja tvens konar verkefni aðallega—að skifta, eða flokka saman, að deila heildinni sundur í parta eða koma pörtunum saman í heild. Fáir eru jafnvígir á hvorttveggja; sumum tekst hið fyrra betur, öðrum hið síðara, og gáfnafarið hjá báðum hefir sína kosti og sína annmarka. Öðrum gengur oft illa að sjá skóginn fyrir eikunum; í augum hinna gætir eikanna lítið fyrir skóginum. Nú ganga ákvæðin gömlu um niðurröðun efnis aðallega í þá átt að liða sundur, eða að minsta kosti liggur það verklagið beinna við eðli þeirra. Séra Jón aftur á móti var heildar-maður í allri hugsun. Honum lét betur að fást við eitt stórt en margt smátt; sjónin hvíldi á skóginum fremur en eikunum. Hér af stafaði ræðusniðið, sem áður var lýst, og sama gáfnalagið kemur hvarvetna í ljós í smáu sem stóru hjá honum, í með-







ferð hans á textanum, í lýsingunum, í líkingarmálinu, í sjálfum boðskapnum, sem hann flutti, bæði grundvallar-hugsun og heimfærslu, og ekki sízt í þessu einkennilega samblandi frjálslyndis og festu í trúarefnum, sem honum var lagt svo misjafnlega út á meðan hann lifði.

Húslestra-bók sína nefnir séra Jón "Guðspjallamál", og það nafn gátu allar stólræður hans borið með rentu. Þær lifðu og hrærðust í orði Drottins, í kenning þess og anda. Það var eins og andrúmsloftið sjálft angaði af ilm orðsins, þegar hann prédikaði. Hann fór aldrei fram hjá boðskap trúarinnar út um allar jarðir heims í leit eftir öðrum efnum, sér til erindis fram fyrir fólkið, eins og margir kennimenn tíðka nú á dögum. Ásetningurinn auðsær hjá honum, eins og Páli, að vita ekkert í kennimannsembættinu, annað en Jesúm Krist og hann krossfestan; enda mintist séra Jón oft með hjartanlegu samþykki á greinargjörð Ramsays fyrir mistökunum í Aþenu, þegar postulinn slepti sér út í gríska heimspeki, og árangrinum í Korintu, þar sem hitt ráðið var tekið.[1])

Ræðuefnið, hugsunarkjarnann, sótti því séra Jón ætíð beint í ritningartextann. Ræðan átti jafnan skýr upptök í textanum; var til orðin út úr umhugsun um efni hans. Ræðuefnið aldrei fundið fyrst, og síðan fest framan á það viðeigandi ritningargrein eins og innsigli, eða hengd yfir það eins og einkunnarorð, að sið sumra ræðumanna. Einstöku sinnum brá séra Jón út af þeirri reglu að hafa texta úr ritningunni. Ein ræða (sem áður var nefnd) er lögð út af málverki; allur ræðuþráðurinn rakinn þaðan. Þá má nefna lesturinn á langa frjádag í Guðspjallamálum. Stakan eftir Matthías Jochumsson, sem stendur þar í upphafi máls, er í raun og veru textinn. Ein ræða er til eftir séra Jón textalaus, þingsetning-

---

1) Sir William Ramsay: **St. Paul, the Traveller and the Roman Citizen**, 11. kap., 3. gr. Sbr. Post. 17, 22-34; 18 5; Kor. 2, 2.







arræða, flutt í Argyle 1912.[1]) Þessar ræður hans, eins og allar aðrar, halda sér þó við efni trúarinnar og eru biblíulegar í alla staði. Um þær allar má með sanni segja það, sem höfundurinn segir sjálfur um þá síðastnefndu: "Guðs orð víðsvegar úr heilagri ritningu er þó undirstaða boðskapar þessa". Svo vandur var hann að virðing köllunar sinnar í þessu efni, að hann birti einu sinni ræðu eftir sig til álita í "Sameiningunni", til þess að reka af sér það ámæli, að hann hefði verið að prédika pólitík í staðinn fyrir kristindóm.[2])

Mjög sjaldan lagði hann einstök orð eða smáatriði textans undir stækkunargler, eins og margir hafa leikið, og það afburða ræðuskörungar. Spurgeon, til dæmis, hafði sérstakt lag á að gera þrumufleyga úr smáskeytum textamálsins, að leiða feikilegan kenningar-kraft út úr einu orði. Smærri menn reyna oft sama ræðulag og tekst misjafnlega. Þeir mikla smámunina, hártoga smáorðin; finna sér lítilfjörlegar átillur fyrir miklu máli; roga—liggur mér við að segja—þungri ræðu-klyf upp á örmjóan klakk, sem aldrei var ætlaður slíkri byrði. Útleggingin verður með því móti lítið annað en öfgar og rangfærslur. Séra Jón hafði litla tilhneiging til þeirrar iðju. Ræðuefnið fékk hann oftast úr textanum sem heild, eða úr einhverju stóratriði, sem var mergurinn málsins. Hann leiddi auðvitað ekki hjá sér sérstök orð efnisþrungin, þegar svo bar undir; eins og sjálfslýsingu Jóhannesar skírara, "Eg er **rödd**", eða talshátt Jesaja, "að skilja með **hjartanu**". En í orðaleit fór hann aldrei aftur og fram um textann, eftir ræðuefni.

Svo sem að líkindum ræður af því, sem að framan er sagt, þá voru ræður séra Jóns aldrei alsettar orðum og málsgreinum víðsvegar að úr heilagri ritning, eins og áður var alsiða. Sannleikurinn, andinn í hverri ræðu, var þaðan kominn, fremur en orðin sjálf. En því meira efni gjörði hann sér úr hverri

---

1) "Sam.", 27. árg., nr. 5. 2) "Sam.", 1. árg., nr. 11.







tilvitnun. Kom ekki með aðrar en þær, sem vörpuðu skæru ljósi yfir efnið, sem fyrir lá. og vitnaði mest í þá hluta heilagrar ritningar, sem helzt voru kunnir fólkinu. Þar munu hafa legið ástæðurnar tvær fyrir því, að hann fór fremur spart með tilvitnanir. Hann vildi láta aðföng sín koma að verulegum notum. Nokkrum sinnum heyrði eg hann minnast á þann herskara ritningarorða, sem Jón Vídalín leiðir hvarvetna inn í mál sitt. Það taldi séra Jón sönnun fyrir biblíuþekking fólks á þeirri tíð. Áleit það ógjörning nú á dögum, sakir ókunnugleika fólks á Guðs orði, að fara þannig í alþýðlegri ræðu úr einum stað í annan um alla ritninguna, skýringarlaust. Séra Jón var sjálfur vel að sér í Guðs orði, stálminnugur á margvíslegan ritningarfróðleik, smáan og stóran, hafði kynst vel efni hennar og söguhetjum. Góður vottur um ástundun hans í þeirri grein er það, hve miklar mætur hann hafði á ensku ritningarstaðayfirliti nafntoguðu, **Cruden's Concordance.** Af engri bók sagðist hann hafa haft eins mikið gagn, nema ritningunni sjálfri, og þó voru honum aðrar bækur handgengnar. Þar á meðal var **Cleasby's** orðabókin norræna og enska, sem hann sagðist ekki geta án verið daglangt.

Engan mann hefi eg vitað bera dýpri lotning fyrir Guðs orði, heldur en séra Jón. Hann tignaði það og elskaði af öllu hjarta, taldi sjálfsagt að trúa því eins og heilögum, guðdómlegum sannleik. Þó flutti hann mönnum aldrei orðið með kirkjulegum myndugleik, eins og valdboð frá Guði. Las það aldrei yfir fólkinu eins og embættismaður væri að flytja mönnum konungsskipun. Í meðferð hans á orðinu var ætíð einhver ástúð, einhver innileikur, sem sýndi að trúin á Guðs orð var honum ekki utan að lærð, fornheilög kirkjutrú, heldur var hún sprottin af lífsreynslu sjálfs hans. Hafði sjálfur fundið í heilagri ritning dýrmætan sannleik Guðs, og vildi veita öðrum hluttöku í þeim fundi. Talaði því ætíð um orðið með óumræðiegri ástúð og innileik eins og maður við







menn, en ekki eins og kirkjuvaldsmaður við leikmenn. Aldrei gleymdi hann hinni mannlegu hlið orðsins, trúnni og tilfinningunni í hjarta ritarans eða söguhetjunnar. Gleymdi því aldrei, að það var ekki Guð sjálfur í eigin persónu, sem talaði, heldur guðinnblásinn rithöfundur, spámaður eða postuli, leiddur af anda Drottins. Orðið var honum ekki síður heilagt eða guðlegt fyrir þessu, heldur varð dýrmæti þess meira og sannara við þennan hjarta-lestur. Inngangskaflinn í páskalestri Guðspjallamála lýsir ágætlega þessari afstöðu séra Jóns gagnvart heilagri ritning.

Efnið þetta, sem nú var bent á, er eigi að eins hjartaatriði í kenning séra Jóns; það gengur nærri hjartarótum mannsins sjálfs. Þar er manninum lýst eigi síður en ræðunum. Þessu til skýringar vil eg benda á dóm, sem eins og ósjálfrátt var kveðinn yfir séra Jóni af almúgamanni, fyrir mörgum árum síðan. Safnaðarmenn lúterskir úti í prestlausri sveit hér vestan hafs höfðu haft þann sið, að koma saman á helgum til að hlýða á húslestur, og völdu einhvern úr sínum hópi fyrir lesara. Eitt sinn kemur einn af safnaðarmönnum að máli við nábúa sinn, sem var fremur lítill kirkjumaður, og fer að hvetja hann til að sækja húslestrana. Hinn tók því fálega. "Það hefir engin áhrif", sagði hann, "þó þið séuð að lesa þetta hver yfir öðrum, bændurnir. Annað mál væri það, ef einhver afburða guðsmaður væri kominn hér, og talaði ögn yfir hausamótunum á ykkur — einhver á borð við Abraham eða Móses eða Elías eða séra Jón Bjarnason". Það var orð og að sönnu. Almenningsálitið, sem oft er skarpskygnara en af er látið, sá einhvern andlegan ættarsvip með séra Jóni og trúarhetjum heilagrar ritningar. Samúðartilfinningin með öllu, sem lífsanda dregur, var sterk hjá honum, en hann fann ekki eins innilega til með neinum mönnum eins og með þessum hetjum í liði Drottins, sem í biblíunni koma fram á sjónarsviðið. Hann unni þjóð sinni hugástum, fann sárt til út af öllu.







sem að var hjá henni; þó voru hin ættarböndin enn sterkari, held eg. Það var eins og hann hefði lifað með þeim heilögu mönnum, setið við fætur þeirra, lesið hjörtu þeirra, tekið þátt í þrautum þeirra og gleði. Í þessu samneyti heilagra undi hann sér; þar hafði hann fundið hinn hjartfólgna lærdóm trúarinnar, sem hann lifði á. Afstaða hans gagnvart Guði og mönnum er afstaða þeirra, að svo miklu leyti sem honum með æfilangri umgengni hafði tekist að skilja hana.

Það var því ekki nema eðlilegt, þótt mikill hluti kenningar hans, — stundum alt að því helmingur ræðunnar — yrði lýsing, bein eða óbein, á persónunum, sem í þeim eða þeim textanum komu fram á sjónarsviðið. Skýringarnar á sjálfu söguefni textans fjölluðu miklu fremur um hið innra líf þeirra manna, sem um var að ræða, heldur en um hina ytri, sýnilegu hlið viðburðanna. Málverk voru til í ræðum hans, en ekki hreyfimyndasýningar. Það var eins og honum fyndist sjálfur boðskapur trúarinnar of heilagur til þess að skjóta þar inn í sjónleikaþáttum úr frásögnum ritningarinnar, hvað þá úr öðrum áttum. Til að skýra þetta betur vil eg benda lesaranum á innganginn að fyrirlestri séra Jóns, **Apologia pro vita sua.**[1]) Það er kvikmynd, skýr, kraftmikil, af uppþoti Gyðingaskrílsins, sem lagði hendur á Pál í musterinu í Jerúsalem. Svipaðri lýsingu man eg ekki eftir í stólræðum séra Jóns. Þar hefði hann lýst þrautum postulans og tilfinningum, fremur en uppþotinu sjálfu. Óefað er þetta ræðueinkenni sprottið af lotningu hans fyrir andlegum og heilögum sannleik trúarinnar.

Ekki kom hann heldur oft með sundurliðaðar sálarlýsingar, alsettar snjöllum athugasemdum um aðskilin smáeinkenni, eins og siður er margra góðra ræðumanna. Hann hélt sér ætíð að einu stóratriði, og beitti á það allri sinni snild og nákvæmni. Vann að því eins og málari, svo sem áður var bent á.

1) "Áramót", V. árg.







Hugsunin öll og málið um einhvern sérstakan svip, sérstakt einkenni, sem hann vildi sýna: Þjóðarást Mósesar og Páls, samblandið af ást og bölsýni hjá Tómási, sársaukahlutskifti Maríu — í einu orði sagt, eitthvert lærdómsatriði fagurt og hjartnæmt, fundið í andlegu lífi manna þeirra og kvenna, sem í þeim eða þeim ritningarkaflanum komu fram á sjónarsviðið. Lýsingarnar voru gjörðar af frábærri ástúð, af hugnæmum ekta innileik, eins og gagnkunnugur vinur skýrði frá, vinur, sem þessar söguhetjur heilagrar ritningar hefði opnað hjörtu sín fyrir af alhuga. Þessi viðkvæmi kunnugleikur er skýrasta hjarta-einkennið á ræðum séra Jóns, alveg eins og tilhneigingin til að halda sér við kjarnann eða heildina er svipmesta hugar-einkennið.

Þetta, sem nú hefir verið bent á, á þó sérstaklega við um lýsingar hans á Kristi sjálfum. Aldrei kom þetta andlega samneyti betur í ljós, aldrei varð þessi hjartans-innileikur hreinni og sannari, heldur en þegar séra Jón mintist á frelsarann, eða lýsti einhverju atriði úr lífi hans. Það var eins og hann hefði gengið daglega með Kristi, hefði setið við fætur hans, hallað sér upp að brjósti hans, fengið að sjá inn í hjarta hans og áunnið sér persónulega hlutdeild í gleði hans og sorgum. Hann bar djúpa lotning fyrir heilagleik og guðdómi frelsarans, og gleymdi aldrei að láta hana í ljósi, en því síður gleymdi hann mannlegu hliðinni. Guðseðlið fann hann í manneðli Krists, en ekki sérskilið, eins og þeim hættir við, sem lýsa honum eftir utanaðlærðum játningum. Það fanst honum aðal-gallinn á ræðum íslenzkra presta, hvernig þeir lýstu sífelt guðdómi frelsarans en ekki manndómi, svo að Krists-kenningin fékk á sig kirkjufræðablæ, og varð utan og ofan við mannlífið.[1]) Það var auðfundið á öllu, að ást séra Jóns á Kristi lá djúpt í hjarta hans og mátti sín mikils; hún skein tíðum út úr hverju orði ræðurnar út. Dýpt hennar og hlýleik geta menn fund-

1) "Íslands-ferð", "Sam." 5. árg., nr. 1.





ið, til dæmis í lestrum á fyrsta sunnudag eftir þrettánda, og á föstudaginn langa, í Guðspjallamálum.

Ráða má af því, sem þegar hefir verið sagt, hvernig séra Jón fór með kristindómsorðið sjálft í ræðum sínum. Það var biblíutrú, lifandi nýjatestamentis-kristindómur, hreint og tært lífsins vatn úr uppsprettunni sjálfri, sem hann hafði meðferðis. Kom með lærdóm trúarinnar beint þaðan, sem hann hafði fundið hann bezt lifandi, úr hjartalífi trúarhetjanna guðinnblásnu og frelsarans sjálfs. Í ræðum hans bar því lítið á sundurliðuðu kenningasafni kirkjunnar, eða á vana-helguðum fjálgleikaorðum eldri ræðumanna. Ekki svo að skilja, að hann væri ósamþykkur guðfræði kirkjunnar; því kenning hans stóð óbifanleg á hornsteinum sögulegrar kristni, en honum lét betur að halda sig sem allra næst upptökunum, og tala af eiginni reynslu um andleg efni. Um einstakar kenningar talaði hann því fremur lítið, nema þegar textinn gaf þar sérstakt efni til með ákveðnu atriði lærdóms eða trúvarnar, sem þar lá beint við, eða þegar honum þótti almenningur þurfa liðsinnis við út af sérstökum efasemdum.

Aðallega hélt hann sér því við meginmálið sjálft, yfirnáttúrlega hjálpræðis-opinberun Guðs í heilagri ritning, og hjartadepil þeirrar opinberunar, guðmanninn Jesúm Krist. Fastheldnin við þennan trúarkjarna skýrir bæði frjálslyndið hjá honum og eins ófrjálslyndið svo nefnda — bæði óbeit hans á kirkjulegum öfgum, sem alla kenningarliði vildu binda jafn fast og gjöra jafn mikilvæga, og eins baráttuna, sem hann átti í við ákveðna vantrú, sem alt vildi rífa niður, og óákveðna trú, sem öllu vildi slá lausu.

Þótt séra Jón kærði sig lítið um hina ytri hlið kirkjunnar, um tíðareglur hennar og aðra helgisiði, eða formið sjálft, sem hún hafði steypt kenningar sínar í, þá kom þó oft í ljós hjá honum djúp lotning fyrir kirkjunni sjálfri, og einlæg samhygð með



innra lífi hennar og hjartareynslu. Kirkjuárshugmyndin mátti sín mikils í huga hans. Hann mintist oft á hugsjónina, sem fólgin var í árstíðunum kirkjulegu — eins og föstunni —, í guðspjallavali þess eða þess sunnudags, eða í ýmsum fornheilögum og fögrum venjum hennar, eins og klukknahringingunum á hverri helgi, eða ljósadýrðinni á jólunum. Um þessa hluti talaði hann með hátíðlegri alvöru og fann í þeim gullvæga lærdóma. Sama má segja um tímamótin miklu í náttúrunni, vor og haust. Hann slepti þeim umtalsefnum aldrei fram hjá sér, þegar þau bar að í árshringnum — eins og sjá má á ræðuheitunum í Guðspjallamálum, til dæmis — og vildi ekki tapa misseraskiftunum íslenzku, sumarmálum og veturnóttum, út úr kirkjulífi voru hér vestan hafs. Ræður, sem að einhverju leyti fjölluðu um vetrarkomuna, birti hann hvert árið eftir annað í "Sameiningunni", eins og honum fyndist umhugsunarefnið út af þeim árstíðamótum eiga sérstakt erindi út fyrir kristinn almenning íslenzkan.

Eins og þegar var að vikið, þá bar mikið á trúvörn í ræðum séra Jóns. Hann talaði í því efni jafnt og stöðugt til samtíðar sinnar, gjörði sér glögga grein fyrir örðugleikunum, sem trúin í hjörtum kristinna manna á við að stríða á vorri tíð, bæði árásunum utan að og efasemdunum inni fyrir. Að bera saman ræður hans og lestra Jóns Vídalín, til dæmis, í þessu atriði, getur gefið mönnum glögga hugmynd um djúp það hið mikla, sem staðfest er í andlegum efnum milli samtíðarmanna hvors um sig. Kenning beggja var í fylsta mæli tímabær, en Vídalín tekur það oft fram, að meginmál trúarinnar þurfi ekki að verja, þar sem bein afneitun sé engin til í landinu; aftur á móti fann séra Jón svo mikla þörf á trúvörninni, að hún átti í fyrstu að verða aðalefni Guðspjallamála,[1]) og átti stór og mikilvæg ítök í þeirri bók, eins og frá henni var gengið seinast.

Trúvörnin, bein og óbein, kom fram hjá honum

1) Formáli Guðspjallamála, bls. IV og V.







með ýmsu móti. Mjög oft benti hann á óbeina sönnun fyrir innblæstri ritningarinnar, guðdómi frelsarans, eða einhverjum öðrum mikilvægum trúarlærdómi — sönnun, sem fólgin var í texta ræðunnar. Þetta var vanalega gjört með innskotsköflum í upphafi máls, sem oft voru mjög eftirminnilegir og sláandi. Aðal vörnin var þó oftast vitnisburður reynslunnar sjálfrar í lífi trúarinnar, dýrmæt áhrif trúarinnar á hug og hjarta, siðferðisgildi hennar og aðskilnaðurinn milli trúar og vantrúar í því efni.[1]) Tvö orðatiltæki, sem oft koma fyrir hjá honum, geyma í sér kjarna-atriðin í trúvörn hans. Hann lagði sterka áherzlu á undirgefnisskylduna. "Beygið yður undir vilja Guðs", var viðkvæði hjá honum. Öll vantrú og hálftrú var í hans augum sprottin af tilhneiging syndugrar mannssálar til að lúta engu nema verkum sjálfrar sín, til að hafa það eitt fyrir satt, sem hún sjálf gæti gjört sér grein fyrir, án sársaukans, sem fylgir djúpri sálarreynslu. Auðmýktar-þörfinni var stöðugt haldið að mönnum, bæði beinlínis og óbeinlínis, í kenning séra Jóns. Taldi óráð að ætla mannvitinu hátt upp í flugbjörgin,[2]) eða ervið og dularfull trúarefni. Betra að ráðast þar til uppgöngu, sem lægra væri fyrir, og virða hamrana fyrir sér með barnslegri lotning. Enda tókst honum sjálfum aldrei betur upp, heldur en þegar hann lýsti einhverjum háheilögum, ókleifum leyndardómi trúarinnar eða mannlífsins. Sú trúvörn fór honum ágætlega úr hendi; hún fylti hjartað heilagri lotning og aðdáun fyrir huldum vegum Guðs, svaraði spurningum þess betur en skynsemdarrök, köld og ófullnægjandi.

Og einmitt þetta, að veita hjartanu úrlausn, fremur en huganum, var hitt kjarnaatriðið í trúvörn hans. Hjartaleiðin var vegurinn fáfarni í trúmálum, sem reynsla hans sjálfs hafði fundið réttan. Kennimanns-köllun hans hin sérstaka, spámanns-erindið,

1) Sjá til dæmis: "Sviknar vörur á heimsmarkaðinum", Guðspjallamál, 8. s. e. trín.

2) Guðspjallamál, lestur á annan sd. í aðventu.







orðsendingin, sem hann var af Guði kvaddur til að flytja samtíðinni, finst mér hafa verið fólgin í þessum orðum, sem sýknt og heilagt hljómuðu, eins og viðkvæði, í allri kenning hans: **"að skilja með hjartanu"**. Oft létu þau í eyrum eins og rödd þess, er hrópar í óbygðinni. Því kynslóðin á hans tíð vildi grufla, bollaleggja, afneita, leiða sjálfa sig í allan sannleik, með hugargreind einni saman, þurru, köldu viti. Fátt verður séra Jóni þakkað betur þegar fram líða stundir, heldur en þetta, hve dyggilega hann tók svari hjartans á frekjufullri ofvita-öld.

Skynsemina mat hann þó alls ekki lítils. Bæði ræðuefnið sjálft og meðferðin bar æfinlega vott um þróttmikla hugsun. Það var æfinlega eitthvað frumlegt og gáfulegt við ræður hans — eitthvað, sem hann hafði fundið sjálfur og íhugað vandlega. Ekki sló hann heldur hendi við skynsamlegum rökum til varnar trúnni. Þau voru oft skýr hjá honum og sláandi. Sjálfan hornstein trúarinnar — upprisu Krists — taldi séra Jón bjargfastan í sögurökum, sem fullnægt hefði hverjum skynberandi manni, ef ekki hefði verið um yfirnáttúrlegt undur að ræða. Á þeim grundvelli stóðu svo hin meginatriðin fyrir augum hans, jafn sönn fyrir því, hvort þau urðu, hvert út af fyrir sig, fullkomlega sönnuð eða ekki.

Aðal-efni hverrar ræðu hjá séra Jóni var ætíð einhver trúarlífs-sannleikur, fundinn í heilagri ritning, og ræddur og heimfærður á andlega vísu, ef svo má að orði kveða, ekki leiddur fram á hið ytra sjónarsvið mannlífsins. Beindi máli sínu ekki svo mjög að dygðum eða góðverkum, heldur að dygðalífinu sjálfu inni fyrir og einkum um undirrót þess, lifandi trú á frelsaranum. Lestrinum á fyrsta sunnudag eftir páska, í Guðspjallamálum, voru eitt sinn í ritdómi gefin að yfirskrift orðin: "Vertu ekki vantrúaður, heldur trúaður".[1]) Sú yfirskrift hefði getað staðið yfir öllum ræðum séra Jóns. Hann var æfin-

---

1) F. J. Bergmann: Jónsbók hin nýja. "Aldamót," 1900.







lega trúboði í stól, en ekki lögmálsþjónn. Að vekja menn upp frá dauðri eða sofandi trú, að hjálpa seinfærri trú yfir örðugleika, það var hlutverkið, sem hann aldrei misti sjónar á.

Svo var og um hitt, að hann talaði fremur gegn **syndinni**, en **syndunum**. Beindi sjaldan stórri skothríð á einn löst sérstakan, eins og margir miklir ræðumenn hafa gjört, og fáir betur en Jón Vídalín í "reiðilestrinum" alkunna.[1]) Tæki hann einstakar syndir fyrir, þá var það helzt einhver tiltæki vantrúarinnar, enda var hún syndarótin, aðalsynd mannkynsins í hans augum.[2]) Hann sat sig aldrei úr færi að slá vopnin úr höndum hennar, vara við vélum hennar, hnekkja henni á allan hátt. Ekki svo að skilja, að hann léti sér siðferðislífið sjálft í léttu rúmi liggja; en hann lét öxina fremur ríða að rót lastanna en greinunum.

Stólkenning séra Jóns var því aldrei harðorð, nema þegar hann lýsti verstu tiltækjum vantrúarinnar. Hún var vanalega svo friðmild og blíð, að mörgum þótti kraftinn vanta. Þessu einkenni stakk svo mjög í stúf við það, hvernig hann beit af sér og sagði mótstöðumönnum óspart til syndanna, þegar því var að skifta, í ræðu og riti utan stóls, að sumum hætti við að hneykslast á mismuninum, og dylgjuðu jafnvel um tvískinnung. Andanum í Guðspjallamálum var einu sinni líkt við spariföt.[3]) Þar við er það að athuga, að séra Jón var skrýddur stólræðu-mildinni tvisvar á hverri helgi árið um kring, en hervæddist auðvitað miklu sjaldnar. En svo mikið skal þó fúslega játað, að í andlegum efnum átti hann fötin utan á sig og til skiftanna. Og sízt var vert að leggja honum það út til lasts. Því sálir manna má meta líkt og hljóðfæri, eftir hljómbrigðunum og tónsviðinu. Einum er varnað að komast hátt, öðrum

1) Lesturinn á sd. milli nýjárs og þrettánda, í "Jónsbók."

2) Sjá "Sam.", 4. árg., athugasemd við bréf frá J. Ól.

3) Sjá deilugreinar í "Sam." og "Breiðablikum" frá sumrinu 1908.







djúpt, sumir ná aldrei sterkum tónum, aðra skortir fín hljóð, en allir eiga þeir sammerkt í einu: Þeir eru ekki miklir fyrir sér andlega. Stórmennin eiga breytilegra sálarlíf; tilfinningar þeirra og skapsmunir ná yfir stærra svið en alment gjörist. Svo var um séra Jón. Lundin átti yfir stóru sviði að ráða, alt frá kvenlegri viðkvæmni, barnslegri auðmýkt og blíðu, til stórskorinnar karlmensku og bardagaeðlis, og henni var jafn-sýnt um hvorttveggja. Þegar hann átti tal við hjálparþurfa menn — eins og ætíð í ræðustólnum — þá bar auðvitað mest á viðkvæmninni; en þegar á trúna hans var ráðist eða setið fyrir henni, þá vaknaði ljónið í honum og þótti stundum ekki láta sem friðlegast. Enda mátti heita að hann sætti látlausri lastmæla-hríð í mörg ár út af kristnihaldinu. Séra Jón var líkur Jóhannesi guðspjallamanni í kenning, og skapið var ekki ósvipað heldur. Í prédikunarstólnum var hann eins og Jóhannes, lærisveinninn elskaði, sem hafði hallað sér upp að brjósti frelsarans, og bar vitni þeirrar reynslu í efni og orðavali. Í deilunum var hann eins og þessi sami Jóhannes — þrumusonurinn, sem langaði til að kalla eld af himni yfir óvini trúarinnar.

Ætla mætti að kenning séra Jóns hefði verið nokkuð tilbreytingarlítil og söm við sig, fyrst hann hélt sér alt af við kjarnann, trúarlífið, eins og frá var skýrt, en færði hann ekki út. Svo var þó alls ekki. Frumlegar tilbreytingar vantaði ekki, litbrigðin, dæmin utan úr mannlífinu, sem áður var lýst. Honum var viðbrugðið fyrir auðugt líkingamál, og það með réttu. Dæmin dró hann frá öllum sviðum lífsins, frá stórtíðindum og heimsmálum, sem í það og það skiftið ollu mestu umtali, frá blíðum og stríðum atvikum hversdagslífsins, úr sögunni, úr æfintýrum og skáldskap, úr svipbrigðum og tímaskiftum náttúrunnar. Í meðferðinni á dæmum þessum komu ætíð fram sömu einkennin: hepni og frumleikur í vali, viðkvæmni og djúpur hjartaskilningur á náttúrunni og lífinu. Því séra Jón skildi hvorttveggja á sama hátt og sannleika trúarinnar: með hjartanu.







Lotningin fyrir því sem hrikalegt er og háfleygt í ríki náttúrunnar kom víða fram í líkingum hans. Og eins viðkvæmnin. Hann fann til með öllu sem lifir, og fann jafnvel hjartaslög í dauðri náttúrunni. Sársauki og alvara lífsins vakti djúpa lotning hjá honum. Sársaukinn var honum heilagur leyndardómur, sem kristnum manni bar að beygja sig fyrir, eins og öllum óskiljanlegum stórmerkjum Guðs. Kenningin öll, og ekki sízt líknarmálið, bar á sér glögg merki um reynsluna, sem hann hafði sjálfur farið í gegn um. Hann var auðsjáanlega kunnugur þjáningum eins og meistarinn; fullreyndur maður eftir orðum postulans. Hafði í lífsbölinu fundið blessun, sem hann svo vildi vísa öðrum á — blessun trúarinnar. Ekki þó svo að skilja, að trúin tæki sársaukann burt úr lífinu — því hún bætti einmitt á hann, eftir kenning séra Jóns — en hún gjörði lífsbölið alt að dýrmætu helgunarmeðali í hendi Drottins. Líkingarmálið speglar hjá honum reynslu þessa og lífsskoðun víðast hvar.

Um líkingaauðinn hjá séra Jóni geta ókunnugir hæglega fengið ranga hugmynd eftir lofinu, sem hann hefir hlotið. Manni lægi næst að halda, að mál hans hefði glitrað alt í faguryrðum og glæsilegu hugmyndaskrúði. Svo var þó ekki. Hann var einmitt spar á málskrúð, og sérstaklega í stól. Undantekningar á þessu voru fáar, og finnast ekki nema tvær, held eg, í prentuðum ræðum eftir hann. Það eru lestrarnir, "Sjóferð lærisveinanna" (á 4. s. e. þrett.) og "Næturdýrðin" (á langa frjádag) í Guðspjallamálum. Í bæði skiftin virðir hann fyrir sér ægilega náttúrudýrð, og verður frá sér numinn — sleppir sér. Og það á alls ekki illa við þar, að hann fer í þennan algleyming, því lotningin fyrir ægilegum náttúru-stórvirkjum var alsystir trúarinnar hjá honum.

En vanalega fór hann mjög spart með litskrúðið. Líkingarnar einmitt fáar hjá honum, færri held eg, en hjá nokkrum öðrum manni jafn-andrík-







um, sem eg hefi þekt eða haft spurn af. En auðurinn var frábærlega mikill í hverri. Séra Jón dundaði ekki við smásmíði. Kom varla svo með dæmi eða líking, að ekki væri þar stórmerkur sannleiksfundur í fólginn; og eftir efninu var meðferðin. Það var háttur hans í ræðu og riti og jafnvel í daglegu tali, að hann dró upp skýra mynd af hverjum hlut, sem hann lýsti. Í þeirri list var hann afbragð annara manna. Og þá lá hann ekki á liði sínu, þegar um gott líknarefni var að ræða; því honum þótti hjartanlega vænt um slíka fundi. Gladdist yfir þeim, ekki eins og lagtækur maður yfir smíðisgrip, heldur eins og faðir yfir barni, sem Guð hefir gefið honum. Hann mintist einu sinni við mig á samlíking eftir sig, sem nokkuð hafði þótt stór í stykkinu; sagðist með engu móti hafa getað haldið henni heima, sér hefði þótt svo vænt um að finna hana. Ástfóstrið, sem hann tók við þessa happafundi, lýsti sér hvarvetna í framsetningunni hjá honum. Hann virti þau efni fyrir sér með ástúð, bjó þau sem vandlegast, hafði mikið við, hélt heyrendunum veizlu og leysti þá út með gjöfum. Enginn þurfti að fara tómhentur heim úr kirkju frá séra Jóni, allra sízt þegar dæmi nokkurt eða samlíking hafði komið í ræðunni, sem oftast var.

Um ræðu-flutninginn þarf ekki langt mál. Á hann lagði séra Jón litla áherzlu; var allur við efnið sjálft. Hann hafði rótgróna óbeit á ofsagangi eða tilgjörð í ræðustól. Hann sagði mér einu sinni frá mynd af vakningamanninum alkunna, "Billy" Sunday, sem hann hafði séð í einhverju tímariti. Sunday stóð þar útmálaður með ofsalegum reiðisvip, leiftrandi augum og steyttum hnefa — bókstaflega. Æsingin virtist loga í hverri taug. "Mér fanst eg sjá þar lifandi mynd af sjálfum djöflinum, eins og eg hefi alt af hugsað mér hann, frá því eg var barn", sagði séra Jón.

Prédikanir sínar las hann oftast af blöðum, en flutti tækifærisræður blaðalaust eða blaðalítið. En







um aðferðirnar munaði litlu á efni eða orðfæri. Málið var óviðjafnanlega fagurt, hreint og látlaust, jafn vandað fyrir því, þótt hann talaði "upp úr sér", — hvergi eins fagurt eins og í bænunum, sem aldrei voru skrifaðar. Framburðurinn fremur seinn, en alt af vakandi áhuga á efninu, að koma sem sannast og réttast orðum að því. Hvert orð svo hæfilegt, hver setning svo vel sögð, eins og hann hefði fært mál sitt vandlega í letur áður. Og þegar hann las af blöðum, þá var eins og hann lifði undirbúninginn upp aftur. Hugsaði hverja setningu um leið og hann las hana. Þuldi ekki í belg og biðu, né beitti huganum við áherzlur og framburð; hugsunin hvíldi á efninu með vakandi áhuga.

Allur framburðurinn bar vott um lotning fyrir kristindóms-orðinu. Þegar hann las í heilagri ritning eða flutti bæn, þá var eins og alt annað yrði að hverfa úr rödd hans fyrir innileikanum. Allar tilbreytingar og áherzlur — alt var horfið nema ástin og lotningin, líkt og þegar blíðan verður látlaus í samtali ástvina. Stundin var heilög og staðurinn, þegar séra Jón prédikaði. Maðurinn sjálfur, virðulegur ásýndum í ellinni, þegar eg þekti hann, sviphreinn og gáfulegur, með skörp augu, sem aldrei glötuðu vilja-eldinum, fremur spar á handafum og hreyfingar og veikraddaður, en röddin alvöruþrungin — mér fanst hann vera persónugjörfingur heilagrar alvöru, þegar eg sá hann í ræðustólnum.

Þetta, sem nú hefir verið lýst, eru alt einkenni sannrar mælsku. En mælskumaður var séra Jón þó ekki, í vanalegri merking þess orðs. Straumþungi var til í ræðunum, en ekki fossandi iðukast, sem alt hrifi með sér. Hann var ekki að flytja ræðu, þegar hann talaði — fanst mér stundum — hann var að hugsa upphátt. Eins finst mér lestrarnir eftir hann vera fremur hugleiðingar en ræður, þegar eg les þá. Setningarnar langar, áheyrandinn og lesarinn dreginn oftast á úrlausn efnisins fram undir ræðulok. Jöfnuður í áhuga og tilfinning; ekki rokur, sem







sumir ræðumenn temja sér til þess að hrista menn upp úr deyfðinni. Bæði efni og flutningur bar það með sér, að hann hafði fólkið sífelt í huga, en ekki sérstaklega fólkið, sem þar sat fyrir framan hann í kirkjunni, heldur allan hinn dreifða flokk manna, sem hann vildi út af lífinu ná til með kenning sinni, beinlínis eða óbeinlínis. Gat aldrei til fulls skilið við sig rithöfundinn. Það var því engin furða, þótt ýmsum þætti kenning hans fremur óáheyrileg. En kostirnir höfðu sín áhrif eins fyrir því, ekki fljótvirk ef til vill, en þá þeim mun staðbetri. "Fyrst þegar eg heyrði til séra Jóns", sagði kona ein við mig nýlega, "þá fanst mér það svo leiðinlegt, sem hann fór með, að eg gat varla hlustað á hann. En það leið ekki á löngu, að mér færi að finnast meira til um kenninguna, og eftir tímakorn fanst mér eg ekki geta í aðra kirkju farið". Svipuð þessu var reynsla margra annara, sem hlýddu á séra Jón.

Eins og eg sagði í upphafi, þá var ekki tilgangurinn með línum þessum sá, að leggja kost og löst í stólkenning séra Jóns á metaskálar. Einkennunum hefi eg reynt að lýsa; aðrir mega kveða upp dóminn, ef þeim sýnist. En eg fyrir mitt leyti þakka Guði fyrir manninn, eins og hann var. Ekki svo að skilja, að mér fyndist hann lýtalaus. En eg treysti mér ekki til að segja, á hvern hátt skapferli hans eða verklag hefði getað orðið endurbætt til muna, án þess að skemma kostina. En þá, sem þykjast hafa gjört upp lífsreikning hans og fengið annað svar, vil eg minna á eitt: vilji þeir bera rétt kensl á séra Jón Bjarnason, þá verða þeir að skilja hann, eins og hann sjálfur skildi lífið og kristindóminn — með hjartanu.







# Ritstörf.

Eftir séra Hjört J. Leó.

F leitast er við að gera grein fyrir efni og áhrifum rita, verður að taka til greina orsakir þær, sem ollu lífsstefnu höfundarins. Hver maður er barn sinnar tíðar að mjög miklu leyti. Hugsunarháttur hans og áhugamál myndast að flestu af áhrifum samtíðarinnar. Kemur þetta því skýrar í ljós, þegar um mikla menn er að ræða. Smámennin rita og ræða, en framsetningin er þokukend og áhugamálin óákveðin. Stórmennin setja mál sitt skýrt fram í riti og ræðu. Einkenni framsetningarinnar eru ákveðin, persónan leynir sér ekki. Og eftir því sem hugsjónir hafa manninn meir á valdi sínu, verða þær skýrari í huga mannsins sjálfs, og áhrif mannsins og starf hans ákveðnari.

Sama er að segja um lífsstefnuna sjálfa. Smámennin hafa reikular hugsjónir; reynast lausir í söðli við burtreið hverja. Stórmennin vaxa við þrautir. Mótstaða stælir lund þeirra og vilja. Ástin til hugsjóna eykst við þrautir og erfiði. Sönn móðir hjúkrar barni sínu nákvæmast þegar það er veikt. Sannur maður ann hugsjónum sínum mest er þeim er mestur fjandskapur sýndur. Hryggist hann af fáryrðum andmælenda, þá er það meir vegna málefnisins en sjálfs sín. Og því helgara, sem málefnið er, finnur sá, sem ann því, sárar til, er því er misþyrmt, en sárast, er liðsmenn fara að dæmi Víga-Styrs og







vega í eigið lið. Knýr þá ástin til málefnisins fram gremjublandin orð, og er það ei mót von. Líf hugsjónanna er líf hans, böl þeirra hans böl, sár þeirra hans sár. Hann lifir og starfar fyrir málefnið sitt. Og er hann hnígur að velli er helgasta þráin sú, að málefnið sigri. Í samanburði við það skiftir líf hans eða dauði litlu máli.

Þessar hugsanir koma óboðnar í huga minn, er eg minnist leiðtogans, sem lúterskir Vestur-Íslendingar syrgja mest og eiga mest að þakka, — dr. Jóns Bjarnasonar.

Vafalaust hefir séra Jón verið frábærum gáfum gæddur. Rit hans og áhrif öll bera þess ljós merki. Samt er óhætt að fullyrða, að áhrif þau, sem hann varð fyrir í æsku, hafa verið honum drjúgasta veganestið. Hann var mælskur í bezta skilningi þess orðs, sem svo mjög er vanbrúkað á vorri tíð. Samt var ekki mælskan undirrót áhrifa hans. Hann var lærður maður. Flestum lærdómsgreinum vissi hann deili á; í sumum hverjum jafningi þeirra sem bezt hafa lært. Þó náði hann ekki áhrifum fyrir lærdóm sérstaklega. Margir hafa verið honum jafnmælskir og jafn-lærðir; áhrifa þeirra hefir lítið gætt. Hann náði áhrifum vegna þess, að hann var **maður** í bezta skilningi þess orðs, — **hreinn maður** með sterkan vilja, göfugan tilgang og fórnfúsa sál. Og þetta fundu jafnvel þeir, sem atyrtu hann mest. Menn vissu ætíð **hvar** hann var, **hvað** hann vildi og **hvernig** hann vann.

Hugsjónir hans voru skýrar. Til þess að þær skýrist og göfgist þarf bæði einlægni og erfiði. Hann var einlægur maður og starfandi. Æfin varð að sönnu erfið fjallganga. Fjallaloftið er hreint. Og "uppá múlann" telur hann sig kominn um sextugs aldur, — ekki til að verða að nátt-trölli, eins og mælt hefir verið um það orðtak, heldur til þess að hljóta þá göfgi, sem þeir einir eiga, sem hafa sannfæringu, sem er þeim kærri en lífið sjálft. Þeir einir öðlast hana, sem mikið starfa og mikið biðja







og hvorttveggja af einlægum hug. Hann gjörði hvorttveggja.

Vegna þess varð sannfæring hans svo ákveðin, að þegar mælt var að ályktanir hans brytu bág við skynsamleg rök, var hann reiðubúinn að taka sér í munn hið fornkveðna, "Credo quia absurdum est" (Eg trúi, af því það er fráleitt). Hefi eg þó engan mann þekt jafnsnjallan í því að rökfæra mál sitt.

Og þegar eg nú leitast við að gera mér grein fyrir því, hvernig hann varð að þessum sanna og mikla manni, nemur hugur minn staðar við þetta tvent: áhrif náttúrunnar og áhrif heimilisins. Alvara og styrkleikur jökla, sanda og fljóta mótar huga hans í æsku. "Himnarnir segja frá Guðs dýrð", segir skáldið hebreska. Um hana vitnaði einnig öræfi Íslands í sál séra Jóns. Auðnin sjálf benti sálinni ungu á "nóttlausa voraldar veröld þar sem víðsýnið skín". Gróðurleysið bendir honum á gróðurþörf. Heimilisáhrifin benda honum á gæzku Guðs og fylla sál unglingsins ást til hans. Öræfin benda honum á tign Guðs og náð, en samtímis á þann sannleika, að án Guðs er veröldin gróðurlaus eyðimörk. Verður því öræfa-auðnin honum bæði ímynd "þess sem bezt er, og þess sem verst er í heimi". "Nóttlaus voraldar veröld" veitist engum nema fyrir náð Guðs, — þess Guðs, sem lætur jöklana benda þögult til hæða, og sandauðnina sýna gróðurleysi mannssálarinnar er hún rýfur samband sitt við Guð.

Jón Bjarnason gekk aldrei á alþýðuskóla. En heimilisfræðslan var honum því notadrýgri. Fer svo ætíð, er hún fæst. Um fermingaraldur var hann að æfa sig á því að þýða kafla úr einni af fornsögum vorum á latneska tungu, enda var sú tunga honum ætíð nær því eins eðlileg og móðurmálið, sem hann þó ritaði flestum betur. Má með sanni segja, að í því að rita íslenzkt mál hafi enginn Íslendingur verið honum jafnsnjall, þeirra er vestra hafa dvalið.

---

Mér er það verk ætlað, að skýra stuttlega frá







**þeim boðskap, er dr. Jón Bjarnason flutti í ritum sínum. Og vil eg nú láta hann fyrst af öllu sjálfan segja hvað fyrir honum vakti.**

**Á borðinu fyrir framan mig liggur ræða er hann flutti á kirkjuþingi í Argyle-bygð árið 1904. Hygg eg, að þar komi einna skýrast fram mergur málsins í kenningum hans, í stuttu máli:**

"Þér, sem eruð að hugsa um hve lítil trúin yðar er, og viljið nú þar af leiðandi biðja Drottin yðar og frelsara að auka þessa litlu trú yðar og vor allra, svo hún dugi til starfsins og stríðsins er fyrir liggur, gætið að því, rannsakið það á undan öllu öðru, hvort þessi litla trú, sem þér hafið, er nú virkilega þess eðlis, að hún geti tekið þroska og framförum. Er hún virkilega lifandi? Hefir hún í sér möguleik til þess að vaxa? Hefir hún nokkur lífsteikn? Er það ekki dauð trú, einskis verð bókstafs-trú, ávaxtarlaus vana-kristindómur? Ef svo er, þá er til ónýtis að biðja um aukningu á þvílíkri trú.

Dauða trúin er sama sem ekkert — oft miklu minna og verra en ekkert, og að biðja um aukning á því, sem er ekki neitt eða þar fyrir neðan, er meiningarleysa, eða jafnvel óhæfa. . . . . . . . . .

"Í hverju sýndi það sig að bæn þeirra (lærisveina Jesú) var einlæg og ekta? — Það sýndi sig í því, að þeir, undir handleiðslu Drottins, framfylgdu þessari bæn, með lífi sínu. Lífið þeirra leitaði í sömu áttina eins og bænin. Þeir lögðu fram alla sína orku, alt sitt líf, til þess að bænin þeirra um aukning á trúnni þeirra gæti orðið heyrð".(1)

**Mér virðist þetta vera sem bergmál af tólfta kapítula Rómverjabréfsins.**

**Ári síðar standa þessi orð í forsetaskýrslu hans:**

"Mótspyrna gegn kirkjufélaginu frá erindsrekum vantrúarinnar, sem nú í síðustu tíð, eins og reyndar oft áður, hefir verið mjög illkvittin og ofsafengin, er í mínum augum ekki mikið hættuleg. . . . . . . . . Það, sem lang-mest er fyrir oss að óttast, er dauður vana-kristindómur hjá safnaðarlýðnum. Góður Guð gefi oss náð til þess að afstýra þeirri hættu hvervetna með biðjandi alvöru í Jesú nafni".

---

(1) "Auk þú oss trúna". Kirkjuþingsræða. Aldamót 1904.





Hvað áleit þá dr. Jón Bjarnason aðalatriði kristindómsins? Í prédikun út af Jóh. 3 : 16, árið 1892 kemst hann að orði á þessa leið:

"........ Haldi maður því orði, sem textinn inniheldur, eins og persónulegri eign sálar sinnar, trúi maður virkilega í insta grunni hjarta síns á hinn stutta boðskap textans, þetta stutta brot af prédikan Jesú Krists, þá er hinn sami maður í sannleika kristinn maður. En neiti maður inst í sálu sinni því, sem Jesús Kristur heldur fram hér í textanum, því öllu í heild sinni, eða meira eða minna broti af þeirri heild, þá er ómögulegt að telja þann mann sem kristinn mann; sá maður getur ekki talist lærisveinn Jesú Krists. Svo maður getur þá hiklaust haft þetta stutta orð textans fyrir prófstein á trúna sína eða lífsskoðanina sína".(1)

Eg hefi tekið upp ofanritaða kafla úr ritum séra Jóns, ekki vegna þess, að þeir séu öðrum fremur sérkennilegir, heldur vegna þess, að þetta virðist mér lykillinn að því að skilja lífsstefnu hans og ritverk. Kenningin um friðþægingunu var honum alt. Það var allur kristindómurinn, í augum hans, að þiggja þá frelsun, með hjartanlegu, klökku þakklæti og ást til frelsarans fyrir þessa náð. Því meiri sem maður er, því betri sem hann er, því glöggar sér hann eigin ófullkomleika, eigin synd.

Hann var samvizkusamur maður með afbrigðum og hreinskilinn að sama skapi. Hann hræsnaði ekki, hvorki fyrir sjálfum sér né öðrum. Hann sá sínar eigin syndir og syndir annara og ekkert var honum fjær skapi, en að varpa nokkurri ósannri glitblæju yfir þær, eða nefna þær nokkrum gælunöfnum.

Augliti til auglitis við heilagan Guð sá hann sína eigin synd, — myrkrið hið dimma, "sem verður svo voðalega dimt", andspænis fagnaðarerindi kristindómsins. Og æfilöng þjónusta, af öllum kröftum og óskiftum huga verður þá sjálfsögð og ljúf. Á þann eina, undur-ófullkomna hátt getur maðurinn sýnt að sig langi til að endurgjalda þessa gjöf Guðs.

---

(1) "Að frelsast, að glatast". Prédikun. Aldamót 1892.

Öllum ætti nú að geta skilist eftirfylgjandi atriði:

1. Að sú trú, sem hann átti og boðaði, var enginn vana-kristindómur, hvað oft sem vesturíslenzkri kristni er borið á brýn að hún krefjist trúar, en ekki verka.

2. Að Jón Bjarnason var enginn "bókstafstrúarmaður", eins og það orð er við haft, heldur kunni vel að greina kjarna frá umbúðum.

3. Að afstaða einstaklingsins gagnvart friðþægingarkenningunni er "prófsteinn" trúar hans eða vantrúar.

Um annað atriðið verð eg að bæta við fáeinum orðum. Einu sinni sem oftar var eg gestur á heimili séra Jóns. Ræddi hann þá sem oftar um hið kirkjulega ástand Vestur-Íslendinga. Eg spurði hann hvort hann teldi sumar sögur gamla testamentisins, sem vantrúin hefir oft gert að skotspæni, jafn-áríðandi boðskapnum um Jesúm og endurlausn hans. Eg sá strax að spurningin var mjög barnaleg. Lét hann þó ekki á sér skilja neitt í þá átt, heldur svaraði blátt áfram á þessa leið: "Það er ekkert í biblíunni jafn áríðandi því aðalvígi kristindómsins. ...... En vér vitum að andstæðingar vorir skjóta háðsörvum sínum á þessi útvígi, með þeim ásetningi að verða aðalvíginu að grandi. Þó útvígin sé ekki eins mikils virði, eins og aðalvígið, er samt skylt að verja þau vegna þeirra eigin gildis, en einkum vegna þess, að áhlaupið á þau sérstaklega er til þess gert, að hylja aðaltilgang áhlaupsmanna".

Þetta var efnið í svari hans.

Í þessu sambandi vil eg benda á ummæli hans um "útskúfunar"-kenninguna:

"Ein örlega-rún, sem heitir *ef*, hefir ritað verið af ósýnilegri hendi fyrir framan upphafið á æfisögu hvers einasta lífs í þessari jarðnesku heims tilveru. Og sú rún bendir á það, að það sé öldungis óvíst og óákveðið, hvað verður úr þeirri æfisögu, hvernig fer fyrir því lífi, sem æfisöguna á. Ef ekki kemur fyrir neitt slys, þá nær þetta líf sínu

takmarki, ferðin hepnast, æfisagan verður það, sem hún átti að verða. En ef lífið verður fyrir slysi, þá nær það ekki takmarkinu, ferðin mishepnast, æfisagan verður að sorglegri tragedíu. Og því hærra og göfugra sem þetta líf er samkvæmt eðli sínu, er verður fyrir slysinu, því meiri og hryllilegri tragedía verður æfisaga þess. Svona er það, að því er jarðneska, líkamlega lífið snertir. Og þá eru sannarlega komnar meira en lítið sterkar líkur fyrir því, að með tilliti til hins andlega lífs sé sama lögmálið ráðandi· ........ Ef mannsandanum tekst að komast hjá slysi, lenda undir afli þess illa, þá er alt gott; hið andlega líf þess manns hepnast þá; hann nær sinni andlegu ákvörðun. En ef ekki, verði hann fyrir slysinu, þá hlýtur hann andlega að misfarast; hann glatast andlega. Og þar sem hinn andlega lífsmöguleleiki er svo óendanlega mikill, hin andlega ákvörðun mannsins svo guðdómlega há, þá er auðvitað, hvílík hræðileg tragedía það verður, þegar þetta slys kemur fyrir og allur hinn óendanlegi fullkomnunar-möguleleiki er eyðilagður. Slíka tragedíu eða harmsögu kallar hið kristilega tungumál *glötun*, og skynsemin neyðist til, hvað sem tilfinningar vorar segja, að viðhafa sama orðið ........ Sú glötun sem hann (kristindómurinn) talar um, er .... fólgin í því, að tilvera einstaklingsins hættir aldrei, en hann hefir mist möguleleikann til að ná sinni ákvörðun, verða sæll og fullkominn, og er fyrir bragðið orðinn eilíflega vansæll".(1)

Nú virðist mér að létt verk sé að benda á í örfáum setningum og komast að hjartapunktinum í skoðunum séra Jóns Bjarnasonar. Hann virðist mér vera þessi:—

1) Hver einstaklingur á fyrir höndum eilífa tilveru.

2) Ákvörðun mannsins er eilífur þroski,—fullkomnun.

3) Fullkomnunina, þroskann, öðlast enginn maður af eiginn kröftum.

4) Jesús,—Guð og maður,—hefir boðið oss frelsun og eilífan þroska. Hann, og enginn annar,

(1) "Það sem mest er í heimi". — Fyrirlestur. — Aldamót 1893.

er fær um að fyrirgefa syndir og endurfæða sál mannsins.

5) Það að trúa á hann af öllu hjarta, og fela sig honum algjörlega, veitir þroskann eilífa.

6) Sá, sem ekki fæst til þess, fer á mis við sína eilífu ákvörðun, verður fyrir slysi, nær ekki fullkomnun,—glatast.

Þetta og ekkert annað vakti fyrir honum. Búningur kenninganna lá honum í tiltölulega léttu rúmi. Og allir geta séð að búningur sá, sem hann velur þessari kenning, er ekki búinngur nýja testamentisins, en kjarni hugsunarinnar er sá sami. Líkingarmál, austurlenzkar málvenjur, ólíkan hugsunarhátt þjóða, skáldlega framsetning m. fl. kannaðist hann fyllilega við. — En hann vissi einnig hvað oss er gjarnt til að varpa á glæ kjarnanum með hýðinu. Og hann sá glögt, hvert allur þorri andmælenda stefndi. Sá **vandalismus** var í augum hans sama sem tímanleg og andleg glötun þjóðarinnar. Hver einasti fyrirlestur hans, hver einasta prédikun, sem prentuð er í "Guðspjalla málum" eða annars staðar, hver einasta blaðagrein, var til þess rituð að verja Íslendinga fyrir því böli.

Hinn fyrsti fyrirlestur hans, er eg hefi með höndum, er frá árinu 1891(1). Höfundurinn sýnir þar fram á, hvaða áhrif vantrúin hafi á líf manna, hugsunarhátt og framkvæmdir. Eg vil tilfæra eftirfylgjandi kafla:

"Gangur vantrúarinnar er eftirtektarverður. Hún fer með einstaklinginn og eins heila mannflokka í nokkurs konar andlega hringferð. Hún byrjar vanalega, eg held helzt æfinlega, á því að neita tilveru djöfulsins, og þar með fylgjandi auðvitað eilífðardómi Drottins, hinni svokölluðu fordæming. ........ En þegar það er fallið, þá fer brátt að losna um margt annað í kristindóminum. Endurlausnarlærdómurinn er óðar í veði. Hann verður þá óþarfur og

(1) "Það sem verst er í heimi". — Fyrirlestur. — Aldamót 1891.



ólíklegur. Guðdómur Krists eins. Kraftaverkin verða ósennileg. Þeim er neitað og þar með aðalkraftaverkinu, því, sem einmitt staðfestir guðdóm Jesú, upprisu hans frá dauðum. Hinn guðlegi innblástur heilagrar ritningar, og þar með fylgjandi áreiðanlegleiki hennar er þegar að sjálfsögðu fallinn. Hverju á nú að trúa, þegar alt þetta er farið? Orð Jesú Krists geta ekki leiðbeint manni lengur með neinni vissu, því hann er fyrir hina vantrúuðu hugsun blátt áfram orðinn einn af oss, ófullkomnum, takmörkuðum, syndugum mönnum. Ekkert fullkomlega guðlegt orð er lengur til, sem geti sagt manni, hverju óhætt sé að trúa. Af sínu eigin skynsamlega viti verður hver maður að segja sér það sjálfur. Er nokkur lifandi Guð til? Ef hann er til, þá er sjálfsagt að trúa á hann. En skynsemin ein getur ekki fundið hann. Hún finnur ekkert, nema tóm náttúruöfl. Og með dauðanum sýnist allri lífstilveru lokið. Von eilífs lífs getur skynsemin ekki gefið. Og þegar sú von fæst ekki, þá er lífið greinilega orðið tál. ........ Guð er horfinn og það, sem upphaflega sýndist gott, missir óðum gildi sitt. Eilífðargildi hefir það ekkert, og fyrir þetta stutta jarðneska líf borgar það sig miklu síður en það, sem ilt er kallað. Eitthvert ósýnilegt afl hlýtur þó að standa á bak við heimstilveruna. Hún er ekki annað en tál. Ekki getur þá aflið ósýnilega, sem hún á rót sýni að rekja til, verið gott afl. Það hlýtur að vera ilt afl. Heimstilveran hlýtur að vera ill tilvera. — Nú hefir vantrúin lokið sinni hringferð. Hún byrjaði upphaflega með því að neita tilveru djöfulsins. .... Undan þeim djöfli, sem vantrúin hefir búið til er ómögulegt að flýja fyrir neina mannssál. Hann er einvaldur yfir gjörvallri tilverunni. ........ Eg endurtek þessa mína staðhæfing: Vantrúin hefur sinn gang með því að segja, að enginn djöfull og ekkert helvíti sé til, og svo þroskast hún sínum náttúrlega vexti þangað til í ímyndan hennar djöfullinn ræður yfir allri tilverunni. ...... Hún byrjar sem optimisti. ...... Syndin svona alment léttist smám saman á metaskálunum, þangað til hún missir allan sinn þunga, er ekki lengur neitt hættuleg. Það er slegið stryki yfir hana. Hún er ekki lengur til. Það er óhætt að dansa í gegn um lífið upp á það. ...... Það dimmir í lofti. Sólskinið og veðurblíðan hættir. Maður er staddur í biksvartri þokunni, og svo skellur á stormur og stórhríð, sem alveg gerir út af við hina upphaflega björtu lífsskoðan. Í staðinn fyrir allan optimismusinn kemur nú pessimismus, sú trú að alt þetta góða og





bjarta, sem áður sást, hafi aðeins verið ímyndan, töfrasjón, stundartál, sé í rauninni ekki til, aðeins þetta illa og fagnaðarlausa, sem nú er fyrir augunum, — aðeins það sé til".

Svo færir hann sannanir fyrir þessum þunga dómi. Hann bendir á svartsýnið í realista-skáldskapnum, sýnir að einkunnarorð þeirra sé í raun og veru niðurlagsorðin á kvæði Kristjáns: "Von er lífsins verndarengill, von, sem þó er aðeins tál". Og fegurð þess skáldskapar sé í raun og veru samskonar og náttúrufegurð Íslands — eins allra eyðilegasta klettabeltisins þar: "dauðans fegurð".

Optimismus verði að pessimismus, idealismus að realismus. Öfgarnar hvorutveggju beri að varast. Stefnuleysi, afleiðing öfgafullrar hugsæis-stefnu; örvænting, afleiðing bölsýnis. Undirrót hvorutveggja er skortur á lifandi kristindómi. Síðar í sama erindi stendur þetta:

"Eg hverf nú burtu frá skáldskapnum, og inn í virkilegleikann, hinn sögulega íslenzka virkilegleika. Hafið þér ekki tekið eftir því, hve örðugt allur félagsskapur með ákveðnu prógrammi eða fast afmarkaðri trúarjátning á uppdráttar meðal fólks vors, bæði heima á Íslandi og hér vestra? Það hefir að vísu öll lifandi undur verið talað um frelsi og framfarir af oss Íslendingum á þessum síðustu tímum. Og að félagsskapur sé nauðsynlegur til þess að styðja frelsið og framfarirnar, því virðist fólk alment ekki hafa neitt á móti. En þegar á að fara að ákveða í hverju þetta, sem kallað er frelsi og framfarir sé fólgið .... þá vandast leikurinn. Í prógramslausan, trúarjátningarlausan, og þar af leiðandi stefnulausan félagsskap vill fjöldi Íslendinga langhelzt ganga. ...... Hann er svo vinsæll fyrir þá sök, að hann samsvarar nákvæmlega hinni óákveðnu og fálmandi frelsishugmynd, sem ríkjandi er hjá þjóðinni. .... .... Allir óákveðnu og stefnulausu demagógarnir, sem ekkert prógramm hafa og snúast svo eins og vindhanar á húsburst eftir því sem vindurinn blæs, — allir slíkir mynda Skylla og Karybdis í mannfélaginu, hvar sem þeir eru staddir".

**Umbrotin og ærslin, sem hafa einkent íslenzkt þjóðlíf í síðustu tíð, sýna glögt hve skýrt séra Jón Bjarnason sá boðana framundan.**

Fyrirlestrar hans allir, undantekningarlaust, eru í insta eðli sínu mótmæli á móti hálfleik, "vanakristindómi", öfgum, óákveðni, vantrú og hræsni.

"Íslenzkur níhilismus" sýnir hvað gjarnt oss er til að "þrá ekki neitt".

"Helgi hinn magri" — alvarleg en sönn ádeila, — mótmæli gegn vana-kristindómi.

"Mótsagnir" benda á sum þau takmörk, sem mannsandinn verður að viðurkenna og nema staðar við. "Forlög" — spurningin óleysanlega um forlög og frívilja rædd, en takmörk skynseminnar viðurkend.

Svona mætti lengi upp telja, en það væri öldungis þýðingarlaust. Það gæti aldrei orðið annað en orð, orð, innantóm. Til að lýsa **efninu** margbrotna í fyrirlestrum hans, þyrfti marga fyrirlestra. Verð eg í því efni að vísa til fyrirlestranna sjálfra. Hitt vil eg reyna, að benda á sum þau einkenni höfundarins, sem rit hans bera vott um.

**Skáldlegt hugmyndaflug.** Vér Vestur-Íslendingar höfum eignast marga hagyrðinga og fáein skáld. Í mínum augum er Jón Bjarnason mest **skáld** þeirra allra, þótt hann aldrei, mér vitanlega, færði ferskeytlu í letur. En ritverk hans öll eru þrungin af skáldskap. Eg samsinni hjartanlega þau ummæli séra F. J. Bergmanns um "Guðspjallamál" að þar sé boðaður "kristindómurinn allur, í fyllingu sinni, en ekkert brot af kristindómi"(1), þó eg að hinu leytinu hiki við að samsinna þau ummæli hans að bók sú "beri ægishjálm yfir öll slík prédikana-söfn, sem vér eigum á vorri tungu, að Vídalínspostillu einni undanskilinni". En hitt álít eg vafalaust, að frá skáldlegu sjónarmiði er þetta réttdæmi. Svo að segja hver einasta prédikan ber vott um skáld, sem ekki gengur við hækjur. Málið er víðast hvar líkingamál. Einföldustu atriði úr daglegu lífi verða teikn þess ósjáanlega og eilífa. Dýpstu og erfiðustu

(1) "Undir linditrjánum". — Aldamót 1900.

spurningar mannsandans hljóta skýringar, sem hjartað skilur, þó heilann bresti þrek. Myndbreytingar náttúrunnar, allur geimur Guðs, ljós og myrkur, hiti og kuldi, verða að ljósteiknum lífsins, eða rúnum feigðarinnar og dauðans. Þetta er einkenni flestra prédikananna. Stundum verður þessi skáldlegi búningur svo fagur, að maður veitir honum engu síður eftirtekt en aðalefni prédikunarinnar, og er þó hver einasta þeirra þrungin af kristindóms-alvöru. — En það er ekki í Guðspjallamálum einum að þessi skáldlega snild birtist lesendum. Flestir fyrirlestrar höfundarins hafa sömu einkenni. Sem sýnishorn vil eg benda á kafla úr fyrirlestrinum "Eldur og Eldsókn". Höfundurinn byrjar með því að segja gamla og, að því er virðist, fremur efnislitla þjóðsögu, um systurnar þrjár, Ásu, Signýju og Helgu. Söguna þekkja langflestir eldri Íslendingar. — Skáldið lætur eldinn, sem þær systurnar áttu að sækja, tákna kristna menning. Eldurinn fæst ekki nema með sársauka. Eldsóknin er háð hættum óteljandi. Sumum, er leita eldsins, verður hann til eyðingar, öðrum til uppbyggingar. Menning heimsins er síendurtekin eldsóknarferð; leið sársaukans og þolgæðisins er leið gæfunnar. Andlega ástandið Ásu og Signýjar veldur því að eldsóknin þeirra mishepnast.

"Aðeins sá maður, sem eins stendur andlega á fyrir og yngstu systurinni, Helgu, í æfintýrinu, er hæfur til að sendast í svona löguðu erindi. .... Hann verður eldsækjendunum sjálfum, slíkum eldsækjendum, æfinlega til blessunar .... .... Eg sé það svo greinilega sem verða má, þegar eg horfi á eldinn eða hugsa um eldinn, hve varlega verður að fara með alt það bezta, sem lífið hefir að veita. Eg sé hvernig á því stendur, að þjóðirnar hafa einatt, þegar mentan og íþróttir stóðu hjá þeim í hvað mestum blóma, verið sem óðast að sökkva niður í vansælu og eymd. Og eg skil jafn-vel, hvernig því víkur við, að einstakir menn, sem í raun og veru hafa komist yfir svo og svo mikið af gæðum lífsins, verið leiddir að virkilegum sælu-uppsprettum, fundið óskastein hamingjunnar og halda á honum í hendinni, eru vansælir menn, enn þá miklu vansælli heldur en þeir hefðu

verið, ef þeir hefðu ekki neitt haft af þessum góðendum lífsins að segja. Eg get lesið alla framfarasögu heimsins út úr eldinum. Eg get lesið alla söguna um sæluna og sársaukann í lífi mannkynsins út úr eldinum. Eg get lesið hið eilífa lögmál lífsins og dauðans út úr eldinum. Gjörvöll framfarabarátta þjóðanna og mannkynsins yfir höfuð að tala er fólgin í því, að það er verið að sækja eld og bera hann inn á heimilisarin hinna einstöku þjóða eða mannkynsins í einni heild. Það gengur mjög misjafnt í þeirri eldsóknarsögu. Sumir ná engum eldi, eins og þegar hefir verið á bent. Hann fæst aldrei fyrirhafnarlaust, því ekkert, sem ágætt er í sjálfu sér, má fást, eða getur fengizt, á þann hátt. Sumir skaðbrenna sig á eldinum, og suma jafnvel gleypir hann lifandi, leiðir yfir þá algjöra eyðilegging. Og þó að eldsóknin hafi fullkomlega hepnast og mönnum takist að búa svo um heima hjá sér, að hann geti ekki dáið, vill altaf öðru hvoru falla á hann fölskvi. Svo við og við þarf altaf að vera að lífga hann við. Og sú sífelda viðlífgan eldsins er eins og ný og ný eldsókn".(1)

Hinn tilfærði kafli er aðeins lítið sýnishorn þeirrar skáldlegu snildar, sem þetta stór-merkilega erindi hefir til brunns að bera. Búningurinn er látlaus, stíllinn hreinn. Engar myndir dregnar. Frá hlutsæu (objective) sjónarmiði er hér ekki um skáldskap að ræða. En er eg lít á þennan tilfærða kafla, og erindi það í heild, sem hann er hluti af, frá hugsæu (subjective) sjónarmiði, verð eg hrifinn af þeirri arnhvössu andans sjón, þeim frábærlega skýrleik hugsunarinnar og því víðsýni, sem þar birtist. Er þó kaflinn tilfærður, svo að segja, af handa hófi.

Annað einkenni, sem eg vil benda á, er **hugsana hreinleikur** og **ákveðni**, enda eru þau einkenni nátengd því, sem eg hefi nú þegar bent á. Vel eg sem sýnishorn ályktunarorð séra Jóns um afstöðu sýna í trúarbaráttu þeirri, sem hann átti í.

"Eg hugsa nú aðeins um oss að því leyti sem vér erum lúterskir kirkjumenn. Og skal eg hátíðlega gjöra þá játning fyrir yður öllum á þessu kirkjuþingi, að þó að eg af hjarta trúi á hið sameiginlega hermerki vort, trúarjátning lútersku

(1) "Eldur og eldsókn". — Fyrirlestur. — Aldamót 1896.

kirkjunnar, og telji hana hiklaust fullkomnast og göfugast allra merkja, sem kristnir menn um víða veröld bera fyrir sig, og þó eg alt af hafi haft þessa sannfæring frá því fyrst er eg fyrir réttum 20 árum með veikum kröftum og skjálfandi hendi fór að eiga við kirkjulegt starf meðal landa minna hér í Ameríku, þá hefi eg margoft haft sterka freisting til þess að gefast upp, leggja árar í bátinn, og láta hann og sjálfan mig berast til baka fyrir andstæðum straumi, er brátt fór að verða merkjanlegur, inn í hina gömlu íslenzku þokuna. Eg þekti talsvert til trúarlegra öfga, sem áttu heima og eiga enn heima í kirkjunni, og meðal annars í hinni lútersku kirkju hér í landinu. Og mér stóð af þeim stuggur, en á hinn bóginn þekti eg engan veginn til hlítar þá sannleiksauð þann hinn mikla, er felst í hinni sameiginlegu játning kirkju vorrar. Eða mér fanst hann, ef til vill, myndi vera meiri en svo, að áræðandi væri fyrir mig að kasta eign minni á hann. Það leit út fyrir, að þar gæti verið meira fólgið í en eg væri maður að standa við. En brátt varð mér ljóst, að ef nokkuð ætti að verða úr kristindómsprédikaninni, ef kirkja vor hér ætti að halda lífinu, þá varð að taka með inn í kenninguna og kirkjutrúna alt, undantekningarlaust, sem hin lúterska kirkja hefir ritað á merki sitt með sinni sérstöku trúarjátning. Sannleikurinn kristilegi var þar allur og það þurfti að taka hann allan jafnt til greina, ef verkið ætti ekki að verða onýtt hálfverk. ........ Var ekki hætt við því, að vér gjörðum oss seka í þeirri ljótu synd, hræsninni, ef vér drægjum hið kirkjulega hermerki vort, hina lútersku trúarjátning, algerlega upp, hafandi hugboð um það, að ennþá meira kynni í henni að liggja en vér værum menn við að standa? En var ekki líka hætt við því, að vér yrðum hræsnarar ef vér tækjum að eins nokkurn part af hinum opinberuðu sálarhjálparsannindum kristindómsins með oss til hinnar kirkjulegu starfsemi? ...... Vér hlutum að tileinka oss sannleikann allan, kasta eign vorri á trúarjátning kirkju vorrar alla, draga hið hreina lúterska kirkjuflagg algjörlega upp, ef verk vort hið kirkjulega ætti ekki að vera stefnulaust, ónýtt hálfverk, og vér sjálfir, jafnt og stöðugt að ganga með þeirri meðvitund innanbrjósts, að vér værum hræsnarar. ...... Vantrúin dró upp merki sitt skýlaust. Og svo hlutum vér þá líka að draga upp alhreint kristilegt trúarmerki".(1)

(1) "Út úr þokunni". — Fyrirlestur. — Aldamót 1897.

Vegna þess að hann var ákveðinn maður sjálfur, gat hann ekki þolað hálfleikann í nokkurri mynd. Sú stefna, að láta reka á reiða, var honum viðbjóður. Þokukend hugtök, óákveðin hugsun um nokkurt mál, var í hans augum óhafandi. Af því leiddi og, að það, að hafa tvær kirkjulegar stefnur í sama félagi, var í hans augum hið sama og bregðast sannleikanum sjálfum. Það, að trúa einhverju af öllu hjarta, krefst skýlausrar, skýrrar játningar þess, sem trúað er. Og þá kemst þar ekkert að, sem gagnstætt er að eðli og framsetning.

En samhliða þessu, ef til vill vegna þessa, var séra Jón mjög **víðsýnn maður og frjálslyndur,** hvað oft sem hið gagnstæða er borið fram. Við, sem unnum með honum um lengri eða skemmri tíma, vitum vel um það. Á prestafundum virtist mér hann frjálslyndastur prestanna allra, en um leið ákveðnastur. Vel skildi hann það, að hugsanir manna eru ekki í sama móti steyptar, og það er öldungis eðlilegt að skoðanir skiftist þegar um aukaatriði er að ræða. Um þetta efni hafa honum farist orð á þessa leið:

"Eg hefi ekkert út á það að setja, að skoðanir manna innan sömu kirkjudeildar sé talsvert skiftar um ýmislegt hinni sameiginlegu trú og kirkju viðkomanda. Svo lengi sem þar er aðeins um auka-atriði að ræða, eða svo lengi sem auka-atriði eru ekki gjörð að aðal-atriðum, getur alt vel farið, og skoðanamunurinn meira að segja verið kristindómslífinu til eflingar. ...... Það getur ekki sært hina kristilegu trúartilfinning hjá neinum, þótt því sé haldið fram, sem eg hefi gjört, að Íslendingar hafi beðið stórtjón af lífsstraumi þeim, er til þeirra hefir mannsaldur eftir mannsaldur og öld eftir öld komið úr höfuðstað Danmerkur. ...... Þegar um biblíu-krítikina áminstu er að ræða, þá er alt öðru máli að gegna. Þar er sú kredda sem vita mátti um fyrirfram, að særa myndi tilfinning margra vel kristinna manna, eigi síður hjá þjóð vorri en hverri annari. Enda er enginn vafi á því, að það, sem í liðinni tíð hefir sagt verið opinberlega á íslenzku í þá átt, hefir þegar hneykslað ekki svo fáa Íslendinga. Og það mjög eðlilega fyrir þá sök, að sérkenning þessi eða kredda gengur meginmáli kristindóms opinberunarinnar, miðpunkti trúarinnar á Jesúm Krist,

svo háskalega nærri, eða sýnist að minsta kosti að gjöra það".(1)

**Oft hefir verið mælt að séra Jón hafi verið "seytjándu aldar guðfræðingur". Það væri nú ekki mjög mikið varhugavert þó svo væri. En til að taka af öll tvímæli um "bókstafstrú" hans, bæti eg við þessum kafla úr síðastnefndum fyrirlestri.**

"Það að eg get ekki annað en verið á móti því, hvernig séra Jón Helgason hefir komið fram í þessu máli um biblíukrítikina, er alls ekki af því að eg hafi þá bókstafstrú á biblíunni, sem ráðandi var hjá guðfræðingum seytjándu aldarinnar. Mér stendur enn jafnmikill stuggur af þeirri guðfræðisskoðun, hvar sem hún verður fyrir mér í nútíðinni, eins og fyrir 28 árum, þegar eg mætti henni nýkominn frá Íslandi vestur um haf hjá einni lúterskri kirkjudeild hér í álfu. Eg leit á þá skoðun þá sem kreddu eða oftrúar öfgar, einkum þegar eg sá hve ónærgætnislega og fáránlega skoðaninni var beitt í kirkjufélagi því. Og það álit mitt er í aðalatriðinu óbreytt enn. En af sömu ástæðu hlýt eg að vera á móti hinni gagnstæðu skoðun á biblíunni, þegar eg sé að hún er orðin mönnum að þeirri öfga kreddu, sem allir eiga að vera skyldir að beygja sig fyrir nauðugir viljugir, svo sem væri þar um guðdómlegan sannleik að ræða, er sáluhjálp einstaklingsins og framtíðarvelferð kirkjunnar væri undir komin".

**Verður nú, ef til vill, mönnum skiljanlegra en áður, hvernig á því stóð að séra Jón mótmælti bæði biblíu-krítikunni og sérkenningum Missouri-kirkjufélagsins. Hann áleit hvorttveggja öfgar. Það er því auðsætt að séra Jón breytti aldrei um skoðun í kristindómsmálum. Hann barðist móti því, sem hann áleit hjátrú. En jafn-fús var hann að berjast á móti því, sem hann skoðaði vantrú. Ófrelsi og offrelsi var hvorttveggja á móti skapi hans. Hann var enginn öfga-maður, og gat ekki verið það. Til þess skildi hann of vel, bæði aðalmál kristindóms-opinberunarinnar og frelsið, sem Guðs orð veitir hverjum manni að velja og hafna.**

---

(1) "Þrándur í Götu". — Fyrirlestur. — Aldamót 1901.

**Rétt virðist mér, í þessu sambandi að benda á það, hvað varfærinn maður hann var, og hvað hann tók nákvæmt tillit til veikleika kristinna bræðra.**

"Setjum svo, að alt það reyndist satt, sem biblíu-kritik sú fer fram á, er séra Jón Helgason hefir tekið að sér. Það eru nú ekki miklar líkur til þess, að sú verði reyndin. En hugsum oss að þar sé aðeins um sannleik að ræða. Það getur eins fyrir því verið varúðarvert og beinlínis rangt í kristilegu tilliti að fara með það mál — þessa svo kölluðu "niðurstöðu hinna vísindalegu rannsókna" eins og gjört hefir verið. ——— Af tvennu illu er betra að taka of lítið tillit til vantrúaðra manna utan kirkju en trúaðra manna innan kirkju; betra að missa af vinsældum hjá hinum fyrnefndu en að hneyksla hina síðarnefndu".(1)

Ýms fleiri einkenni er hægt að telja upp, en rúmsins vegna verð eg að láta hér staðar numið. Bent gæti eg að endingu á hina yfirgripsmiklu þekkingu séra Jóns, og hin nákvæmu kynni hans af íslenzkum málum. Rit hans bera þess ljós merki, að fátt hefir það verið, sem nokkru varðaði af málum Íslendinga vestan hafs, að honum væri það ekki kunnugt, bæði af blöðum og bréfum að heiman. En minnið var ágætt og á skrifstofu hans var hvert blað á sínum stað.

Loks ber að minnast þess, hver iðjumaður hann var. Í huga sínum hefir hann eflaust sagt, "Þessum degi hefi eg glatað", eins og Markús Aurelíus, félli honum verk úr hendi dagsstund, sem sjaldan var. Enda er það, að eg hygg, eins dæmi meðal vor Vestmanna, hve mikilvirkur hann var. Hann var ritstjóri "Sameiningarinnar" 28 ár. Má með sanni segja að flestar greinir, sem honum voru sendar í blaðið, leiðrétti hann bæði að réttritun, orðavali og stíl. — Að minsta kosti er það reynsla þess, sem þetta ritar. — Hann samdi tvær ræður á viku, auk tækifærisræðna, sem oft varð að semja. Blaðagreinir hans skifta hundruðum. Hann gaf út Guðspjallamál. Sú bók ein væri nóg æfiverk fyrir meðalmann.

---

(1) "Þrándur í Götu". — Fyrirlestur. — Aldamót 1901.

Hann þýddi bók Monrads, "Úr heimi bænarinnar" og "Ben-Húr", eftir Wallace. Hann las mikið, þegar hann hafði nokkurn tíma til, og ritaði sjálfsagt mörg hundruð bréf á ári. Hann var forseti kirkjufélagsins yfir 20 ár, og var prestur í fjölmennum söfnuði. Alt þetta vann hann með svo mikilli nákvæmni, að vart getur slíka. Og fyrirlestrar hans eru margir og bæði langir og efnisríkir. Samt tók hann sjaldan á heilum sér síðari ár. En hann ritaði í rúminu, ef hann gat hrært hendi og penna.

Reynslan og tíminn verða að gera grein fyrir áhrifum hans. En ekki er ofsagt, að fjórðungur atorku kristinna Vestur-Íslendinga hafi fallið í valinn með honum einum. Ef til vill hafa áhrif hans flýtt fyrir trúmálabreytingum, bæði heima og hér. — Eindregin mótspyrna knýr fram til bardaga hin andstæðu öfl. En það tel eg víst, að ef vér nokkurn tíma komumst "Út úr þokunni", stjórnarfarslegu og trúarlegu, þá verði dr. Jóns Bjarnasonar minst, sem frumherja kristilegs og stjórnarfarslegs frelsis. En lengst mun minning hans vara vegna þess, að hann var ákveðinn, einlægur og góður maður. Og menn munu viðurkenna, að ádeilur hans,—þó bitrar væru,—voru knúðar fram af ást til Guðs og manna.







# Endurminningar og ummœli.

I.

Eftir herra Jóhann Briem.

EG þekti séra Jón Bjarnason frá því að hann fyrst kom til safnaðanna í Nýja Íslandi árið 1877 og til þess tíma að hann lézt árið 1914. Æfinlega, hvort heldur það var heima hjá mér eða heima hjá honum, var hinu sama að mæta hjá séra Jóni: fjörinu, glaðsinninu, einlægninni, velvildinni, alvörunni og göfuglyndinu. Var því sízt að undra, þegar eg hafði svo langa og góða kynningu af honum, þó eg bæri hlýrra hugarþel til hans en annara og virti hann umfram aðra vandalausa. Hann var alment, þar sem eg þekti til, virtur umfram aðra menn. Því til sönnunar skal þess getið, að veturinn þegar hann lá eina sína þungu legu, þá þótti ekki viðeigandi á þessum stöðvum að hafa neina skemtisamkomu, af ótta fyrir því, að hann mundi þá og þegar burtkallast. Svona mikil hluttekning í veikindum manns í mikilli fjarlægð mun vera einstök í sinni röð.

Á fyrstu árum séra Jóns Bjarnasonar í Winnipeg, þegar blaðið "Framfari" kom út, þá sendumst við á deilugreinum í "Framfara", út af mikilsvarðandi máli, sem snerti landnámið í Nýja-Íslandi. Svo stóð á, að landstjórnin hafði gefið Íslendingum einkarétt til landnáms í Nýja Íslandi. Var það kallað að

nýlendan væri "lokuð". Þetta virtist séra Jóni ótæk ráðstöfun og ritaði um það í "Framfara", og lagði til, að nýlendan væri opnuð fyrir öllum innflytjendum. Vonaðist hann til að menn, til dæmis Bandaríkjamenn, með peninga og alls konar verklega þekkingu, flyttu inn í bygðina; þess þyrftu landnámsmennirnir með. Tillaga þessi var sjálfsagt sprottin af beztu hvötum, en hún var bygð á grun, bjartsýnum grun. Á móti þessu ritaði eg í sama blað og hann. Þótti mér þessi opnunar tillaga ótæk og bygði skoðun mína á því, að innflytjendurnir myndu verða "ruslaralýður". En þetta var nú líka grunur, svartsýnn grunur. Ekki höfðu þessar áminstu deilugreinir hin minstu áhrif á þann kunningsskap, sem orðinn var með okkur. Svo kom að því, að nýlendan var opnuð, og í bráð komu hvorki ríku framfaramennirnir, og ekki heldur óþjóðalýðurinn. Á þeim tíma hittumst við séra Jón, og var þá minst á "Framfara"-greinarnar, og gjörðum við aðeins gaman að þessum spádómum okkar.

Enginn vafi er á því fyrir mér, að séra Jón Bjarnason er mesti Íslendingurinn, sem tekið hefir sér bólfestu hér vestan hafs. Ekki einasta mesti Íslendingurinn, heldur sannasti Íslendingurinn. Enginn hefir borið jafn ákveðið fyrir brjósti sanna velferð landa sinna. Fullan helming æfinnar barðist hann fyrir íslenzka skólamálinu hér vestra, kristindóminum og íslenzkunni til eflingar. Auðnaðist honum að sjá þetta sitt langþráða áhugamál komast í framkvæmd. Eftir fráfall séra Jóns var, sem kunnugt er, skólanum gefið nafn hans, en það mun ekki jafn kunnugt að nafnsins vegna gafst skólanum svo tugum þúsunda dollara skiftir, vitanlega með hliðsjón af því, hvað sú stofnun var mikið áhugamál séra Jóni.

Ef séra Jón Bjarnason verður ekki það sama hjá íslenzku þjóðinni með framtíðinni, sem þeir séra Hallgrímur Pétursson og Jón biskup Vídalín nú eru, þá verður hugsunarhátturinn gjörspiltur, þakklætis-

tilfinningin rír og kristindómurinn fer þverrandi. Það hefir jafnan verið einn göfugasti þátturinn í íslenzku þjóðerni, að virða sín fremstu mikilmenni og halda minning þeirra á lofti, hvort sem þau hafa skarað fram úr á andlega eða veraldlega vísu. Mér dettur ekki í hug að kveða á um það, hver þessara þriggja trúarhetja, Hallgrímur Pétursson, Jón Vídalín eða Jón Bjarnason sé mestur eða hver minstur, en grun hefi eg á því, að hinn síðast nefndi hafi lagt mest á sig, andlega og líkamlega, til útbreiðslu og stuðnings kristindóminum hjá þjóð sinni.

Eg mun jafnan minnast séra Jóns Bjarnasonar sem þess mesta og bezta manns, sem eg hefi kynst.

---

## II.

Eftir séra Matthías Jochumsson.

Séra Jón var víst 9—10 árum yngri en eg, og kom þó ári fyr í 1. bekk; eg kom í skólann 1859, en komst í 3. bekk A., var þá á 24. ári. Snemma urðum við mátar og þó fremur í hversdagslegum eða veraldlegum skilningi en andlegum. Hann var þá vart hálfþroskaður, en eg nálega fullorðinn. Eg sá fljótt og skildi, að hann var táppiltur, stiltur hversdagslega, góður og gætinn. Þeir Hólma-bræður, Tómas og Jónas, voru samferðamenn hans og lofuðu hann á hvert reipi fyrir hug og áræði, sinkum við árnar eystra—því áliti hélt hann síðan. Var eg vanur þegar fundum okkar bar saman á "ganginum", að klappa á koll hans og segja: "Jón, þú ert allra manna vænstur, allra manna snjallastur, allra manna beztur!" (Líkt og Jón biskup Ögmundsson hafði sagt um Ísleif biskup fóstra sinn). En ávalt var eg vanur að bæta við, og dró þá niðri í mér: — "í vötnum!" 20—30 árum síðar minti eg hann á þetta. Hann þroskaðist jafnt og vel, og varð meðalmaður, harður og knár, enda harðleikinn ef því var að skifta, en

hvorki mikill á lofti né afreksmaður; en trúverðari og siðbetri pilt þekti eg ekki. Gáfur fanst mér hann hafa í góðu meðallagi, en milku betur vanst að þeim hæfileikum, er hann virtist hafa, en annara, sem taldir voru næmari eða skarpari en hann. Það sem menn kalla nú manngildi eða karaktér, mun hann snemma hafa fest með sér og þroskað, og allur þótti mér hann vera orðinn meiri maður þegar aftur byrjaði félagsskapur okkar, eftir það að hann hafði lokið prófi á prestaskólanum og lifði við kenslustörf; voru þá fáir hinir yngri menn samrýmdari í Reykjavík en við þrír: Eiríkur Briem, hann og eg: Slóum við félagar þá oft í brýnu og lékum knattleik með alt á himni og jörðu. Þá kyntist eg (síðustu árin) ritum Dr. W. D. Channings, og höfðu hans skoðanir töluverð áhrif á okkur báða, en Eiríkur var minna "interessaður". Ibsen kunnum við víða utan að. Trú fundum við félagar litla í Reykjavík á þeim dögum, og enga hlýja eða göfuga lífsskoðun höfðum við þar fengið, en heldur vorum við Jón trúhneigðir að eðlisfari. Eg var þá hinn mesti skjáhrafn og skopaðist að sjálfri speki prestaskólans — einkum greip mig hlátur eitt sinn í tíma þegar kennari hálfdottandi var að útlista okkur **trinitatem ad intra**!

Einu sinni kom eg að vanda við hjá þeim Briem og hitti hvorugan heima. Eg hripaði þá nokkrar stökur á blað hjá þeim. Seinast var þetta:

Athuga þetta bróðir Briem
og Bjarnasonurinn spaki;
það er sárkalt sálar-hrím
á sannleiks hurðarbaki.

Sem dæmi þess, hvernig eg skoðaði mismun okkar séra Jóns — eftir að hann hafði tekið sér fasta stefnu, sem hann síðan hélt dauðahaldi — eins og eðlilegt var um hann, og sér í lagi eins og hann var settur, eru þessi orð, sem eg skrifaði honum: "Munur okkar er sá, að þótt hvor okkar fyrir sig sé eitt einasta glerbrot (eða prisma), þá snýr þú ávalt sömu röndinni að sólinni og hreyfist ekki, en eg



hringsnýst við hverri nýrri skímu". Hér var bita munur en ekki fjár.

Og svo læt eg þessar línur nægja, og bið mikillar velvirðingar. Bótin er að mikilmennið Jón Bjarnason þarf engra lofsorða frá neinum sinna æskubræðra — síst þeirra, sem varla hafa orðið hálfdrættingar við hann að dáðrekki og staðfestu.

---

## III.

Eftir prófessor **Eirík Briem.**

Við séra Jón Bjarnason kyntumst fyrst, er við vorum saman í latínuskólanum. Framan af gáfum við hvor öðrum lítinn gaum, en smám saman fór þó svo, að við urðum mjög samrýmdir, og áður en eg fór úr skóla var eg farinn að halda upp á hann meir en nokkurn annan af skólabræðrum mínum; því var það að við seinna komum okkur saman um, að búa saman, meðan hann var á prestaskólanum, og á þeim árum varð vinátta okkar svo föst og innileg, að þar kom aldrei nokkur snurða á fyr né síðar, þrátt fyrir það þótt við hefðum mismunandi skoðanir um ýmsa hluti og deildum oft um þær af kappi.

Séra Jón var gáfumaður með afbrigðum. Meðan hann stundaði nám á prestaskólanum varð hann að fullu og öllu að vinna fyrir sér og fékst mikið við kenslu, prófarkalestur o. fl. En þrátt fyrir þær frátafir, er hann hafði við þetta, varð hann svo vel að sér, að enginn fékk betri vitnisburð en hann af öllum þeim, er útskrifuðust af prestaskólanum þau 48 ár, sem sama fyrirkomulag var á prófinu sem þá.

Séra Jón var einarður maður og kjarkmikill, svo að af þeim mönnum, sem eg hefi þekt, er það varla nokkur annar en Jón Sigurðsson forseti, sem jafnaðist við hann að því leyti, og kom það fram hjá honum þegar á unga aldri. Þegar við vorum í latínuskólanum var Bjarni Jónsson skólastjóri og höfðu





lærisveinarnir mikinn beig af honum; sá eini af þeim, sem mér voru samtíða, er eg vissi að hafði fulla einurð við hann, var Jón Bjarnason; sami kjarkurinn kom einnig fram gagnvart félögum hans; hvort straumurinn var þar með honum eða móti, hafði það aldrei þau áhrif á hann, að hann beygði sig fyrir því, er honum eigi þótti rétt.

En það voru hvorki gáfurnar né kjarkurinn, sem mest var um vert, heldur það, hvað einstaklega vandaður maður hann var að eðlisfari. Frá því eg þekti hann fyrst voru hinar siðferðislegu kröfur svo samgrónar eðli hans, að það kostaði hann enga fyrirhöfn að temja sér að fara eftir þeim. Þessvegna var svo langt frá því, að hann á æskuárum sínum tæki þátt í nokkurri óreglu eða ósiðum, að hann dró engar dulur á þá andstygð, er hann hafði á öllu slíku, og reyndi að aftra öðrum frá því.

Rúmlega tvítugur var hann orðinn einlægur og heitur trúmaður og frá þeim tíma hafði hann stöðugt fyrir augum að verja lífi sínu Guðs ríki til eflingar.

Eg tel það mikið lán fyrir mig, að eg á æskuárum mínum komst í náin kynni við þennan ágæta mann og lærði að meta hann að verðleikum. Það var því eðlilegt, að eg bar innilegan kærleika til hans, og jafnframt einnig lotningu fyrir yfirburðum hans, og þetta mun jafnan fylgja endurminningu minni um þennan hjartfólgna vin þá tíð, sem eg á eftir að lifa.

---

## IV.

Eftir Þórhall biskup Bjarnarson.

Það hefir varla annar maður íslenzkur, að Jóni Sigurðssyni fráskildum, þessa síðustu mannsaldra, haft jafnmikla leiðtoga hæfileika og séra Jón Bjarnason. Veldur þar miklu um hvað allir voru sannfærðir um óeigingirni hans, jafnt vinir sem

óvinir. Hann barðist ávalt fyrir hugsjónum, sem honum voru helgar og dýrar, um sjálfan sig hugsaði hann aldrei neitt. Eins hlutu allir að finna það og játa, hve hreinn og beinn hann var í öllum orðum og skiftum. Óvæginn var hann og harðskeyttur, en um leið átti hann til svo mikið og alveg óviðjafnanlegt ástríki, og því var honum ljúfast og kærast að beita, og það aflaði honum svo margra og trúrra vina.

---

Séra Jón á heiðarsæti í íslenzkum bókmentum. Hann er einn af þeim, sem aldrei gat stungið niður penna svo, að allir þeir, sem stíl kunna að meta, þektu hann ekki. Ljósustu og fegurstu dæmi eru í Sameiningunni og fyrirlestrum hans, er annarsstaðar hafa birzt. Nokkra og ekki svo fáa hér heima, og þá hina gáfaðri hefi eg heyrt segja svo, að Sameininguna þyrftu þeir að sjá vegna greina séra Jóns. Guðspjallamál er auðvitað höfuðrit, en eigi get eg varist þeirri aðfinslu, að hann verði þar á stundum alt of langorður. Og hvað hann er íslenzkur! Kærst eru honum dæmin úr íslenzkum þjóðsögum. Meir talar hann til skilnings og vilja en til tilfinninga.

---

## V.

Eftir dr. phil. Jón Þorkelsson.

Með séra Jóni er mikill kappi fallinn í Ísrael. Sem kirkjumaður er hann einstakur íslenzkra manna um marga mannsaldra og meira til, og manni finst maður nærri verða að líta um 200 ár aftur í tímann, til þeirra Jóns biskups Vídalíns og Jóns biskups Arasonar, til þess að finna menn til samanburðar að gerð og skapferð.

Sá, sem nú hripar þessi orð, var lítið kunnugur séra Jóni persónulega. Kyntist honum lítið eitt árið 1899, þegar séra Jón var hér á ferð síðast. Bréfsorð höfðu farið á millum okkar hins vegar endrum og sinnum í mörg ár, og má eg játa, að eg var latari í

bréfaskriftunum en hann. En það er mér í barnsminni, að þegar eg heyrði tilrætt um Jón Bjarnason frá Stafafelli, þá sem æskumann, var jafnan svo þar um talað sem hann væri til nokkurra mikilla hluta líklegur. Og til voru þeir menn hér á landi 1889, sem þótti séra Jón væri maðurinn, sem þá ætti að taka við æðstu stjórn kirkjunnar í landinu eftir Pétur biskup. Vottar það, hvers virði maðurinn hefir þótt.

En aðalæfistarf séra Jóns varð ekki hérna megin Atlantshafs. Það varð vestanmegin meðal landnemanna frá Íslandi þar í landi. Þó að séra Jón væri ekki sá fyrsti héðan af landi, sem tók sér fasta bólfestu í Vesturheimi, verður hann þó altaf þar landnámshöfðinginn vorra manna, höfði hærri en aðrir menn. Það mikla starf, þrek og þol, sem hann hefir lagt í það að halda þar uppi íslenzkri kristni, íslenzkri tungu og öllu þjóðrækni og góðu, er ekki hægt að meta til hlítar, né heldur skýra í svo fáum orðum, sem hér eru faung á. En hitt er víst, að það hefir verið mikið, og skylt er að minnast þess með lotningu og þökkun nú að vertíðarlokum.



# Minningarljóð.

## I.

Eftir séra **Jónas A. Sigurðsson.**

Nú get eg ei kveðið, eg kann ekkert mál
um kærleik, er ómæltur býr mér í sál,
og enginn um ást þá má vita.
Eg veit að þeim barnaskap heimurinn hlær,
og helzt finst mér sjálfum það vanhelgun nær
að eg um þig reyni að rita.

Sem íslenzkur svanur í sárum eg bý
og suður í óbygðir fjaðralaus sný,
en bera vil harm minn í hljóði.
Í sveitinni alls ekki sungið eg get
en suður á heiðum þó skyldu eg met
að minnast þín, Guðs-vinur góði.

Með hrjóstrugri náttúru' 'ins hjartkæra lands
Eg helzt vildi minnast þess ágæta manns,
er Íslandi' og kristni þess unni.
En orð mín og hugasnir bera þess blæ,
hve bert er um gróður í frosti og snæ
er minst skal þess manns, er flest kunni.

Í líkingum skáldanna ljóð eg ei sem,
sem lang-oftast klæddur til dyranna kem,
og veit að þú, faðir, það vildir.
En það er mér djörfung, ef þú værir nær,
að þér yrðu minningarstef frá mér kær,
er orð mín og erindi skildir.

**Ísland** sveipast sorgartjöldum,
sorgarþungi býr í öldum,
Bergmál ekkans berst um fell.
Skildi þá ei **þjóðin** sakna, —
þjóðin, sem að hann lét vakna —,
Er Gústaf Adólf Íslands féll?

Björtu trúar brá hann sverði,
boðorð manna að litlu gerði,
úr ánauð vanans leysti lýð.
Bæði sæmd og sigur fann hann,
sýnilega einnig vann hann
annað þrjátíu ára stríð.

Þegar Svíar sáu falla
særðan holund, kappann snjalla,
við þeim enginn ofjarl stóð.
Eins og maður einn fram gengu,
annálaðan sigur fengu:
— Eins þarf að' gera íslenzk þjóð.

Oddvitanum enginn gleymi
Íslendinga í Vesturheimi
unz oss týnist trú og mál.
Konunglega hann bað og barðist,
Brestum, sundrung, trúskort varðist
heitum andans eldi' í sál.

— — — —

Einatt sýna sagnrit Snorra
sundrung, deilur feðra vorra,
af því seiði súpum enn.
Leiðtogarnir liðu, féllu,
létust fyr á Kóngahellu
og Stiklastöðum mætir menn.

Haraldsson gegn heiðni manna
hart fram gekk, og stórbokkanna
ótrúmensku innanlands.
Þambarskelfir, Þórir hundur,

þeir, sem líf hans tættu sundur,
fyrstir tóku upp helgi hans.

Forðum einn af ólafs vinum
eiðum batt sig flokknum hinum
er ætlaði kóngi æfiþrot.
Vamm er konungs vald í lagði,
"Við erum sáttir", gylfi sagði,
"en við Guð þitt bættu brot".

— — —

Slíka kosti konunglega
kærleiksþjónninn, er eg trega,
átti bæði ljóst og leynt.
Móðurblíða bjó í anda,
birti manndóm Norðurlanda,
einsog mjöll var hjartað hreint.

Engan manna mítur barstu,
merktur þó af Guði varstu
yfirmaður alls hans lýðs.
Fyrstur bæði í ræðu og riti,
reyndur jafnt að trú sem viti;
fús til sátta, seinn til stríðs.

Þú varst ekki aðeins prestur
í öllu lífi manna beztur:
kenslu, ræðum, kirkjustjórn.
Öðrum fremur altrúaður,
íslenzkur og kristinn maður.
Helft þíns lífs var heilög fórn.

— — —

En helgi einhver lýð og landi
lífsstarf sitt, þá byrjar vandi,
var svo forðum, er svo enn.
Í lífinu standa allar örvar
á þeim kappa, er síðast hörfar.
Heygðir verða þeir helgir menn.

— — —

Við deildum á þingi um þingsköp eitt sinn,
og þegar eg, örlyndur, starfa lét minn,

sér hann lagði fundarstjórn frá.
Eg man vel í einrúmi' 'ans hönd mér um háls
hve heit okkur tárin þá öftruðu máls;
og stórt fanst mér stórmennið þá.

— — — — —

En mér fylgir héðan-af minninga fans
um mikilleik, föðurþel, ástríki hans,
er fleiri' en hans nánustu nutu.
En heimskan og villan sízt vin áttu þar,
og vægðarlaust fréttu oft höfðingjar
ef andlega eitthvað þeir brutu.

---

Þú hugsaðir aðeins um **íslenzkra** hag,
og offraðir sjálfum þér nótt og dag
við mannbjörg og mannskaða bylji.
Nú finst mér við stöndum hér föðurlaus börn,
og framtíðin, andleg, sé villugjörn,
og margir sinn missir ei skilji.

— — — — —

Hjá 'onum virtist það hvorttveggja ríkja:
"Hér stend eg, Drottinn", og "aldrei að víkja".
— Ef lofar öld bæði Lúter og Jón
hví lýttu menn **þennan** Drottins þjón?
Hans deyjanda ávarp, með útsýn þess bjarta,
hin íslenzka þjóð ætti' að leggja á hjarta:
"Hvað gott er og íslenzkt og Guði frá
ei glatist né týnist í lífsins sjá".

— — — — —

Vort feðraland nam mörg aðals-ætt
og ól þar upp kóngborna syni.
Hin íslenzka þjóð, ef að er gætt,
er einnig af þræla kyni.
Og frá því er Vestmenn vógu Leif
**Og völdu sér útlegð sjálfir,**
um þjóðlíf vort alt sá andi sveif,
því urðu menn veilir, hálfir.

Það birtist í sögu séra Jóns, —
í sögunni' af Héðni og Njáli, —

sem stórhnekkir öllu starfi Fróns
með Sturlungaöld og báli. —
Frá lífskveldi 'ins fyrsta landnámsmanns
til leiðtogans íturborna,
er launvíg og uppreist leysingjans
enn landplágan, sem til forna.

Hann fórnaði hagsæld, hylli, auð,
er hjálparlaus stóð hans lýður.
Hjá þjóð sinni fékk ei þökk né brauð,
og þó vann hann engu að síður.
Um fórn hans og kærleik fátt var sagt,
né frábæra andans kosti.
Og stundum það illa út var lagt,
sem ofsatrú, valdaþorsti.

En yfir þér látnum ljómar sól
og lofræður eru fluttar.
Nú heyrist þar aðeins óskift hól
er oft voru kveðjur stuttar.
En Bolli, er rauf sitt bróðurheit
og banasár andlegt veitti,
nú harmar það, er þig hniginn leit,
hve hrekkvíslega hann breytti.

— — — —

Með Friðjóni situr þú friðarþing
og fyrir oss enn þú biður,
sem íslenzkri kirkju,—Íslending,
að eining og trú og friður
enn sigri þau öfl, er særðu þig
og sundruðu Íslands börnum.
— Eg vona þú, faðir, munir mig
í mildinni ofar stjörnum.

— — — —

Nú situr hér "eftir sár á kvist' "
þinn sambúðar engill góði;
þó kirkja og þjóð hafi mikils mist
hún meira syrgir í hljóði,
er viðsmjöri helti í hjartans und,

og hvatti þig, ættlands sonur,
og hjúkraði alt að hinzta blund
sem hjúkrað fá slíkar konur.

— — — —

Er hollvættir Íslands þá fluttu heim fregn,
að fallinn sé ættjarðar lang-bezti þegn,
sinn vin kvaddi vorhiminn tárum.
Í sorgarhjúp vöfðu sig fell og fjöll,
en fölva sló döprum um hlíðar og völl,
og andvarp steig unnar frá bárum.
Í lífi og dauða þín dýpsta var þrá
þinn Drottinn að lofa — og Ísland að sjá, —
það lá við þú beinin þar bærir.
Það ann enginn betur því landi, þeim lýð;
þú landsfegurð skildir og mannanna stríð
þó erlendis aldur manns værir.

— — — — —

Eg man er við horfðum, í haustkyrð, frá strönd,
er hafsólin gylti þar ódáinslönd
í vestri, er vorum að skilja.
Eg fann, hve það boðaði framtíðar dýrð,
eg finn, að þú, vinur, í ljósinu býrð. — —
Eg bíð — eftir bending Guðs vilja.

— — — — — —

Nú horfi eg aleinn frá útlendri strönd,
en eygi' í námunda feðranna lönd,
því Ísland og Eden við þráðum — —
eg veikur og lítill, þú styrkur og stór. —
Mun stefnudag hinzta, í eilífðar kór,
hið **íslenzka** efst í hug báðum.

---

## II.

Eftir séra **Valdimar Briem.**

Eg horfi yfir hafið, — **Atlants**-haf;
þar hnigin er í vestri logskær sól.
Hún hefir sent sinn síðsta geislastaf,

og sjávardjúpið mikla hana fól.
Það enn var heitt þótt hallað væri degi,
vér hugðum að svo bráðla kólnaði' eigi,
og byrgði fyrir sólu svona fljótt
hið svala djúp, og væri komin nótt.

Eg horfi yfir hafið, — **tímans-haf,**
á hina förnu, löngu glæsibraut.
Ei sífelt byrinn greiðan Drottinn gaf,
en greiðast lét hann fram úr hverri þraut.
Á móti straumi' og stormi heimsins köldum
þú stóðst sem hetja, í geystum tímans öldum.
En nú er loksins komin kyrð og ró,
þú kominn heim af lífsins ólgusjó.

Eg horfi yfir hafið, — **dauðans-haf**;
það haf er aðeins lítið örmjótt sund.
Þótt sýnist horfin sólin þar í kaf,
hún sést á ný, og eftir skamma stund.
Nú stendur þú á ströndinni' hinumegin,
vér störum kvíðablandnir fram á veginn,
oss sýnist yfir sundið býsna strangt,
en sú er bótin, — það er ekki langt.

Eg horfi yfir hafið, — **lífsins-haf,**
sem himin speglar, undra stórt og vítt.
Þar stafa geislar Drottins dýrðar af
á djúp hans náðar skært og unaðsblítt.
Í þessu skæra ljósi nú þú lifir.
Ef lítur þú hinn gengna feril yfir,
þá verður margt, er sýnist dimt og svart,
við sól Guðs náðar aftur ljóst og bjart.

— — — —

Þig langaði' æ enn til Íslands heim,
þíns ættarlandsins forna kæra,
þess bygðir að sjá og sveitum þeim
þá síðustu kveðju' að færa,
og eftir þann fund
að fá þér blund
í friðarins skauti væra.

Þig langaði heim það land að sjá,
sem landið var feðra þinna.
Nú loksins er bætt úr þeirri þrá,
og þrautina tókst að vinna.
Og vinina nú,
sem þráðir þú
loks þér hefir veizt að finna.

Þú farinn ert heim til föðurlands,
til friðarins lands á hæðum,
í fagnaðar-landið lausnarans,
sem ljómar af himins gæðum.
Og dýrlegra er
þar alt en hér
á Íslands köldum svæðum.

Þótt fagurt sé vorra feðra land,
þá fegra' er í dýrðar-landi;
þar vinnur ei ís né eldur grand,
þar allur er horfinn vandi.
Þar grædd eru' öll mein,
já, gleði hrein
í Guðs borg er ævarandi.

Þar framliðnir vinir fagna þér
og fortíðar guðsmenn allir;
þér útvaldra fagnar helgur her
og herskarar Drottins snjallir.
Og lausnari þinn
þig leiðir inn
í ljómandi dýrðar hallir.

— — —

Nú ert þú fallinn, hetjan Drottins hrausta
og hellubjargið vort hið sterka' og trausta.
Í alda djúp nú er þinn dagur siginn.
Nú ert þú hniginn.

Þú barðist fyrir þjóðerninu þínu,
að þjóðin eigi týndi marki sínu, —
þó ætíð laus við illa þjóða-ríginn.
Nú ert þú hniginn.

Þú barðist fyrir þinnar þjóðar menning,
að þróast mætti hollra fræða kenning.
Þér ávanst mikið, öflug voru týgin.
Nú ert þú hniginn.

Þú barðist fyrir fornum kristindómi,
er fanst þér orpinn nýja tímans grómi.
Þú óttaðist þar aldrei skörð í vígin.
Nú ert þú hniginn.

---

Já, þú ert hniginn, ei þó fyrir elli;
þinn innri bruni lagði þig að velli,
með hreinan skjöld og hvassan orðsins skjóma,
það hátt skal róma.

Oft hart og títt þú hjörinn þunga reiddir,
er högg til varnar orði Drottins greiddir.
Þér mjög var sárt um Drottins helga dóma,
það drótt mun róma.

Þú Drottins hetja varst um vora daga,
það vottar jafnan íslenzk kirkjusaga.
Og er þú félst, þú hneigst með sönnum sóma,
mun sagan róma.

Þín saknar margur, sigurhetjan slinga,
Þú sverð og skjöldur Vestur-Íslendinga.
Á meðan íslenzk orð þar vestur hljóma,
þig æ þau róma.

Þín minning eigi' í kirkju Krists mun gleymast,
með kristnum lýð hún mun um aldir geymast.
Og nafn þitt æ á lífsins bók mun ljóma,
Guðs lofgjörð róma.

(Kvæði þetta er áður prentað í "Nýju Kirkjublaði", en var af höfundinum ætlað einnig Minningarriti þessu.)

---

III.

Eftir séra Matth. Jochumsson.

Hausts á kveldi sígur sunna,
senn er eftir þumal-spönn;
óðum kólnar, bliknar, breytist
bæði loft og jörð og hrönn;
inn á hugans hundrað strengi
hreimar streyma, tóna slá
þá, er bráðu bankahruni
blómsins sumar hokri spá.

Lífs á kveldi sígur sunna,
sýnilega bregður lit;
vestur á feigðar furðuströndum
falinn móðu einn eg sit —
einn með slitna æfi-drauma
örlagabundinn leynivað;
mæðast taka andans augu,
eins og Byron forðum kvað.

Þú, sem fyr til furðustranda
fluttir ungur hrausta sál,
þú, sem lífsins þrengri leiðir
þræða bjóst og flýja tál:
seg mér, hvar er hönd þín, hlýri,
heyrir þú minn vinar-róm?
hvar er eg, og hvar er leiðin?
hefirðu skilið lífsins dóm?

Situr þú mér sjálfur nærri
sveyptur þoku líkt og eg?
sérðu kannske sama brimið,
sömu hrjóstrin ægileg?
Gekk þér líka sama sólin
sama hringinn — þér sem mér? —
sama hringinn — sama hringinn
sannleikstýran mörgum fer.

Veit ég þú ert, vinur, nærri —
vötnin þagna, kyrrist þeir —

er nú sem í rauða-rökkri
ræði' í næði vinir tveir:
Þú sem forðum sterkur, stiltur,
stöðugur sem gróin björk,
eg sem pálma villi-viður,
vaxinn fram á eyðimörk.

Svör þín heyri' eg — heyrði fyrri —
hressist eg og sönsum tek,
já, með ástar hlýju hjarta
hluttekning í lund mér vek.
Hafísköldum heljarrúnum
hugans vísa skal á bug;
hjartað spyr ei hót um rúnir,
heldur kærleikstrú og dug. —

Færist ljós að furðuströndum,
fjörgast augu, hressist lund,
sé eg yfir feikna flæmi,
fjöll og dali, sæ og grund,
sé á ótal alda raða
orustuvöll og Héðins víg:
eina falla, aðra rísa —
okkur sýnist — fyrir gýg.

Fyrir gýg? nei, förum hægan;
fjarri slíkt er mínum grun;
skiftir mjög hver vopni veldur,
vopna líka sé eg mun.
Þarna fellir fylking heila
Filisteans asna bein;
þarna bregða bitrum hjörfum
bleyðimenn og — höggva í stein!

Ekki vopnið, heldur höndin
Hildar gildir mest í þraut,
undir flestum ytri kjörum
andinn má sér ryðja braut.
Það er vitið, hjartað, höndin
heimi sem að vinnur bót;

eitt þó veit eg vopnið bezta:
viljann brýndan kærleiks rót!

Leyndardóma læt eg kyrra,
lúnum nægir minni þraut,
hygg og æðsta himnaspeki
**hér** að velja rétta braut.
Dómur Krists á degi hinsta
dæmir ei um fræði, vit,
heldur um hinn hreina vilja,
hjartans rót og trúar nyt.

Sé eg þína stöð í stríði,
stærra leit eg margra svið,
en að hreinum hug og vilja
hefir fár þig jafnast við.
Hver er mannsins huggun æðsta
hausti að og lækki sól? —
Hugsjón þá að hafa varið,
hjartans sem er bezta skjól.

Blessan þér og bræðrum þínum;
blessan yfir lífs þíns starf!
Það mun verða sagt um síðir:
**"Sá fór vel með föður arf".**
Þökk fyrir alla þessa **smáu**,
þú sem hélzt við föðurgarð.
Þar eru feður þeirra **stóru**,
þegar verk þín bera arð. —

Hvað er nú? mér sýnist sólin
sýnu hærri nú en fyr.
Er ég ekki aftur heima,
aftur barn við lífsins dyr? —
Svo er það; þó sjónir fölni,
sé ég fögur tímamót,
því hið sanna, göfga, góða
geisla slær á lífs míns rót.

Hver mun fyr, hver síðar sofna?
Syrgjum það ei, bróðir kær,

gaf oss ekki gæðin beztu
Guð og faðir náðarskær?
**mér** eitt lítið stef að stama
stundu lífs í háum kór,
**þér** með hraustri hönd að rækta
helgan reit, sem verður stór.

Hræðumst aldrei haust né vetur,
hræðumst enga furðuströnd,
aldrei kemur sólar setur
sannleikans við himinrönd;
ljóssins son því lítils metur
líkams þó að trosni bönd,
ávalt séð hinn góði getur
Guðs hin dýru sumarlönd.

(Ljóð þetta er orkt á fyrsta vetrardag 1897 og er prentað í Ljóðmælum séra M. J. frá 1903, II. bindi, bls. 146. Er þess var farið á leit við skáldið, að prýða Minningarrit þetta með ljóði um fornvin sinn, óskaði hann þess, að þetta ljóð væri tekið og valdi það sjálfur sem minningarljóð um dr. J. B.)



